# Ármann á Alþíngi

eda

almennur Fundur Íslendínga

Ársrit

fyrir búhölda og bændafólk á Íslandi

Fyrsti Árgángur

fyrir árið 1829.

Útgéfið af

Þorgeiri Gudmundssyni og Baldvini Einarssyni
Cand. theolog. Stud. juris.

Kaupmannahöfn 1829.
Prentad hjá C. Græbe.

# Öllum Íslendíngum

en sérílagi öllum

Kostgæfnum og árvökrum Búmönnum,
Trúum og dyggum Vinnuhjúum,
Audsveipum og námfúsum Unglíngum

Senda

## Þorgeir Gudmundsson og Balduin Einarsson

kvedju sína!

Í útlöndum skiptast menn í flokka eptir atvinnuvegum, og halda hinir einstöku limir í hverjum flokki saman; þannig eru trésmidir, skósmidir, klædasmidir og s. frv. flokkar hverjir útaf fyrir sig. Þeir hafa hverr fyrir sig vissann stad, hvar þeir safnast saman þá er þeim líkar, bædi til skémtunar, og einkanliga til ad rádgast um þad sem horfir til ad frama þeirra sýslanir, og ad efla flokksins atvinnuveg og velgengni. Tala þeir jafnan er vitrastir eru og reyndastir og æfdastir; leggja þeir sitt til hverr, en hinir sem yngri eru og minni atgerfismenn hlýda á, og taka eptir því sem þeir ekki vita. Á þennan hátt hafa sýslanirnar og atvinnuvegirnir nád miklum þroska.

Þó ad þér, elskudu og heidrudu landar!

vildud taka þennann sid upp eptir útlendum, þá er land ydar helst of umfángsmikid og strjálbygt til þess ad almennur fundur gèti ordid, en þá er annar vegur til ad finnast og skipta ordum og þaunkum og tilfinníngum, og þad er sá, ad skrifa eda prenta þad sem hverr vildi sagt hafa, ef fundum hefdi saman borid. Vèr höldum því, ad kæmi slík bók út á Islandi sem væri um búnadarháttu og annad er horfir til ad efla bændastèttina, þá mundi hún ad mestu leiti gèra ena sömu nytsemi, eins og þær ofannefndu flockasamkomur hjá útlendum, þó med því eina móti, ad bókin væri skrifud af hinum vitrustu og reyndustu og æfdustu mönnum, lærdum og ólærdum, og lesin af almenníngi; því þegar einn madur les þad sem margir hafa skrifad, þá er þad hid sama eins og hann heyri þá alla tala, og þegar margir lesa eina bók, þá er þad hid sama eins og þeir sèu allir samankomnir og heyri á tal þeirra eda þess er skrifad hefir. Slíkur bæklíngur væri þá eins og samtal eda fundur allra Islendínga, hvar sá gæti talad er vildi, sá hlýdt er vildi, og sá spurt er þad vildi.

Ad koma því til leidar ad slíkur bæklíngur yrdi stofnadur, þad var tilgángur ockar, heidrudu og elskudu Landar! þegar vèr med bodsbrèfi, dagsettu þann 16 Aprilis í fyrra, budum hverjum sem vildi og gæti, ad senda ockur stutta ritlínga um þad sem þeir best þecktu, og þeir vissu uppá víst ad væri eda gæti ordid nytsamligt fyrir fósturjörd vora, til ad láta prenta þá í bæklíngi þeim, er vèr þá lofudum ad gèfa út, og hugdum ad kalla Ármann (af því hann skyldi koma árliga), og öllum ad kaupa hann þegar hann kæmi,

(og því bættum vér við nafnið: á Alþíngi, af því vér vildum að hann yrði almennt lesinn). Urðum vér svo heppnir, að flestum af yður líkaði framvarp okkar, þótt önnur bókakaup, og ýmisligur örðugleiki hindraði flesta, í þetta sinn, að styrkja það með hluttekníngu sinni. Margir hinir vitrustu menn, bæði lærðir og leikir, hvöttu oss að byrja, ef svo margir hlúttakendur yrðu að vér sæum nockurn veg til þess. Í haust eð var komu svo fáir, að eigi var til þess að hugsa, en með póstskipinu bættust svo margir við að vér réðustum í það, þó seint væri, en þó alleina í þeirri von, að hluttakendurnir mundu heldur fjölga enn fækka eptirleiðis.

Þessi blöð eru þá byrjunin, heiðruðu og elskuðu Landar! og munu þau verða að heita fyrsti Árgángur. Við hann er þessa helst að geta:

Fyrst, að hann vantar þann eginligleika er vér ætluðustum til að bæklíngurinn skyldi hafa: að hann innihaldi ritlínga frá mörgum um ýmislig einstök efni, því á þann hátt alleina, getur hann orðið gagnligur og alþjóðligur; kémur það til af því, að vér ecki gátum beðið neinn um ritlínga, ámeðan vér ecki vissum hvört bæklíngurinn kæmi út eða ecki; hefir og hin sama óvissa aptrað mörgum frá að senda ockur það er þeir þó höfðu á reiðum höndum. En þar margir málsmetandi menn og reyndir menn hafa heitið ockur ýmsum ritlíngum, vogum vér að lofa því að nefndann eginligleika skuli eigi vanta eptirleiðis. Má því enginn ætla, að þeir árgángar sem hér á eptir kunna að koma, verði þessum líkir að innihaldi, og allrasíst að ófullkomligleika, þar sem þessi árgángur

er skrifadur ad mestu leiti af mér einum, Baldvini Einarssyni, sem bædi er enn úngur og littrádinn; því þó eg vildi telja mér þad til gildis, ad eg hafi erfidad og lifad á medal ydar í bændastéttinni allt fram á mín fullordins ár, þá er svo lángt frá því ad þad uppfaki þad sem hér kann ad vera áfátt, ad þad þvertámóti væri þess stærri minkun fyrir mig, ef eg hefdi talad ónærgætnisliga um hana, og farid fjarmælum um þad sem henni vidkémur; og þótt eg géti ecki borid þad af mér, ad eg eigi sídur eptir enn ádur enn eg breytti stødu minni, hafi gódan vilja á ad þjóna, ásamt med ydur, ad því, sem kynni ad horfa hinni heidarligu bændastétt og fósturjørd vorri til hags og eblingar, ad svo miklu leiti sem mínir veiku kraptar leyfa, þá veit eg líka hitt: ad gód meining enga gérir stod. Auk þessa tók eg svo seint til, þar eigi var ad sjá ad neitt yrdi af stofnan og útgáfu bæklingsins, fyrri enn Póstskipid kom. En þrátt fyrir allt þetta, vona eg samt ad blød þessi innihaldi ýmisligt er reyndir og skynsamir bændur vildu hafa sagt, og líka sumt er hinir kynnu ad hafa látid sér um munn fara (og eg sjálfur lét mér um munn fara á ýngri árum mínum) sem þad eru midur. Er hvørttveggja med vilja gért, því vér vildum, álíka eins og snillingurinn Vice-løgmadur Eggért Olafsson ad ordi kémst, í formálanum fyrir Búnadarbálki, ad bæklingurinn gæti hljódt vondum og gódum, løtum og ástundunarsømum, skynsømum og heimskum, upplýstum og midur upplýstum; því svosem þér eigi þurfid ad fyrirvyrda ydur, þó þad sé sagt, ad margir séu á medal ydar í bændastéttinni yfirtaks skynsamir og upplýstir, enda

framsýnir annara landa almúga, eins megid þér heldur eigi reidast þvi þó sagt sé, ad nockrir á medal ydar, eins og á medal allra annara þjóda, séu skilnínna og lítid upplýstir, eda þá svo ólagliga ad þad sé litid betra enn ecki (þad fyrsta og sídasta átti ogsvo heima hjá mér, Bald. á mínum yngri árum, og hefdu vissuliga ordid meiri brögd ad því, hefdi eigi sjaldgæft eptirdæmi foreldra minna lýst fyrir mér og haldid mér nálægt vegi). Ætl-umst vér til ad þessi Argángur, ásamt med Sýnis-horninu því í fyrra, sé nockurskonar inngángur eda formáli fyrir því sem á eptir kann ad koma, og vonum vér ad sumt í honum sé eigi med öllu óhæfiligt eda óhentugt fyrir únga menn og litid reynda. En þad vansmídi sem á er, bidjum vér ydur audmjúkliga ad halda ockur til góda, og færa á betra veg; vonum vér ad þad fæli ydur eigi frá ad styrkja fyrirtækid, einkum þar vér einnig lofum ad haga þá bæklíngnum eptir því sem ydur kynni ad sýnast betur fara.

Þarnærst er ad géta þess ad vér höfum prentad Búnadarbálk Eggerts Olafssonar í árgangi þessum, bædi vegna þess ad hann átti svo prýdiliga vid efnid, og líka hins, ad hann hefir ætíd verid kalladur meistarastikki, bædi af innlendum og útlendum, og loksins til þess ad sýna hvernig þeir ritlíngar, sem til ockar verda sendir, verda prentadir í bæklíngnum. Vér vissum ad sönnu ad hann hafdi ádur verid prentadur í Hrappsey, enn vér vissum líka hitt, ad hann var nú ordinn eins sjáldgæfur eins og hann er í miklu afhaldi.

Ad endíngu viljum vér frambera tvær bænir fyrir Ydur, heidrudu og elskudu Landar! Önnur

# Armann á Alþingi

eda

## almennur Fundur Íslendínga

Ársrit

fyrir búhölda og bændafólk á Íslandi

Fyrsti Árgángur

fyrir árið 1829.

Útgéfid af

Þorgeiri Gudmundssyni og Baldvini Einarssyni
Cand. theolog. Stud. juris.

Kaupmannahöfn 1829.
Prentad hjá C. Græbe.

# Öllum Íslendíngum

## en sérílagi öllum

**Kostgæfnum og árvökrum Búmönnum,**
**Trúum og dyggum Vinnuhjúum,**
**Audsveipum og námfúsum Unglíngum**

Senda

## Þorgeir Gudmundsson og Balduin Einarsson

## kvedju sína!

Í útlöndum skiptast menn í flocka eptir atvinnuvegum, og halda hinir einstöku limir í hvörjum flocki saman; þannig eru trésmidir, skósmidir, klædasmidir og s. frv. flockar hvorjir útaf fyrir sig. Þeir hafa hvörr fyrir sig vissann stad, hvar þeir safnast saman þá er þeim líkar, bædi til skémtunar, og einkanliga til ad rádgast um þad sem horfir til ad frama þeirra sýslanir, og ad efla flocksins atvinnuveg og velgengni. Tala þeir jafnan er vitrastir eru og reyndastir og æfdastir; leggja þeir sitt til hvörr, en hinir sem yngri eru og minni atgérfismenn hlýda á, og taka eptir því sem þeir ecki vita. Á þennan hátt hafa sýslanirnar og atvinnuvegirnir nád miklum þroska.

**Þó ad þér, elskudu og heidrudu landar!**

vildud taka þennann sid upp eptir útlendum, þá er land ydar helst of umsángsmikid og strjálbygt til þess ad almennur fundur géti ordid, en þá er annár vegur til ad finnast og skipta ordum og þaunkum og tilfinningum, og þad er sá, ad skrifa eda prenta þad sem hvørr vildi sagt hafa, ef fundum hefdi saman borid. Vér høldum því, ad kæmi slík bók út á Íslandi sem væri um búnadarháttu og annad er horfir til ad efla bændastéttina, þá mundi hún ad mestu leiti géra ena sømu nytsemi, eins og þær ofannefndu flockasamkomur hjá útlendum, þó med því eina móti, ad bókin væri skrifud af hinum vitrustu og reyndustu og æfdustu mønnum, lærdum og ólærdum, og lesin af almenníngi; því þegar einn madur les þad sem margir hafa skrifad, þá er þad hid sama eins og hann heyri þá alla tala, og þegar margir lesa eina bók, þá er þad hid sama eins og þeir séu allir samankomnir og heyri á tal þeirra eda þess er skrifad hefir. Slíkur bæklingur væri þá eins og samtal eda fundur allra Íslendínga, hvar sá gæti talad er vildi, sá hlýdt er vildi, og sá spurt er þad vildi.

Ad koma því til leidar ad slíkur bæklingur yrdi stofnadur, þad var tilgángur ockar, heidrudu og elskudu Landar! þegar vér med bodsbréfi, dagsettu þann 16 Aprílis í fyrra, budum hvørjum sem vildi og gæti, ad senda ockur stutta ritlínga um þad sem þeir best þecktu, og þeir vissu uppá víst ad væri eda gæti ordid nytsamligt fyrir fósturjørd vora, til ad láta prenta þá í bæklingi þeim, er vér þá lofudum ad géfa út, og hugdum ad kalla Ármann (af því hann skyldi koma árliga), og øllum ad kaupa hann þegar hann kæmi,

(og því bættum vèr við nafnið: á Alþíngi, af því vér vildum að hann yrði almennt lesinn). Urðum vèr svo heppnir, að flestum af yður líkaði framvarp ockar, þótt önnur bókakaup, og ýmisligur örðugleiki hindraði flesta, í þetta sinn, að styrkja það með hluttekníngu sinni. Margir hinir vitrustu menn, bæði lærðir og leikir, hvöttu oss að byrja, ef svo margir hlúttakendur yrðu að vér sæum nockurn veg til þess. J haust eð var komu svo fáir, að eigi var til þess að hugsa, en með póstskipinu bættust svo margir við að vér réðustum í það, þó seint væri, en þó alleina í þeirri von, að hluttakendurnir mundu heldur fjölga enn fæcka eptirleiðis.

Þessi blöð eru þá byrjunin, heiðruðu og elskuðu Landar! og munu þau verða að heita fyrsti Árgángur. Við hann er þessa helst að géta:

Fyrst, að hann vantar þann eginligleika er vèr ætluðustum til að bæklíngurinn skyldi hafa: að hann innihaldi ritlínga frá mörgum um ýmislig einstök efni, því á þann hátt alleina, sgétur hann orðið gagnligur og alþjóðligur; kémur það til af því, að vér ecki gátum beðið neinn um ritlínga, ámeðan vér ecki vissum hvört bæklíngurinn kæmi út eða ecki; hefir og hin sama óvissa aptrað mörgum frá að senda ockur það er þeir þó höfðu á reiðum höndum. En þar margir málsmetandi menn og reyndir menn hafa heitið ockur ýmsum ritlíngum, vogum vér að lofa því að nefndann eginligleika skuli eigi vanta eptirleiðis. Má því enginn ætla, að þeir árgángar sem hér á eptir kunna að koma, verði þessum líkir að innihaldi, og allrasíst að ófullkomligleika, þar sem þessi árgángur

er skrifadur ad mestu leiti af mér einum, Baldvini Einarssyni, sem bædi er enn úngur og littrádinn; því þó eg vildi telja mér þad til gildis, ad eg hafi erfidad og lifad á medal ydar í bændastéttinni allt fram á min fullordins ár, þá er svo lángt frá því ad þad uppsaki þad sem hér kann ad vera áfátt, ad þad þvertámóti væri þess stærri minkun fyrir mig, ef eg hefdi talad ónærgætnisliga um hana, og farid fjarmælum um þad sem henni vidkémur; og þótt eg géti ekki borid þad af mér, ad eg eigi sídur eptir enn ádur enn eg breytti stødu minni, hafi gódan vilja á ad þjóna, ásamt med ydur, ad því, sem kynni ad horfa hinni heidarligu bændastétt og fósturjørd vorri til hags og eblingar, ad svo miklu leiti sem minir veiku kraptar leyfa, þá veit eg lika hitt: ad gád meining enga gérir stod. Auk þessa tók eg svo seint til, þar eigi var ad sjá ad neitt yrdi af stofnan og útgáfu bæklingsins, fyrri enn Póstskipid kom. En þrátt fyrir allt þetta, vona eg samt ad blød þessi innihaldi ýmisligt er reyndir og skynsamir bændur vildu hafa sagt, og lika sumt er hinir kynnu ad hafa látid sér um munn fara (og eg sjálfur lét mér um munn fara á ýngri árum minum) sem þad eru midur. Er hvørttveggja med vilja gért, því vér vildum, álika eins og snillingurinn Vice-løgmadur Eggért Olafsson ad ordi kémst, í formálanum fyrir Búnadarbálki, ad bæklingurinn gæti hlýdt vondum og gódum, løtum og ástundunarsømum, skynsómum og heimskum, upplýstum og midur upplýstum; því svosem þér eigi þurfid ad fyrirvyrda ydur, þó þad sé sagt, ad margir séu á medal ydar í bændastéttinni yfirtaks skynsamir og upplýstir, enda

framyfir annara landa almúga, eins megid þér heldur eigi reidast því þó sagt sé, ad nockrir á medal ydar, eins og á medal allra annara þjóda, séu skilfinna og lítid upplýstir, eda þá svo ólagliga ad þad sé lítid betra enn ecki (þad fyrsta og sídasta átti ogsvo heima hjá mér, Hald:v. á minum yngri árum, og hefdu vissuliga ordid meiri brögd ad því, hefdi eigi sjaldgæft eptirdæmi foreldra minna lýst fyrir mér og haldid mér nálægt vegi). Ætlumst vér til ad þessi Argángur, ásamt med Sýnishorninu því í fyrra, sé nockurskonar inngángur eda formáli fyrir því sem á eptir kann ad koma, og vonum vér ad sumt í honum sé eigi med öllu óhæfiligt eda óhentugt fyrir únga menn og lítid reynda. En þad, vansmídi sem á er, bidjum vér ydur audmjúkliga ad halda ockur til góda, og færa á betra veg; vonum vér ad þad fæli ydur eigi frá ad styrkja fyrirtækid, einkum þar vér einnig lofum ad haga þá bæklíngnum eptir því sem ydur kynni ad sýnast betur fara.

Þarnæst er ad géta þess ad vér höfum prentad Búnadarbálk Eggerts Olafssonar í árgangi þessum, bædi vegna þess ad hann átti svo prýdiliga vid efnid, og líka hins, ad hann hefir ætíd verid kalladur meistarastícki, bædi af innlendum og útlendum, og loksins til þess ad sýna hvernig þeir ritlíngar, sem til ockar verda sendir, verda prentadir í bæklingnum. Vér vissum ad sönnu ad hann hafdi ádur verid prentadur í Hrappsey, enn vér vissum líka hitt, ad hann var nú ordinn eins sjáldgæfur eins og hann er í miklu afhaldi.

Ad endingu viljum vér frambera tvær bænir fyrir Ydur, heidrudu og elskudu Landar! Önnur

þeirra er ádur framborin í bodsbréfinu, og þad er þessi: ad þeir af ydur sem hafid þeckingu og reynslu og æfingu, gérid oss þad eptirlæti, ad senda ockur ritlínga um eitt eda annad sem íhugunarverdt er fyrir Islendskann almúga, eda þá styttri hugvekjur sem vér gætum notad; hvorutveggja tökum vér med þöckum, og munum vér géta þeirra í bæklingnum er þad géra. Hin bænin er sú, ad þér, sem kaupid bæklinginn lesid hann á kvöldum á veturnar, til skémtunar, eins og sögur eda rímur. Vonum vér ad þér verdid eigi sídur vid þessari bæninni enn hinni.

Ad þetta fyrirtæki ockar allra, sem egum hlut ad því, hvort heldur sem kaupendur, eda rithöfundar eda útgéfarar, mætti verda fósturjördu vorri, oss og nidjum vorum til nockurra nota, þartil bidjum vér allir Gud ad géfa sína blessan, eins og til allra annara fyrirtækja vorra.

Gud veri med ydur öllum!

Skrifad í Kaupmannahöfn á Sumardaginn fyrsta árid 1829.

# Ármann á Alþingi.

## (Sýnishorn).

Madr hét Sighvatr og var Atlason; hann var hár vexti, lima-rettr og vel vaxinn, skarpleitr í andliti og vel eygdr, bjartr á hár og nockut hrockinhærdr, léttr á fæti og hvatligr; hann var vel skapi farinn, stiltr og hógvær, gætinn í ordum og mjøg varkár í dómum sínum um þá hluti, er hann ecki þeckti til hlítar. Hann var vel viti borinn og allra manna sidprúdastr í sinni stétt. Hann bjó nordr í Skagafirdi á eignarjørd sinni, er hann hafdi at erfdum tekit eptir fødr sinn. Hann var búsýslumadr mikill, og búnadist honum vel, enda hyrdti hann manna best um jørd sína; þó var hann ecki ríkr haldinn, því hann hafdi mikla fjølskyldu at annast. Þat var eitt vor, er hann ferdadist, sem optar, sudr á land til skreidarkaupa, at hann ádi á Hofmannafløt á Jónsmessu nótt; þar láu tveir menn fyrir, er komit høfdu at sunnan, og ætludu nordr; annar þeirra hét Þjódólfr og var ættadr austan úr Flóa; hann var lágr madr vexti og þrekligr, móeygdr og svarthærdr, stórskorinn í andliti og heldr ófrídur,

ordigr i skapi, þegar þol baud vid at horfa, og ecki þókti hann mikill vitsmuna-madr vera. Hann var yfrit mótfallinn öllum nýbreitingum, og fylgdi forfedra sinna sidvenju í öllum sínum háttum. Hann var audigr at fé, en nockut adsjáll; kvad svo mikit at sparsemi hans, at hann þyrmdi hvorki sér né ödrum. Hinn var þurrabúdar madr sunnan af Seltjarnarnesi, og nefndist Önundr. Hann var medalmadr á voxt, hvítleitr og grannleitr, hinn mesti oflátúngr og sundrgjördarmadr í klædum og öllu vidmóti, velgáfadr, en ærit fljótfær i dómum sínum. Hann hafdi frá barnæsku uppalist í og í grend vid Reikjavík, og hafdi þar numit marga hleypidóma, á medal hvorra sá var hinn lakasti, at hann fyrirleit sína egin þjód, og gaf útlenzkum alleina heidrinn; hann héldi líka at allir útlenzkir sidir og bjargrædisvegir gætu strax innleidst a Íslandi. Hann var mjög dönskuskotinn í tali sínu og þóktist mikit af því, en sveitamenn áttu bágt med at skilja hann.

Um morguninn komu þessir þrír menn saman, og rædduſt vid um ýmsa hluti; loksins hefst Þjódólfr upp úr eins manns hljódi, og mælti: gaman væri at sjá hann Ármann gamla, sem hérna býr uppi í fellinu.

Önundr: Hann Ármann! er du gal? hann hefir aldrei verit til. —

Þjódólfr: fyrst hann var ecki daudr hérna

um árit, þegar biskupinn frá Hólum reid sudr, þá er hann víst enn á lífi.

Sighvatr: sleppum þessu, piltar gódir! látum ockr heldr rída ofanad Öxará, fyrst vedrit er svo gott, og skoda þann stad, hvar Alþíng var haldit; þat hefir mátt vera skémtiligt at koma á þann alþjódliga fund í gamla daga. —

Ön: ecki er eg bedjærlegr eptir at sjá þann stad, því Alþíng var alténd ein taabelig indrétting.

Þjód: þad segir þú satt. Alþíng var mikit fallig stiptan.

Ön: ekki vóru þat mín ord, din taabe! eg sagdi þat hefdi altánd verit heimskulig indrétting; skilurdu þat nú?

Þjód: taladu ecki svona, Önundr minn! fyrst þeir gömlu hofdu Alþíng, þá hefir eitthvad kvedit at því. —

Sighv: Ecki hefir Alþíng verit betra fyrir þat at þeir gömlu héldu og sóttu þat, samt þori eg ecki at segja, at þat hafi verit vitlaus stiftan, því þar komu árliga öll landsins yfirvöld saman, og yfirvegudu þess efni og öll vandamál; líka hefir þat þárídliga vid þessa eldgömlu samkomu, vakit og vidhaldit hjá almenníngi vyrdingu fyrir landinu og þess lögum, og hefdum vid mátt ráda, Þjódólfr minn! þá hefdi Alþíng stadit enn.

Þjód: skaldan er breitt til betra, Sighvatr minn! en nú skulum vid fara af stad, vid leggjum ecki upp í dag, hvort sem heldr er, fyrri enn í kvøld, fyrst þat er helgr dagr.

Ön; helgr dagr í dag! mikit sibl ertu, Þjóðólfr! sem von er til, fyrst þú ert úr Flóanum; Varla held eg at messurnar þær arna séu helgar, því sunnudagarnir sjálfir eru ecki helgir framar enn hvørr vill; eg sé þat á þeim í Reikjavík, sem arbeida alla daga eins, þegar þeim liggr á. —

Sighv: Ecki skulum vid fara í bríxlyrdi, Piltar! verit gétr þat at sønnu, at austanmenn séu ecki eins lífligir og fjørugir einsog vær Nordlendíngarnir, sem þid bregdit svo opt um, at vid séum ædi miklir á lopti, eda eins mjúksidadir, eg meina, eins vel búnir og dønskuskotnir einsog þid í kríngum Reikjavík, en þeir hafa sína kosti fyrir því. En hvat helgidagana snertir, þá eru þeir bædi nytsamligir og naudsýnligir, og hafa þeir frá aldaødli verit helgir haldnir af serhvørri sidadri þjód, eptir guds og manna bodum.

Eptir at þeir høfdu nú hrest sig á brennivínstári, sem Önundr hafdi med sér, ridu þeir af stad allir saman. Þeir ridu mikin, því laungunin eptir at sjá Alþíng rak eptir þeim, en Þjóðólfr og Sighvatr vóru jafnan fremstir, því þeir høfdu vakrasta hésta.

Þegar þeir komu ofanat Öxará, skyngdist Sighvatr allt umkring, og segir med alvarligum svip: hérna var Alþing haldit fordum; hérna sögdu forfedr vorir lög og rétt; hér hugleiddu þeir landsins efni, og skáru úr öllum vandamálum; hérna vóru þau rád árliga tekin, sem horfdu til ad efla Þjódarinnar blómgvan og þroska; hér var kristni lögtekin fyrir rúmum átta hundrud árum; hérna var líka lidsdráttr hafdr, þegar forfedr vorir ætludu at rádast í einhvørr stórvyrkin, og samtök gjørd, þegar frelsi manna var trodit undir fótum, eda þegar einstakra manna metordagyrnd, eigingyrni, rádriki og heiptrækni skyndist at gánga úr hófi; þarna hafa búdirnar stadit, þarna var lögberg, þarna er Almannagjá, þat er nú allt sem eptir er af því eldgamla, alþjódliga og hátídliga Alþíngi, sjálft þíngit er lidit undir lok og þjódarinnar gamli þeinkíngarháttr, sem Alþíng einkum hjálpadi til at vidhalda, fer líkliga sömu leidina. Þat vakna upp hjá mér hatídligar tilfinníngar og harmr undireins, þegar eg renni huga mínum til hinna fyrri tíma, þá Alþíng stód í blóma sínum, og þeirra sem nú eru, á hvørjum þessi stadr er med öllu í eidi látinn.

Þjód: eg segi sama til, enda sögdu gamlir menn; at Alþíng hefdi verit einhvørr sá hátídligasti og yndisligasti fundr, sem þeir hefdu komit á. Eg kom hér einusinni í uppvexti mínum med födr mínum,

og man eg til þess enn, eins og þat hefdi skéd í gjær. —

Ön: ecki þyki mér behaganligt í þessu brauni; þá er þad skemtiligra í Reikjavík, þar er madr nær tóbaki, brennivíni og Kaffe, sem opmuntrar sinnit. Ecki skil eg heldr at fyrri tídirnar hafi verit betri enn þessar, þá vóru engir kaupstadir til, og eckert af þeim hressíngarmedølum sem eg nefndi; en þessar tídir kynnu at blífa lángt betri, ef menn vildu hætta þessu gamla slendríani, og begynda med at leggja sig eptir akuryrkju, skóga-pløntun, kaffe- og tóbaksplontun, fabríkvæseni og fleiru sem hjá útlendum tídkast.

Þjód. Eg vil engar nýbreitíngar hafa, þær hafa optar ordit oss at illu enn gódu; eg hefi heldr engan tíma til at vera at pæla upp alla jørdina, og hlada endalausa garda. Þeir ruddu sig líka hérna um árit, þegar þeir reistu klædamylnuna á Sudrlandi; en hvørnin fór? hún vallt á høfudit med ølkusaman. Adra ætludu Nordlendíngar at reisa, en hún komst aldrei á koppinn, og þeir sem løgdu pensínga til, fengu lítit eda eckert aptr.

Sighvatr: satt er þat, Þjódólfr minn! at margar breitíngar hafa oss til óhamíngju ordit, ecki síst hvat Skólana snertir, en samt gétr þat ecki ordit oss at tjóni, þó vid gjørum smávegis tilraunir med þat, hvørt korn og tré géti vaxit í landi voru.

En at þú, Önundr! hælir þessum tídum framyfir þær gømlu, þá held eg þat sé fjærri réttu, því ef þat er satt sem stendr i vidbætirnum vid Galletti's ágrip af veraldar søgunni, sem landi vor og sagnaritari sýslumadr Espólin hefir útlagt á vora túngu, og ef þat er áreidanligt sem fornsøgur vorar herma frá landsins ásigkomulagi, - þá hafa fyrri tídirnar haft mikla yfirburdi yfir þessar, bædi í tilliti til skóga, akryrkju, jardarræktar, høndlunar og fleiri hluta Hvat því vidvíkr at þú, Önundr minn! villt láta ockr taka upp ýmsar nýúngar, er máské, yfir høfud at tala, ekki illa meint, því altend hefi eg hugat, at bædi mætti endrbæta margt af því er á medal vor tídkast, og líka innleida nýa bjargrædisvegu, er landi voru kynnu at verda at notum; — en þat er audséd at kaffe og tóbakspløntun ecki getr artast, og er þaradauki midur naudsynlig, enda gætum vid nægst med minna af þessháttar enn nú herst at høndum; ei at sídr vantar mig þeckíngu til at géta dæmt um, hvat hellst kynni at verda oss at notum, en þat vyrdast mér dæmin sýna, at ecki megi flasa at þeim breitíngum sem útheimta mikinn kostnad.

Í þessu bili kémur til þeirra madr nockr mikill vexti; hann hafdi sídt skégg, og var mikit elliligr. Hann heilsar þeim, þeir taka vel kvedju hans.

Adkomumadr. Hvat er þat þér rædit um, gódir brædr?

Þjódólfr. (grípur strax framm í) Eg vil engar nýbreitingar hafa, þær hafa sem optast ordit oss til skammar og skada. Eg haga mér í öllu eins og hann fadir minn og hann afi minn sæll, og hefir þat lánast mér vel hingadtil.

Adkomumadr. Ecki er þín háttsemi betri fyrir þat, þó þú breitir eptir þeim, því þó þeir hefdu, til dæmis, verit trassar, þá væri trassaskapr þinn eins óhagkvæmr fyrir þat. Ecki heldr er rétt á þat litit, at allar nýbreitingar muni verda skadligar, þó sumar hafi ecki heppnast.

Önundr. Þat kunni eg nok at þenkja, at madr þessi mundi taka sér af minni meiníng. Eg segi at Íslendingar skuli leggja vind uppá akryrkju, skógaplöntun, fabríkvæsen, og annat deslige.

Adkomum. Er þessi madr danskr, má eg spyrja?

Önundr. Nei nei, en eg er svona hálfdanskr; eg er fæddr í Nærheden af Hovedstadinn Reykevig, og hefi aldrei flutt lengra bort, enn runtin um kríng nesit.

Adkomum. Þú ert þá íslendskr, og er ecki verdt fyrir þig, at skammast þín fyrir þat. Vil eg núráda þér til at tala betr þitt egit módurmál, ef þú gétr, eda reyna til at læra þat, ef þú ert svo vankunnandi í því sem þú lætr; þú gétr talat

denskn fyrir því, þegar fundum þinum ber saman vid danska, ef þú ert fær um þat; þat er ecki svo lítilsverdt sem þú ætlar, at tala vel sitt módurmál, því auk þess, at þat er skömm at vera mjög vankunnandi í því, þá sýnir Veraldarsagan, at þegar ein þjód hefir verit farin at vanrækja sína egin túngu, þá hefir hún verid í aptrför, því þat er merki uppá, at þjódin ber ecki tilhlídiliga vyrdíngu fyrir sjálfri sér.

Hvat þitt framvarp áhrærir, um Akuryrkju, Skógaplöntun og Fabrikr (sem vid máské gétum kallat verksmidjur og verksmidja-ydnir), er þú vilt at ásamt ödrum níbreytíngum innleidist hér hjá oss, þá þarf nú meira enn segja þat svona athugalaust úti loptid.

Sighv: vitrliga talar þú, gamli madr! og sé eg at þú gétr frædt oss um marga hluti, og géfit oss mörg heilrædi, og því vil eg segja þér undirrótina til þessarar ockar vidrædu, fyrst hinir hafa ecki gért þat. Vid ódum allir saman uppi á Hofmannaflöt í nótt, en af því vid vildum hvíla hesta ockar í dag, kom ockr saman um, at rída hingat, til at sjá þennan heidarliga stad, hvar forfedr vorir héldu Alþíng; — Eg hrærdist innvortis þegar eg heyrdi til þess, at búit væri at nidrleggja þettad eldgamla og alþjódliga þíng, og lét í ljósi sorgar tilfinníngar mínar yfir því, at landsins óstand

væri nú i mørgu lakara enn á fyrri døgum, þegar þíngit stód i blóma. Þegar Ønundr heyrdi þat, vard hann forvida, og kvad landsins ástand mundi nú betra enn á fyrri tídum, en hellt þó at hagr þess mundi enn mikit batna mega, ef innleiddir væru ýmsir nýir bjargrædisvegir, svosem akryrkja, skógaplantun og annat þesshattar, eins og hann sagdi þér ádan. Þegar Þjódólfr heyrdi þat, svipádi honum, og svaradi á þá leid, sem hann hermdi þér sjálfr. Mér vyrdtist nockut hæst í því sem bádir søgdu, og fór því medalvegin; eg sagdi nefnilega, at margt mundi, ad líkindum, bæta mega af því, er á medal var tídkadist, nýir bjargrædisvegir kynnu líka at géta innfærst, ef vitrliga og varliga væri at farit; En af því eg hefi eckí vit á at dæma um, hvada breitíngar eda nýungar kynnu hellst at verda at notum, þækti mér mikils umvarda, ef þú vildir fræda mig nockud gjørr um þetta efni.

Adkomumadr. Gjarnan vilda eg gjöra at bæn þinni, ef eg mætti; en eg vil fyrst segja yckr, í stuttu máli, álit mitt um meiníngu hvørs yckar fyrir sig, og allra yfir høfud. Ef Ønundr rédi til at yfirvega náqvæmliga, hvørt nockrar nýbreytíngar eda nýir bjargrædisvegir kynnu at koma landinu at notum, og giøra tilraunir med þat, sem vyrdtist nytsamligt og giørligt, eda eckí krefdi mikinn kostnad, ístadinn fyrir at heimta, at slíkar nýúngar og breitíngar skuli innfærast, án þess

at yfirvega, at hvat miklu leiti landsins efni og asigkomulag leiffa þat, þá væri hanns ráð gott; og ef Þjóðólfr þarámoti, rédi til, at fara varliga og forsjáliga at ollum nýbreitingum og betrunar til raunum, ístadinn fyrir at álykta af brakfollum þeim og óhoppum, er sumar af þessháttar breitingum hafa ordit fyrir ó medal vor, at allar hljóti at fara á somu leid framvegis, þá væru hans tillogur vitrligar; gætu þá beggja meiningar samþydst, og væru bádar sama innihalds sem þín meining Sighvatr; því þegar Önundr er of framgiarn og fljótrádr, þá heldr Þjódólfr honum aptr, og þegar Þjódólfr er of seinfær, og ófús til nýbreitinga, þá hvetr Önundr hann, hvaraf framkémr nockrskonar jafnvægi sem mér vyrdist yfirgnæfa hjá þér. Nu hefi eg sagt yckr álit mitt um meiningu yckar hvors fyrir sig, og allra yfir hofud, en nú er eptir at segja yckr, hvorjar nýúngar og breitingar helst kynnu at verda at notum, og er þat þrautin þýngri, en vandasamast er þó at segja, med hvorjum hætti þær kynnu at géta komist á, og ætla eg því at leida þat hjá mér at þessu sinni, en á hitt gétum vid drepit med fám ordum, þó tíminn sé naumr.

Þær nýungar sem Önundr hefir tilgreint, nefnliga skógaplontun, akuryrkja og þvílikt, væru at sonnu mikit gódar, ef þær gjætu ártast hér í landi, en þared þat er mjog óvíst, og margt af því sem

í medal vor tídkast, þarf töluverdrar lagfæringar vid, þá ætla eg þat sé nær, at hugsa ecki svo hátt í fyrstunni, en géfa sig heldr vid því sem liggr nær oss, og verdr oss fyrst um sinn at meiri notum.

Sighvatr. Hvat er þat gamli madr?

Adkomumadr. Þat er margt sem bædi vidkémur einstaka landsplátsum, og öllu landinu yfir höfud. En nú ætla eg at spyrja þig at annari spurningu, hvat er þat sem mest undirbýr mannsins Kjör?

Sighv. Ef þat er ecki gott barna uppeldi og uppfrædíng, þá veit eg ecki hvat þat gétr verit.

Adkomum. Ertú því samdóma Önundr?

Önundr. Já, en þat gétum vid best lært af þeim dönsku; þat er ædi munur á, hvad kaupstada börnin kunna sig betr enn bænda börnin ofan úr sveitunum.

Adkm. Vera kann þat, at kaupstadabörnin séu vel frædd um þá hluti, er vidkoma því standi, sem þau sidann vænta at lífa í, en ólíkligt er at þau fái þat uppeldi, sem er hendtugt fyrir þau börn, er sídan verda bændr. En hvat segir þú, Þjódólfr minn! hértil?

Þjódólfr. Eg held at þat sé at sönnu gott at ala börnin vel upp, en eg held líka at þat þurfi ecki mikla kunnáttu til þess. Eg segi fyrir mig, eg hefi aldrei verit kalladr skýr eda lærdr, þó eg, med

raupinu og öllusaman, hafi ecki heldr verid heimskr; en ecki hefir á ödru borit, enn eg hafi gétad uppalit krackana mína. Eg hefi strax géfit þeim nýmjólk eda einhverja kroptuga fædu, þegar þaú hafa komit útaf módrlífi, til at hressa þau á, og fá þau til at dafna, sídan hefi eg látit vefja þau innanní þyckva reifa, og bundit þétt utanum med lindanum, svo þeim skyldi verda nógu hlýtt; þegar þau hafa farit at skálpast og verda ódæl, þá hefi eg barit þau eins og fisk, svo þat er ecki mér at kénna, at þau eru bædi þrá og stórlynd. Ecki hefi og heldr vanit þau á letina, því sídann þau komu úr vöggu, hefi eg haft þau vid vinnu, og aldrei lidit þeim at vera ydjúlausum, eda hafa ólæti; Barnalærdóminn hefi eg látit þau hlaupa yfir í hjáverkum, til at koma á fermíngunni, og nú veit eg ecki hvad vantar á gott uppeldi.

Adkomnum. Ecki held eg at þetta sé sá besti máti til at uppala börn, og fleira mun þarvid adgjætsluverdt enn þú hefir talit, ef þat á at vera gott uppeldi; Dýrin verja miklu meira ómaki til at uppala af kvæmi sitt enn þú. Eg sæ ecki í þetta sinn, frædt þig um barnauppeldit til hlítar, eg vil því láta mér nægja at segja þér þetta: Nýmjólk og önnur kroptug og þúng fæda, er óhendtug fyrir úngbarnanna veika maga; at vefja þau blautlimudu úngbörn innanní þyckva reifa, er skadligt, og

því skadligra, sem þéttara er umvafit með linbönum, eda ætli þér findist þat þægiligt at vera fjötradr svona núna, og hefir þú þó sterkari limi enn þau? At hindra börninn frá at leika sér, og berja þau eins og sist fyrir hvörja yfirsjón, er ofr sáfrædisligt. En þegar madr vill ala sér upp godan hest, eda venja hund, kostar þad ecki nockurt ómak og adgætslu?

Þjód. Biddu fyrir þér! jú mikla. Madr skal fyrst láta folann gánga undir módrinni, ala hann sídan vel á gódu heyi, kémba hönum á hvörjum degi og bera hönum vatn, klippa hann í nárunum, og passa at húsid hans sé hendtugt og hreint. Þat á at vera hátt undir fram fótunum, og hátt í stallinn, svo hann þurfi at tegja sig, þarvid venst hann til at bera falliga höfudit. Heyit á madr at velja grænt og gott, og varast at þat sé ornat, svo at hann fái ecki innihnjósku, líka á at hrista þat vel í hvört sinn. Ecki á madr einúngis at ala önn fyrir at folinn verdi feitr, heldr at hann verdi sörugr. At rída hestefni til kosta, er mikill vandi; madr verdr meira at neita lags enn orku, og vinna hann med tímanum ef hann er þver. Ecki hjálpar at beita keirinu mikit; þat er best at neyta þess sjaldan, og þá at gagni, annars verdr hann þrár og stadr. Ef madr kann ecki sjálfr at rída hest til kosta, þá er miklu betra at

koma honum til einhvörs reidmanns til kénslu. Vanti mann kunnáttu til at hyrda hann á vetrardag, eda gott fódr, er betra at koma honum nidr hjá einhvörsum sem hvörugt vantar, því þó þat kosti mikit, er ecki sláandi eptir því, þegar þat er gott hestefni; Paradauki á madr at venja fæxit falliga, og klippa hann snoturliga á vorin. Líttu á hann grána minn þarna. hann sýnir þat hvört eg kann ecki at fara med klárana.

Önundr. Þat er satt, þat er sá mesti stólpagripur og hlaupavargr sem eg hefi þeckt; hann hefir allt til at bera.

Þjód. Sama er at seigja um lambaeldit. Þegar eg hefi alid lömbin vel á fyrsta og ödrum vetri, þá hafa ordit úr þeim bestu saudir. En vilji madr venja hund, þá verdr madr at æfa hann opt, og löcka hann med ýmsu móti, þangadtil hann er fullnuma.

Adkomum. Þarna ertú heima, Þjódólfr! nú þókti mér þér takast upp. Þegar þú talar um at venja hunda, ala upp saudi og göd hestefni, þá talardu eins og reyndr og vitr madr, þá skal enginn vera þér málsnjallari. Þú berd ecki alleina umhyggju fyrir hestsins styrkleika og vekurd, heldr einnig fyrir hans heilbrygdi og fegurd, þá kanntu at tempra hyrtinguna eptir þörfum. Ef þú ecki þykist vera fær um at hyrda folann og kénna honum,

sem þér líkar, þá kémurdu konum strax nidr, og sparar hvorki ómak né tilkostnad, til at geta fengid gódann hest. Já, hvat meira er, þú hefir útvegat þér þeckíngu á þessu öllu siálfur, svo þú ert nú uppá engann kominn, og getr enda kennt ödrum.

En þegar þú talar um uppeldit á börnunum þínum, þá talardu eins og barn, sem hvorki veit til hægri né vinstri; Þá dettr þér ecki í hug, at bera umhyggju fyrir heilbrygdi þeirra, og því sídur fyrir útvortis kurteisi og fegurd; þá kanntu eckert hóf a hyrtíngunni. Ecki tímirdu heldr at siá af einum skildíngi, til at koma börnunum nidur hjá einhvorjum, sem getr uppfrædt þau.

Barnauppeldit þitt, Þjódólfr minn! er álíka einsog þú skyldir taka gódgengan fola, og láta hann gánga úti á gaddinum med hinum trippunum, færir sídan at temja hann, ádr enn hann hefdi fengit krapta til at bera þig; af því þú hyradir ad hönum baggadi leti og þrái, berdir þú hann miskunarlaust á báda becki. A þennan hátt gæti ecki hjá því farit at þú vixladir hann, og nýddir úr hönum allann gáng, íllann og gódann, veikladir hans úngu og óþálbudu krapta, og gérdir hann þaradauki latann, þráann og slægann, og nú segdi eg at þú hefdir farit ílla med gott hestefni.

Þjódólfr. Já ílla skammarliga! en bændrnir

ega at kunna at hyrda quikfénad sinn, en ecki at vera lærdir.

Adkomumadr. Satt segir þú þat at vissu, og er þat mjøg hrósverdt at þú kannt svo vel at hyrda saudfénad þinn, og uppala hestefni, en bóndinn er þó ecki einúngis skapadr til at ega og uppala hunda, kétti, kindr, kýr og hesta, heldr til at ega børn og uppala þau vel, og þared skaparinn hefir hagad þvi svo til, at madrinn skyldi elska afkvæmi sitt, ecki einasta framyfir onnur dýr, heldr framyfir adra menn, þá hefir hann þarmed géfit til kynna, at vér ættum fyrst og fremst at vera umhyggju fyrir, at uppala og uppfræda børnin vel.

Þjódólfr. Þat kann at vera, en eg held at børnin læri svona sjálfkrafa, þat sem þau medþurfa; í þat minnsta skil eg ecki, hvat madr gétr altaf vérit at troda í þau. Mér sýnist þat vera nóg, at vera kominn af gódum.

Adkomumadr. Þat er at sønnu gamall málsháttr: Gott er at vera af gódum kominn, en veitsu hvat hann þýdir?

Þjód. Þat held eg viti þat. Þvi þá er madr betri, og líka er haft meira vid mann, þegar madr kémur einhverstadar.

Adkomumadr. vegna hvørs?

Þjód. Nú, af þvi madr er kominn af gódum.

Aðkomumaðr. Hvat heldr þú, Sighvatr?

Sighvatr. Eg held þat sé gott at vera af góðum kominn þessvegna, at þeir góðu láti sér mest annt um velferð barna sinna, og verji þessvegna meiru ómaki enn aðrir, til at uppala og uppfræða þau vel, og hvat mest er verdt, gángi á undann þeim með góðum eptirdæmum.

Aðkomumaðr. Rétt er þat! allir láta sér segjast, nema þú Þjóðólfr. Eg hefi nú ecki önnur ráð með þig, en vísa þér til hans meistara Jóns; hann talar nógu skorinordt um þat sumstaðar, at þat sé minnst af skyldu foreldranna við börnin, at kasta þeim inní heiminn; hvaraf ráða má, at honum þykir mikit í þat varit at uppala og uppfræða börnin vel.

Þjóð. Já mig ránkar nú við því, at hann tali eitthvað á þessa leið, og vissi hann hvat hann sagði blessaður; en þetta gétr ecki hljóðat uppá mig, þviat eg hefi uppalit börnin mín sjálfr.

Aðkomumaðr. Þat hefir þú at vísu giört, því enginn gétur neitað þér um þat, at þú sért dugnaðar bóndi, enn þú hefir þó ecki alit þau eins vel upp, eins og hann Goðsvinnr á Sólheimum; hann hefir ecki alleinaként börnum sínum at skrifa og reikna, sem fleirstir nú annars kunna, heldr og einnig dönsku, svo at synir hans géta lesit danskar bækur, sér til gagns og gamans. Hann

hefir kent þeim garðyrkju, og at hyrða vel um tún og engjar. Hann hefir kent þeim smíðar, og haganligustu búabyggíngar; hann hefir opt talat við börn sín um búnaðarháttu yfirhöfuð, og vellt því efni fyrir þeim á allar síður, og gefit þeim mörg þarat lútandi heilræði, og, hvat meira er, hann hefir gefit þeim röksemdir fyrir, hvörsvegna hvörr hlutr skyldi vera svo, og ecki öðruvísi, svo börnin kunna nú ecki einasta allt hvat hann kendi þeim, heldr vita þau líka, hvörsvegna þau ega at hafa hvað eina svo eða svo. Ecki lét Goðsvinnr sér síðr annt um at börnin yrðu hraust og heilsugóð, þrifin og kurteis, svo börnum hans nú ecki einasta búnast betr enn öðrum, heldr þykja þau vera umfram aðra menn, í öllum mannkostum.

Þjóðólfr. Ecki hefi eg kent börnunum mínum þetta, því eg kann þat ecki sjálfr, enda veit eg ecki hvört þat er ómaksins verdt. Eg veit líka dæmi til, at þeir bændr, sem hafa lagt sig mikit ofaní bækr, hafa orðit ónýtir til alls annars.

Aðkomumaðr. Vera kann þat at sönnu, at mikill bókalestr dragi suma bændr frá öðrum störfum, einkanliga þegar þeir lesa þær bækr, sem höndla um aðra hluti, enn þeirra sýslan og stétt viðkemr, en um þetta kvarta þó tíðast þeir einir, er aldrei hefðu orðit neinir dugnaðar-bændr, hvört

sem heldr var. En eg ætlast ecki til at bændr skuli leggja sig eptir eginligum vísindum, svosem skáldskap, og ödru þvílíku; en þaramóti vil eg ráda þeim til at kynna sér, sem mest þeir meiga, allt þat, sem skrifat hefir verit og skrifat er um þá hluti, er vidkoma þeirra egin standi og störfum, því þat kann at verda þeim at störum notum í búskapnum.

Ef þú villt renna auga til þeirra efnugu í þeim sveitum, sem þú ert kunnugr, þá muntu siá, at fleiri á medal þeirra eru lésnir og frödir um búnadarháttu og annat, enn á medal hinna fátæku; og þaraf álykta eg, at ef fleiri hefdu betri þeckingu á búnadar háttum, þá yrdu fleiri efnamenn og færri sárfátækir.

Þjódólfr. Þat kann at vera, en varla held eg þat sé ómakssins verdt at tefja sig vid at rífa upp alla jördina, og hlada kartöfflugarda og kálgarda. Ecki veit eg heldr hvört þat er möguligt at hyrda betur um tún og engjar, eda at byggja bæi uppá annann betri hátt enn nú tídkast, og dönsku mápokurinn læra í minn stad, því ef eg fæ bréf fra einhvörjum kaupmanninum, þá fer eg med þat til prestsins míns.

Adkomumadr. Nú skulum vid tala fyrst út um barna uppeldit. Ef þú vissir nú uppá víst, at þat mætti ala börnin uppá annan betri hátt

enn nú tídkast á medal almúga, svo at þau þarvid yrdu farsælli, ætla þú vildir þá ecki uppala börnin þín á þann hátt?

Þjódólfr. Jú, ef eg vissi at þau yrdu ríkari, og eg tefdist ecki mjög mikit vid þat, því vænt þyki mér um krackana mína.

Sighv. O! eg vildi mikit tilvinna at eg kynni at uppala börnin mín vel, þad er at segja: svo at þau verdi hraust, heilsugód, þolin, skynsöm, dygdug og duglig í sinni stétt.

Önundr. Eg segi sama til, en eg hefi allareidu lært þat í Hovedstadinn Reykjavík.

Adkomumadr. Eg sagdi þér þat ádan, Önundr minn! at madr muni varla fá lært þat barnauppeldi í Reykjavík, sem hendtugt er fyrir íslendskann almúga; en mér er þat nóg, at þid viljid allirsaman taka upp annann betri barnauppeldismáta, þegar þid adeins þeckid hann, því þá er allt á gódum vegi. En þegar madr vill engar breitíngar hafa, af því þær eru nýar, hvört sem þær eru nytsamligar eda ecki, þá er engrar vidréttíngar von.

Fyrst ockur kémur nú saman um þetta, þá vil eg vita hvört svo fer um fleiri hluti. Ef þú nú vissir, Þjódólfr minn! ad Gardyrkjan væri ardsöm, og borgadi vel kostnadinn, heldurdu at þú vildir þá ecki leggja þig eptir henni?

Þjóðólfr. Þat vilda eg feginn, aldrei segja þeir at eg hafi slegit hendinni á móti ábatanum; en mér er sagt at kálmeti sé létt fæða, og sumt sé tómt gras, og þarf ecki at sækja þat í kálgardana.

Aðkomumaðr. Veitstu ecki at korn og baunir og bygg og grjón er líka gras, og því sagdi Eggért Olafsson: "vissu þeir at þat væri gras, vid Kaupmanninn þeir hefdu mas." Ef þú gjætir reiknad kostnad og ábata, og vissir hvørninn maturtir best tilreidast, þá mundir þú brádum leggja þig eptir jardyrkju.

Þjóðólfr. Já, ef eg sæi at eg hefdi ábata á henni, enn hvar gét eg lært hana?

Aðkomumaðr. svo margar bækr eru ritadar um þetta efni á vora túngu, at ecki er torveldt at læra þat hellsta þarat lútandi.

Þjóðólfr. Eg hefi enga trú á þessum bókum, eg nenni heldr ecki at vera at lesa þær.

Sighvatr. Lesa skyldi eg þær bækur sem þarum höndla, ef eg hefdi tíma til þess, (og þat gjæti eg þá á veturnar og á sunnudøgunum), eda ef eg væri fær um at kaupa þær allar, sem ecki er, en eg óttast fyrir at sumar af þeim lofi ofmiklu, af því at rithøfundarnir hafi haft tillit til þeirra frjófsømustu ára, og frjófsømustu stada, hvar gardyrkjan hefir ydkast undir hinna æfdustu gardyrkju-

manna umsjón. En þegar viðvanínguriun, sem aldrei gétur lært til fullś af bókinni allt hvat þartil heyrir, annaðhvǫrt býr í illviðrasǫmu plátsi, eða hittir á ófrjóssamt sumar, og fær nú, allt ǫðruvísi uppskéru enn bókinn lofaði, þó dettr ofan yfir hann hræðiliga og hættir við svobuit. Eg vildi at einhvǫrr reyndur og nærgiætinn gardyrkjumaðr vildi safna því hellsta og besta úr þessum bókum í eina bók, svo við bændurnir ecki þyrftum at tína þat samann úr mǫrgum, við hǫfum hvorki tíma né peninga til þess, og ruglustum stundum meira enn við fræðumst á því.

Aðkomumaðr. Satt segir þú þat, Sighvatr minn! og vil eg þessvegna ráða yckur at fara til þess besta gardyrkjumanns í nágrenninu, og biðja hann at segja yckur og sýna alla atferðina, þaraf lærit þið meira enn af heilum búnka af bókum, þó er ómissandi at hafa einhvǫrja góða bók við hǫndina, til samanburðar og eptirsjónar. Annars þori eg at segja yckur þat uppá víst, at garðyrkjan launar vel ómakit, hér á landi, þegar maðr kann vel til hennar, og leggr stund á hana; því þó hún misluckist á sumum árum, þá launar hún þess ríkugligar ómakið, þegar vel fellur.

Sighv. Ǫnundr. Þjóðólfr. (í einu hljóði), Svo viljum við leggja ockur eptir gardyrkju.

Aðkomumaðr. Ockur kémur þá saman um

þetta. En heldurdu, Þjóðólfr minn! at þú vildir ecki hyrda betur um jörd þína, enn þú hefir giört hingat til, ef þú vissir fyrir víst, at hún fódradi 1 eda 2 kýr, og 50 ær fleiri enn ádr.

Þjód. Jú, þó hún fódradi ecki meira enn 10 kindr frammyfir þat sem hún nú fódrar, og enda þó þat væru ecki nema 5 lömb sem hún fódradi meira; þat eru þó einir 3 eda 4 dalir.

Aðkm. Enn, ef endurbót jardar þinnar kostadi 10 dali árliga í fyrstu.

Þjóðólfr. Fari þat þá kolad, ef eg vil skipta mér neitt af því!

Aðkomumadr. Þú átt ecki at dæma svona fljótt, Þjóðólfr! Ef þú nú, t. d. ecki þyrftir at kosta til 10 dölum nema í 5 ár, en betradir þarvid jördina svomikit, at hún í 20 ár gæfi 5 ríkis dala vyrdi meira af sér enn ádr, ætla þú vildir þá ecki giöra þat?

Þjód. Nei langtfrá! eg hefi helfmíngs skada á því.

Aðkomumadr. Þú hefir ecki giætt vel at, Þjóðólfr! þegar þú géfur út 10 dali árliga í 5 ár, þá hefir þú látit úti 50 dali tilsamans, enn þegar þú færd aptr 5 dali í 20 ár, þá hefir þú fengid 100 dali aptr.

Þjóðólfr. Ahá! eg hefi þá helfmíngs ábata. Blessadr vertu! segdu mér, hvörnin eg á at fara at því.

Aðkomumaðr. Ecki þori eg strax at lofa þé[r] heilsíngs ábata, enn töluverðan ágóða skalltu fá, e[f] þú villt hlíða mér; því h o l l t e r h e i m a h v a t.

Sighvatr. Hvað heldr þú, gamli maðr! um verksmiðjurnar, sem hann Gnundr var at tala um heldurðu at þær geti innleiðst hér i landi?

Aðkomumaðr. Eg sagði yckr þat áðan, a[t] einstaka verksmiðjur kynnu at luckast, enn þá þar[f] maðr, fyrst og fremst, at kunna at fara með þær, o[g] þarnæst þarf töluverða peninga til at kaupa þær og koma þeim í gáng, en þá vantar oss flesta Is[s]lendínga; En þegar einn hlutr útkrefr meiri kostnað, enn einn eða tveir menn géta staðist, í útlöndum þá leggja fleiri samann, og skipta svo ágóðanum á milli sín, eptir tiltölu. Á þennann hátt eru þa[u] stærstu og ábatasömustu fyrirtæki stofnut og fram[-] kvæmd í útlöndunn, sem ecki gátu örduvíst ákomist þarámóti er þessháttar félagsskapur svo ókunnur landi voru, at enginn þessvegna þorir at inngánga hann; lærdu menn at þeckja hann og hans nyt[-] semi eins vel og sannmælin: b e t r m e g a t v e i[r] e n n e i n n; m u n u r e r a t m a n n s i n s l i ð i, o[g] b e t u r s i á a u g u e n n a u g a, þá er ecki olíkligt at menn kynnu at byrja á morgu sem lengi hefi[r] niðri legit, eða aldrei tíðkast hér í landi at undan förnu.

Sighvatr. En hvat heldr þú um höndla[n]

ina, mér finnst hún vera bisna ersid á þessum tímum; ætla þat væru engin ráð til at bæta hana?

Adkomumadr. Þúng spursmál leggr þú fyrir mig, Sighvatr! og varla mun eg géta svarad þeim öllum svo þér líki; — en líkligt er at ráð séu til þess eins og margs annars. Í fornöld fóru Íslendingar sjálfir millum landa, og seldu varníng sinn í ödrum löndum. Enn eptir at hardindi, pestir og egingyrni óhlutvandra manna höfdu úttæmt landsins krapta, höndludu Þýskir og Enskir vid landit; sídan tók konúngr höndlanina at sér sjálfr, og kalladist þá bundin, af því þá var fast verdlag á öllum vörum, og engum ödrum var leist at höndla vid landit. Á nærstlidinni öld rádslögudu menn um at vidrétta landsins hag, og þókti þat þá vænligast ad géfa höndlanina fría, sem þeir svo kölludu, en þá fór verst, því aldrei hefir höndlanin í rauninni verit meira bundin á Íslandi enn sídan, þó hún sé frí at ordi kvednu.

En þat fyrsta sem madr kynni at géta bætt höndlanina nockud med, er at vanda allar kaupstada vörur sem best, og einkanliga prjónasaum, sem mjög fer vesnandi í landi voru, ikka þvott á ullu, og verkun á fiski.

Þjódólfr. Þat má ræfillinn gjöra í minn stad, madr fær eckért betra verd fyrir gódu vörurar enn þær slæmu. Eg segi fyrir mig, eg fæ enda

betri prísa á mínum slæmu vörum, sem er samtíníngr úr öllum áttum, fra landsetum mínum og ödrum skuldanautum, af hvi eg gjöri drjúga höndlan árliga, enn fátæklíngarnir sem hafa gódar en litlar vörur.

Adkmdr. Hví er verr at þetta er satt, Þjódólfr minn! enn ef allir vildu leggjast á eitt og vanda vörurnar sem best, þá fengi kaupmennirnir meira fyrir þær utánlands, og gæfu yckr svo meira fyrir þær árit eptir, en þá þyrfti madr at kuma vel til tóvinnu, verkunar á fiski, og sv. frv.

Sighvatr. Þjódólfr. Önundr. (i einu hljódi) blessadr! frædd̄u ockr nockud meira um alla þessa hluti, sem vid höfum umrædt, ockr vyrdast þeir íhugunarverdir.

Adkomumadr. Ecki gét eg þat í þetta sinn, en ef yckur þykir mikils umvarda at frædast um þessa og adra slíka hluti, svoat þid gétid sjálfir dæmt um, hvört þeir muni géta ordit at nockrum notum, eda ecki, (því þat er ætíd best at yfirvega hvörn hlut sjálfr, svo madr ecki sé at öllu kominn uppá annara umdæmi;) þá vil eg koma hingad árliga, á þennan stad, og segja yckr dæmisögur, af hvörjum þid munut géta töluverdt frædst um téda hluti.

Sighvatr. Haf þú mikla þöck fyrir, gamli madr! eg skal koma hingat hvört ár, á þennann

dag, til at heyra sögur þínar. Eg ætla at búskjörn og landbúnadr yfir höfud, muni ecki sídr enn adrar athafnir útheimta þeckingu og kunnáttu. Enginn þykist géta náð fullkomnun i neinu handverki, nema hann læri nákvæmliga allt hvat þartil heyrir, i mörg ár, en allir þykjast géta verid bændr, þó þeir i rauninni kunni lítid eda nærstum eckért til þess; Fyrst eg er bóndi, vil eg giarnann læra allt hvat búskap vidkémur, og mun eg þess lengi not hafa.

Önundr. Eg vil koma líka, mér finnst at eg sjái nú þegar ofaná, at eg hafi giört mér ránga ímyndun um Kaupstadalífit, og annat fleira, og vilda eg gjarnann leidréttast; líka vilda eg ad þú segdir mér meiníngu þína um fiskiveidar, af því eg bý vid sjófarsídu.

Þjódólfr. Eg held eg verdi ad koma líka, því þó ferdin kosti mig nockut, þá held eg grædi meira á því, sem eg læri af þér, enn því svarar.

Adkomumadr. Eg má ecki dylja yckur þess, at eg gét ecki slutt söguna ókeipis, þid verdid at géfa mér nockut í sögulaun árliga, hvorr fyrir sig.

Þjódólfr. Sögulaun! ecki gét eg fengid af mér ad géfa peninga út fyrir eina sögu.

Adkomumadr. En ef þú lærdir svo mikid árliga, at þat yrdi þér til meiri nota enn sögulaunnum svaradi?

Þjóðólfr. Jú, ef eg hefi ábata, þá vil eg koma og borga söguleunin.

Sighvatr. Eg vil gjarnann gefa þér sögulaun af fátækt minni. Þú heimtar naumast meira enn 5 Mörk árliga, og verd eg eins daudr og lifandi fyrir þau; því ef eg jafna þessum 5 mörkum á allar vikurnar í árinu, þá þarf eg at draga hérumbil 1⅔ skildings til muna á hvörri viku.

Önundr. Eg vil gefa minn skerf til, eg gef margan skildinginn, hvört sem er, út fyrir óþarfa, svosem brennivín og kaffe, og get eg þá varit þeim betr til þessa.

Þjóðólfr. Aha! nú fann eg upp gott ráð, Sighvatr! Þú getr sagt mér söguna á eptir, svo þarf eg ecki at borga; enn get haft eins mikit gagn af henni fyrir þat.

Sighvatr. Þad gjæti eg at sönnu, Þjóðólfr minn! ef eg vildi, en þared þú ert slíkur efnamadr, sæmir þér ecki at skorast undan svo litlu tillagi. Þat er líkligt at manninn kosti þat mikit ómak at tína allar þessar sögur saman, og ef hann þaratanki, vissra orsaka vegna, þarf at borga sjálfr nærri því eins mikit og vid gefum honum í sögulaun, þá er ecki von at hann geti flutt sögurnar ókeypis.

Þegar eitthvad nytsamlegt á at framkvæmast, þá ega þeir vitru og þeir efnugu at leggja saman, til at koma því á; þeir vitru ega at leggja á rádin

og stýra fyrirtækinu, en þeir efnugu at leggja peninga til. Þetta kvad hvorgi tídkast eins og í Englandi. Þegar einhvorr vitr madr finnur þar uppá eitthvat nýtt, gefr sig fjøldi efnamanna fram, sem gjøra félagsskap vid þann sem upp fann; þat sem til var ætlat framkvæmist, og allir hafa ábata á fyrirtækinu, þegar búit er. Þessi Vinahót og félagsskapur á milli þeirra lærdu og ólærdu, á ecki hvat minnstann þátt í Englands blómgun.

Vid erum at sønnu ecki ríkir, Íslands bændr, en svo mikid egum vid þó velflestir g. s. l. at vid gétum lagt til ein 5 mørk á ári, þegar einhvorr vill bera sig at fræda ockur um þat, sem ockur er mest áríðandi, og ockur gétur ordit at miklum notum. Þessi madr hefir sama augnamid og vid, hann vill at vid, at svo miklu leiti sem skéd gétr, ecki støndum á baki annara þjóda, sem nú ser ódum fram vid þat, at þeckingin vex á medal allra stétta í því, sem hvørrar stéttar sýslunum vidkémur. Hann vill at landit géti blómgast og vid med því. Nú ætlar hann at safna hinna vitrustu og bestu manna rádum, áhrærandi búskjórn og landbúnad og sumpart uppþenkja sjalfr eitt eda annat nytsamligt þarat lútandi, svo vid þurfum ecki anndhvørt at vera án slíks, eda tína þat saman úr ótal bókum; En hvat gagnar þat, þó hann yrdi nú svo heppinn at géta

fundit og uppþeinkt eitt edr annat nytsamligt, fyrir ockr? hann getr þó ecki látit ockur alla fá at vita þat, nema vid hjálpum til þess, og leggjum nockra skildinga til, og skulum vid þá bera ockur at vinna ockr þá inn, á medan hann er at hugsa sig um, og egum vid þá sjálfir eins mikinn þátt í verkinu eins og hann. Hvörki hann né vid erum einfærir um at framkvæma þat, en þegar vid leggjumst á eitt, þá mun ockr veita þat létt, og verkit færa gódann ávöxt.

Slíkar sögur sem þessi gamli madr ætlar at segja ockur, ættu at minsta kosti, ecki sídr enn gamlar riddara sögr og rímur, at finnast í hvörju húsi, já, eg hefdi enda sagt, ecki sídr en sjálf barnalærdómsbókin, því þegar þessi bók leggr oss þat uppá hjartat svosem eina af þeim heilögustu skyldum, at vera dugligir í ockar stétt, og meistari Jón segir: "at bóndinn vid orkit sé eins kjær skaparanum, þegar hann gjöri verk sinnar kallanar, eins og prestrinn í stólnum." þá er þat audsært, at vid þegar á únga aldri, egum at leitast vid at útvega ockr þá þeckingu, sem útheimtist til at vera gódr bóndi.

Þjódólfr. Hana þá! eg skal þá gefa minn skerf til sögulaunanna, eg hefi kannské ecki allan skadann á því ádr enn líkur.

Adkomumadr. Viturliga talar þú, Sighvatr! og sannar þú, einn med ödrum, sögu þeirra er

seigja, at Island egi marga yfirtaks skynsama menn á medal almúgans.

En ef þid viljid tilleggja þat sem í yckar valdi stendr, nefnilega søgulaunin, þá skal eg leggja allt kapp á, at þat sem eg á til at leggja, verdi svo hendtugt og skiljanligt fyrir yckur sem møguligt er. Eg skal gæta svovel at útlendum sem innlendum háttum, bædi í landbúnadi, og ødrum hlutum, og hafa stødugt tillit til landsins ásigkomulags; eg skal spyrja reynda og vitra menn til ráds í øllu sem eg ecki nákvæmliga þecki sjálfr, og kappkosta at þat sem eg segi yckr sé áreidanligt. En eg bid yckur ennþá einusinni fyrir þat, at þid yfirvegid nákvæmliga, hvørt þeir hlutir, er vid høfum umtalat, eru þess verdir, at madr útvegi sér svo mikla þeckingu um þá, sem faung eru á; ef yckur vyrdist þat, og þid viljit at eg segi yckr dæmisøgurnar, þá skrifid þid nøfnin yckar hérna á steininn. En ef yckur synast þeir ecki þess verdir, þá verjid peningum yckar til annars sem yckur er kjærara, og eg ver þá tímanum til þess, sem mér er þarfara.

Vid þessi ord hvarf Adkomumadr, og vard gnýr mikill. Þá mællti Þjódólfr, þarna getid þid nú séd, hvørt hann Ármann ecki lifir ennþá.

Ønundr. Því hefdi eg aldrei trúat.

Sighvatr. hana nú! nú skulum vid skrifa nøfnin ockar á steininn.

Árinu eptir komu þeir Sighvatur, Eyvindur og Þjóðólfur, á Alþing, á Jónsmessu, snemma morguns; reikudu fram med Almannagjá, og spurdu hvor annann tídinda. Loksins tekur Þjóðólfi ad leidast bidin eptir Ármanni og segir:

Hann ætlar þó aldrei ad koma, þessi gódi Ármann; eg þurfti ecki ad sækja þad til hans ad narra mig híngad, eg hafdi nóg ad starfa heima og þurfti ecki ad géra mér neinar óþarfa ferdir þess vegna, ad eg ecki yndi mér, enda ætla eg þad muni ecki verda mikid ad sækja, þó hann nú komi loksins einhvorntíma; því hvad ætla hann, skólegumadurinn, hafi betra vit á búskaparháttum heldur enn vid bændurnir, sem svælumst vid búskapinn ár út og ár inn? Eg held ad hann mætti þacka fyrir, ef vid vildum kénna honum ístadinn fyrir ad hann kénni ockur. Eg spái því, ad þegar hann nú kémur, ef þad annars verdur nockud af því, þá setji hann upp lánga þrókaradu um kálgarda, um túngarda hleðslu og þúfna sléttun

og annad þvílíkt, sem enginn lifandi madur hefir gagn af, því enginn jétur kálgrautinn hans, og túngarda hledur enginn madur med vitinu, því þeir hrynja jafnódum ofaní bændurnar á manni aptur. Eg skil ad vísu ecki í því, ad hann, sem er bædi gamall madur og fjölkunnigur, skuli fara ad tala um nýbreytingar, en eg ræd þad svona af því, sem hann lét sér um munn fara í fyrstu, því þad versta vid þad var, ad þad var um nýbreytingar og nýbreytingar.

Önundur. Þá ertu vid efnid enn þá, Þjódólfur! þú lætur alltíd eins og þad sé kvikasilfr í rumpinum á þér, og þegar þú byrjar ad snacka um nockud, þá snackardu svo óþólerandi, ad eg þoli ond fyrir þig. Þad hefir enga naud, hann Ármann kémur nok, en eg gjöri mér allt ödruvísi innbyrlíngu um þad, hvad hann muni segja; eg held þad verdi eitthvad extra gott og nytsamlegt; þad blífur víst eitthvad, sem enginn hefir heyrt ádur; eg held ad þad verdi svo, ad þeim sem vilja rétta sig eptir því, veiti eins létt ad lifa eins og fuglunum. Hann er, segi mér um! í standi til ad finna uppá einhvörri maskínu til ad láta orfin slá, og hrífurnar raka, af sig sjálfum, og uppá einhvörju medali til ad láta grasid spretta, og fiskana hlaupa á land; þá þurfum vid ecki ad anstrengja ockur á ad arbeida, en getum

lifad gott sannt. Eitthvad likt þvi arna verdur þad, Fanen gale i mig! sem hann segir, þar sem eg ecki feila.

Sighvatur. Ecki kémur yckur vel saman ennþá, gódir hálsar! Þid farid sinn í hvorja áttina. Annar yckar heldur, ad Adkomumadur ecki muni tala um annad enn þad, sem engum getur ordid ad gagni, annadhvort vegna þess, ad hann ecki kunni um annad ad tala, eda hins, ad þad sé eckért efni til, áhrærandi vor kjør og sýslanir, sem umtalsverdt sé; en hinn vonar eptir ad hann muni kénna ockur ad géra kraptaverk. Eg fyrir mitt leiti vona eptir ad hann muni tala um algenga og alþeckta hluti, sem hann veit ad mættu verda nytsamari, ef ecki vantadi eptirþánka og kunnáttu en þarámóti held eg, ad hann muni leida hjá sér ad tala um þá hluti, sem hann þykist fyrirsjá ad ecki muni verda ákomid til hlýtar, eda um þá, sem miøg tvísýnt er ad géti artast; allrasíst mun hann ráda almenníngi ad leggja stund á þá, án frekara prófs eda reynslu.

Ønundur. Til hvørs er hann þá ad tranta sér fram, ef hann ecki ætlar ad bringa neitt nýtt uppá bananu; þad sem algengt er þeckja allir, og eg stemmi þarí yfir eins med honum Þiódólfi, ad bændurnir muni vita betur enn hann, sem

blifur einn útilegumadur, hvad til búskapar heyrir; þad skyldi þessvegna vera eitthvad splundur nýtt sem hann kæmi med, ef þad ætti ad duga nockud.

Sighvatur. Varid þid yckur, félagar gódir! ad þid farid ecki eins og Gydíngarnir fordum, þegar þeim þókti þad einfaldt sem Kristur kéndi, þá vildu þeir hafa teikn og stórmerki. En svo eg komi nær efninu, þá dylst opt ýmisligt mikilvægt vid þad algenga, sem, svo ad segia, gengur í erfdir mann fram af manni, og er þad ecki svo undarligt, sem þad sýnist í fyrsta áliti, því sonurinn fylgir því optast nær blátt áfram, sem hann sá fódurinn hafa fyrir sér, án þess ad hugsa um þad, hvort þad geti tekid á móti nockurri lagfæríngu eda fari betur á annann hátt, því honum hefir aldrei verid bendt til þess ad snúa athygli sínu á þá leid. Mér dettur útaf þessu í hug vissan sú arna:

Krabbinn talar vid króann sinn:
kreikadu réttur, sonur minn!
aptur króinn ansa réd:
aldrei sá eg þad fyrir mér,
eg læt mér nægjast, ljúfi fadir! ad líkjast þér!

Önundur. Hún var, svei mér, gód!

Sighvatur. (heldt fram tali sínu). Eg vil einúngis færa þrjú dæmi til þess, hvad torveldt þad er, ad smávegis breytíngar á algengum hlut-

um verdi almennar, enda þótt nytsemi þeirra liggi í augum uppi. Það fyrsta er áhrærandi sláttulagið; menn hafa enþá ecki komist svo lángt í þessu landi, að þeir hafi komið sér saman um að fylgja þeirri aðalreglu við sláttinn, að slóra allstaðar þar sem verður; margur lætur sér nægja enn í dag, að brúka endalausann hrínga og ræpuslátt á sléttunni, jafnvel þo öllum, sem nockuð vilja þenkja, megi það ljóst vera, að verkið hlýtur að ganga fullum þriðjúngi seirna. Annað dæmið vil eg taka af því, hvað nýtnir við erum með áburðinn. Allir sjá hvörsu mjög gras-vöxturinn er kominn undir nægum áburði, ei að síður hugsa menn svo lítið um að auka hann, að öllu sauðataði er brent, og það á þeim stöðum, er hvörki skortir grasartorf (mó) eða annað eldsneiti; fáir brúka færikvíar, eru þær þó ecki dýrar, utan einstaka búmenn, sem hafa reynt nytsemi þeirra. Þriðja dæmið vil eg taka af seglaburði vorum; frá því landið bygðist, hafa innbúar þess jafnaðarliga siglt á bátum sínum, en allt til skams tíma, hafa þeir þó brúkað sama seglið í kyljunni og stórviðrinu, þótt það sé í hvörugu hendtugt, og þótt einstaka menn á hinum seirni árum hafi tekið upp fleiri segl, svo þeir gætu fjölgað þeim og fækkað, minkað þau og stækkað, eptir því sem haga þókti, og þannig látið landa sína þreifa á þeirri hægð og gagnsmunum,

sem þetta leidir af sér, þá er þessi breyting enn lángt frá því ad vera ordin almenn.

Um þetta og annad þvílíkt held eg Adkomumadur tali. Eg held hann hvetji menn til ad brúka orfid og hrífuna med vissu lagi, ad nota ræki-liga allan áburd, sem til fæst, svo grasid spretti, og stunda fiskiveidar med atorku og forsjá, en umfram allt hafa egin eptirþánka vid í öllu; á þessu hefi eg miklu betra traust, enn þó hann þættist geta gert kraptaverk.

Þjódólfur. Satt er þad, mikid gagn er í áburdinum; eg villdi óska ad kúa-mykjan væri tvöfalldt meiri enn hún er, en ecki gét eg vitid ad bera sauda-tadid á völlinn, hvorki gérdi hann fadir minn sálugi þad, og ecki heldur hann afi minn; sveri-kvíarnar eru ecki néma til ills eins, eg hefi aldrei séd þær; (í hálfum hljódum) en þad villdi eg ad hann þarna, hvad hann heitir, hann Ármann þarna, gæti komid því á, ad allir legdu af hrínga og ræpusláttinn, þad er kvöl ad sjá fullordna menn kuta vid fót sinn á slétt-unni, þeir hafa át sér hálft verk.

Önundur. Hvad ætli þú viljir láta svona! alltíd hefi eg brúkad hríngaslátt, og fengid tvo fjórdúnga á vikuna fyrir þad. Mig sýnist miklu meira vigtugt ad forbetra seltasén, hún er elendug

Hjá himnum, en eg þenki að hann muni ecki forstanda sig mikid uppá það, sem býr uppi fjöllum.

Sighvatur. Eg átti eptir að gégna því, að þið vantreistið hinum gamla manni til að géta kennt nockuð nytsamligt, af því að hann sé útilegumadur, og liggur þá þar til það svar, að þið ecki vitið, hvor þessi gamli madur er, því þó að þið haldið að það sé hann gamli Ármann, sem hérna átti að búa uppi fellinu í fyrndinni, þá hafið þið engá áreidanlega vissu fyrir því; en hvorr sem hann svo er, þá skyldist mér það helzt á ordum hans í fyrra, að hann ætladi ecki að byggja svo mikid á eigin reynslu, heldur ætladi hann að safna saman innihaldinu af því helsta, sem skrifað hefir verid á stángli um búnaðarháttu, og annað, er vidkémur bændastéttinni, bera það saman vid sidu og atferð forfedra vorra, og reynslu hinna bestu búmanna, þeirra er nú lifa, og útlenda háttu, þá er það vyrdzist henta, en til þessa útheimtist framar að vera sjölfródur enn margreyndur, þvíað eins manns reynsla gétur aldrei, hvort sem er, ordið svo fullkomin, að margra manna reynsla sé ecki betri, þar betur sjá augu enn auga; en einn madr gétur numid og sagt frá því, sem margir hafa reynt, þó hann hafi ecki reynt það sjálfur á eptir; þyki mér það nú líkast, að hinn gamli madur sé

margfródur, eins og gamalmenni eru von ad vera, og hafi auk þess töluverda reynslu; sáum vér þad og í fyrra, þá er hann hvarf frá oss í einu vetfángi, ad eigi verdr honum mikid fyrir ad bregda sér hvarleid, þá er hann vill frædast af einhverjum og fá efni í sögur þær, er hann hét ad segja.

Þjódólfur: (kinkadi kollinum og sagdi), Æ! grunadi mig ecki! þarna kémur nú heim þad sem eg sagdi ádan, ad hann mundi þurfa ad læra af ockur.

Önundur. Hann ætlar bestemt ad bedraga ockur, eg skal, min sel! nok læra honum ad lifa.

Þjódólfur. Þú kannt ad segja þad satt, Önundur minn! ad vid gétum lært af honum ad lifa, med því móti ad þad sé hann Ármann, sem vera mun, því ad margt kunni hann eins og adrir fornmenn; kannské ad hann útvegi ockur finna-buxur og skædarmús! hvorr veit? en eg bid ecki fé vid búskapar vitinu hans.

Önundur. Finnabuxur og skædarmus? mikid ertu fornúftugur! þú þrengir rigtugt nok til ad póleras; þú skilur ecki eingáng þá, sem snakka dálítid pólerad sprok; eg sagdist ecki ætla ad læra af honum ad lifa, en eg sagdist skulde kénna honum ad lifa.

Sighvatur. Farid þid nú ecki lengra fram

eptir því arma! þad sæmir ecki. Eg vil ad gégna því, sem hann Þjódólfur sagdi fyrst. Væri þad ecki vænt ad hinn gamli madur fræddist af þér, ef þú kynnir eitthvad, sem vid Önundur ecki vissum, svo hann gæti kénnt ockur þad aptur, eda af ockur, ef vid vissum eitthvad, sem þér væri ókunnugt, til ad géta kénnt þér þad?

Þjódólfur. Jú! jú! en vid vitum allt ...., þeig, þeig! þarna kemur hann.

Adkomumadur. Sælir verid þid, gódir brædur! hvernig hefir yckur lidid sídan?

Sighvatur. Vel, hamingjunni sé lof! eg hefi heldur audgast bædi ad fé og þeckingu á búskaparháttum á þessu ári.

Adkomumadur. Þó er vel ordid. En hvorsu hefir þér lidid, Þjódólfur minn?

Þjódólfur. Og svona eins og vant er, eg hefi ecki tapad í búskapnum híngad til, og þá ecki heldur árid ad tarna.

Adkomumadur. Þad er vel farid. En þér, Önundur minn?

Önundur. Eg hefi lifad gott; eg var í kaupavinnu í fyrra sumar, en í vetur sat eg í hovedstadinn Reykjavík, og dreif fiskirí.

Adkomumadur. Ecki hefir þér farid mikid fram í módurmálinu sídan í fyrra. Hvad þykir þér nú betra ad segja „ad þú hafir drifid

fiskirl," eins „ad þú hafir stundad fiskiveidar," eda „róid út til fiskjar?"

Önundur. Þú verdur ad undskylda mig, gamli madur! þó ad einstaka framandi ord innsnikki sig hjá mér, eg er ordinn svo innlifadur því danska sproki í hovedstadinn.

Adkommumadur (hristi höfudid). Ad vísu ert þú og adrir, sem búa í Reykjavík, afsakanligri enn þeir, sem búa upp til sveita. Reykjavík, sem þú kallar höfudborg lands þessa, er ecki einasta ólík öllum höfudborgum ad stærdinni, heldur og í því, sem er miklu verra, ad þeir flestu af þeim helztu innbúum hennar eru útlendir menn, sem tala útlenda túngu; en í öllum ödrum höfudborgum er megin hluti innbyggjaranna innlendur, og er þad eigi ósjaldan, ad málinu er betur farid í þeim, enn annarstadar í landinu.

Í Reykjavík hrakar málinu þarámóti aptur æ meir og meir, bædi vegna þess, ad þeir flestu innbúar hennar tala útlenda túngu, og líka hins, ad menn láta sér í léttu rúmi ad vidhalda sinu egin módurmáli; gengur ræktarleysi þad svo mjög úr hófi, ad sumum þykir hinn mesti frami í ad sletta dönskum glósum, hvörsu bjágadar sem þær eru; flýtur þaraf, ad sumir truflast þannig med öllu í málunum, ad þeir kunna hvörki á íslendska né danska túngu ad mæla. En þad væri hin

mesta skøm ef vèr nú týndum módurmálinu, þessi um gimsteini, sem forfedurnir hafa nú vardveitt í landinu lengur enn um 900 ár, og eptirlátid eptirkomurúnum til æfinlegrar minningar um uppruna þjódarinnar, og hennar forna heidur; er apturfør í túngumálunum jafnan samfara apturføt í hugarfari og velgengni sjálfra þjódanna, þeirra er á þau mæla. Vildu menn athuga þetta, mundi almenníngur leggja meiri alúd á ad vidhalda módurmálinu, og hvørr þykjast ødrum fremri, er þad kynni betur, mundu þá og færri bøgumæli heyrast í landi voru, og málid brádum ná sèr aptur. En þad er ecki ætlan mín, ad tala um Reykjavík eda ønnur kauptún, í þetta sinn; eg vil einúngis vara yckur vid, at láta yckur leida af því, sem í fyrsta áliti sýnist gyrniligt eda munadarmeira vid kaupstadalífid, til ad vera yckur ad apa eptir því; þad varast bændur í útløndum mjøg, og sjá þeir þó dagliga ólíka margar og skrautligar borgir í kríngum sig. Þegar borgarinn og bóndinn hafa stadt, hvørr eptir sínum vexti, þá fer vel, en skipti þeir støckum, þa fer bádum ílla. Líka vil eg vara yckur vid ad taka þad eptir útlendum, sem annadhvørt skartar ílla, eda ecki á vid landsins ásigkomulag, t. d. ad venja sig á mikinn kornmat, ad eg ecki nefni miklar kaffe- og brennivíns- dryckjur; en

aptur vil eg ráda yckur til ad gefa gaetur ad framkvaemdarsemi þeirri og skipan og hreinlaeti, sem menn verda varir vid hjá útlendum, og óstunda ad líkjast þeim sem mest í því. En nú ætla eg ad hverfa frá þessu máli ad sinni, og segja yckur frá tali því, er hann Gódsvinnur á Sólheimum, nábúi þinn, Þjódólfur! einn ufinni sem optar átti vid born sín og hjú.

Önundur. Þad má víst vera nockud gott sem hann hefir sagt, ætli hann sé ecki annad fiblid frá honum Þjódolfi þarna? þad kunni aldrei falla mér inn, ad þú mundir framsæra svoddan manna tal, eg gjordi mér allt adra innbirlíngu um þad, sem þú mundir segja.

Adkomumadur. Mikid audtrúa ertu, Önundur! ad taka hvor munnmælin fyrir áreidanleg sannindi; þér skeikar mjog, ef þú ætlar ad Flóamenn séu heimskari enn annara sveita innbúar; ecki segist Eggért Olafssyni og Bjarna Pálssyni þannig frá, í sídara parti ferdabókar þeirra blf. 163; þeir taka málstad Flóamanna og hrósa þeim fyrir þad, ad þeir tali málid hreinna enn adrir, þótt þeir búi allnærri kaupstad. Þjódólfur er enginn heimskíngi, þó þér sýnist svo, af því hann er svo ólíkur þér í ollu. Enginn getur sagt þad um hann Sighvat ad hann sé heimskíngi, og þó er sagt ad hann sé ættadur úr

Fljótum í Skagafirdi, sem ætíd hefir í vinnumálum verid jafnad saman vid Flóa, ad áulhætti, eins og slessd sannar:

Tvær eru foritir Flói og Fljót,
sem flestir saman jafna o. s. fr.

En orsökin til þessara munnmæla mun vera sú, ad einhvörntima hafi verid einn eda fleiri nautheimskir menn í þessum sveitum, sem hafi farid vída um landid, og ordid þjódkunnir ad aulahætti, og sídan hafi þad ordid ad máltæki, þegar einnhvörr reyndist mjög heimskur, ad hann væri úr Flóa eda Fljótum.

Önundur. Kannske! lát oss þá heyra hvad Godsvinnur fortaldi sínum börnum.

Adkomumadur. Þad skal vera. Godsvinnur var vanur ad ræda vid börn sín um þá hluti, er hann heldr ad mundu drífa á daga þeirra; valdi hann einkum til þess kvöldtíma, svoad vinnuhjú hans gætu hlustad á líka, ef þau vildu. Á laugardaginn fyrir Adventu hafdi borid á tal, á milli vinnumanna hans, um presta og nidursetur, og lausamensku og vinnumensku; hafdi þeim komid þad saman, ad ecki væri mikid gagn í prestum, og ecki vandfarid med nidursetur, ad lausamenska væri hid mesta hnoss, og ad þad væri ecki verdt ad drepa sig á vinnu fyrir húsbónda sinn, svo madur væri ódrepinn, þegar mad-

ur líkami vil sjálfs síns. Þetta kom Gódsveini til eyrna; hann kom þessvegna um kvøldid fram í badstofu, þar sem fólkid sat ad vinnu, kalladi til sín børn sín, og segist nú ætla ad segja þeim kafla úr æfisøgu sinni. Allir urdu því fegnir, en hann tók þannig til orda:

Foreldrar mínir voru fátækir, þau flosnudu upp í Móduhardindunum, sem sumir kalla Reykjarhardindi, og dóu skømmu seinna, bædi á sama árinu. Eg var 5 vetra þegar þau flosnudu upp, og var eg þegar settur nidur hjá einum gódum bjargálna bónda í sveitinni; hann var rádvandur madur í allri sinni breytni, og var medferd hans á mér því samboðin. Bóndin átti mørg børn, og voru sum af þeim á aldur vid mig. Hann lét mig nú njóta sama uppeldis og þau, nema hvad fødurástin til þeirra kann ad hafa látid sig stundum í ljósi í ýmsum smámunum; han bar mikla umhyggju fyrir ad eg þroskadist ad líkamans kraptum og vexti, en þó ekki sídur fyrir því ad eg lærdi vel ad lesa, sæmilega ad skrifa, og fengi góda þekkingu á mínum Kristindómi; eins kostgæfilega hafdi hann mig vid vinnu, þó svo, ad hann afmældi hana eptir mínum kraptum; þad var honum ekki nóg, ad eg kæmi verkinu af einhvernveginn, heldur kendi hann mér þad besta handlag, sem hann þekti, á hverju verki, hvarvid

þad vannst mér bædi léttara og fljótara. Hann sagdi mér allténd til med gódu, og hirti mig ecki, nema þegar eg gérdi einhvørr strákapør, laug eda sveikst um, sem ecki var opt, því eg elskadi hann eins og besta födur; en þegar hann hirti mig, þá sýndi hann aungann reidisvip, heldur einhvørja alvørugefni, og enn sama lýstu ord hans, og hirtíngarmátinn sjálfur. Vegna þess eg elskadi og virdti húsbónda minn, lá mér eckért framar á hjarta, enn ad vera eptir hans gédi í öllu, vandist eg þarvid á ad kappkosta trúmennsku, ydni, sparsemi og þrifnad, því annars líkadi honum ecki. Med þessu uppeldi vard eg efniligur únglíngur. Þad var hvorttveggja ad eg átti honum mikid ad þacka, enda hefir mér eckért fallid þýngra enn ad missa hans; hann sáladist sama árid sem eg var fermdur, og verd eg ad segja þad, ad eckért af børnunum hans bar sig eins hørmuliga eptir hann, eins og eg; eg var hreint á milli vita. Sorgin rénadi eins og vant er ad verda med tímanum; komst eg strax í góda vist, ávann eg mér brádt hylli húsbónda míns, og þókti honum ad eg vera knár og lagligur á verkum á þeim aldri. Þegar eg var kominn um tvítugs aldur, komst eg í kunníngsskap vid nockra lausamenn; þeir lýstu lausamennskunni fyrir mér eins og einhvørju farsældar standi, og töldu lofsins

svo um fyrir mér ad eg sagdi upp vistinni, og vard lausamadur. Eg réri nú út um haust og vetur og vor á Sudurlandi, hvörst á Sudurnesjum eda Innesjum, en á sumrum fór eg upp til sveita í kaupavinnu. Í verinu vandist eg á margt óparfligt, tel eg þarámedal sérílagi ydjuleysi, því þegar ecki gaf ad róa, tók eg mér eckert fyrir hendur nema ad gánga aptur á bak og áfram, eda fara í Kaupstad, og slæptist eg þar heilum dögum saman; hér vandist eg einnig á brennuvíns-dryckjur, kaffe-þamb og tóbaksbrúkun, og annad fleira sem fólk kallar sælgæti, en landi voru er til nidurdreps, einkum bændastéttinni; héraf kom þad líka, ad þó eg stundum ynni mér töluverdt inn, géck þad jafnódum út aptur, svo aldrei hafdi eg neitt afgángs. Eptir því sem eg vandist lengur á ydjuleysid í útverunum, eptir því féll mér erfidid þýngra, einkum heyvinnan á sumrin, sem ecki leyfir neinar frátafir. Eg var ad sönnu nockud óhlaupasamur til vinnu, en eg þurfti þó líka gódar hvíldir á eptir. Eckert var mér ógedfeldara enn sú jafna ydni, sem þó ætíd reynist best; eg fór þessvegna ad hugsa mig um eitthvört rád til ad géta sneidt mig nockud hjá enni hvíldarlausu heyvinnu á sumrin, og sýndist mér þad vænligast ad kaupa mér varníng í kaupstadnum, og prånga med hann á sumrin, þegar mér leid-

vist ad slá; í fyrstu keypti eg lítid eitt til reynsl-u, en þad fkaug út á augna bragdi, því stúlk-unum leizt vel á klútana, og fór þá margur einn med gódu verdi, enda ábatadist eg lítid á þeim, en eg kom mér þarvid í mjúkinn-hjá þeim; en karlmennirnir létu sér vel líka ad fá dálítid af brennivíni og tóbaki, þar lángt var í kaupstad-inn. Nú huxadi eg mér til hreifíngs og keypti nú árid eptir fyrir vetrar-hlutinn minn miklu meiri varníng enn ádur, því mér þókti ólíka skémti-ligt ad rída út um sveitina, ad selja varníng, enn ad standa liðlángan daginn vid orfid. Med þennann varníng fór eg austur í Skáptafells sýslu, og var eg svo heppinn ad eg á stuttum tíma hafdi selt þad mesta af honum med gódu verdi. Einusinni kom eg á bæ nockurn í Túng-unum, seint um kvøld; hann var reisugliga bygdur, og allt hvad sást íkríngum hann lýsti sérligri kunnáttu og framkvæmd og þrifnadi; túnid var umgyrdt umhverfis og fagurt yfir ad líta, því þad var ad mestu slétt, og yfirtaksvel sprottid; heyfyrníngar vóru þar miklar, bædi vid fjósid og líka vid fjárhúsin, er hann hafdi látid byggja á nordlendskann hátt; hafdi hann í því, eins og mørgu ødru, vikid frá eldgømlum sveitarhætti, því engi voru þar fjárhús ádr; mat-

urtagardar vóru bladnir á þeim stödum sem þartil vóru hendtugir; vóru þeir vel sprottnir svo snemma á tíma, og sýndu það, ad húsbóndinn ecki hefdi látid sér nægja ad kasta fræinu á jördina, eins og sumir gjöra, og kénna svo nátt-úrunni um ad ecki sprettur, ístadinn þess ad þeir ættu ad kénna vanhyrding sinni um það. Hér beiddist eg húsa, og var því strax játad. Eg leysti nú upp varnings poka minn, og baud það sem ég hafdi til kaups. Þegar stúlkurnar höfdu skodad klútana og keypt sinn hvör, kom bóndinn til mín sjálfur, hann var madur elliligur, og hafdi einfaldann búning, en þockaligann og velsnidinn. Eg heilsa hönum, hann tók vel kvedju minni.

Bóndi. Hvada varning hefir þú ad selja, Mannkind?

Eg. Og eg hefi svona sitt hvad, klúta, lérept, brennuvín, tóbak, kaffe og hitt og annad smávegis.

Bóndi. Heldurdu ad vid hérna upp til sveitanna komustum ecki af, án þess ad kaupa það flesta af þessum hlutum, dýrum dómum?

Eg. Það er allt saman ómissandi fyrir ockur eins og adra; allir þurfa klút um hálsinn, og lérept til klædnadar; tóbaksmennirnir mega ecki missa tóbakid, og brennuvín og kaffe er ómissandi til ad hressa sig á.

Bóndi. Klúta og lérept þurfum vid kannské ad kaupa til sparifatnadar, en þó miklu minna enn tídkast, af hvorutveggju. Eg brúka hvorn dag, þegar eg er heima, annad eins hálsband eins og þad, sem eg hefi um hálsinn núna, þad er tætt vandlega úr gódri ullu, og krækt aptan á hálsinum, eins og þú sérd. Af Léreptum þurfum vid heldur eckért til hvorsdagsklædnadar, ullin er fullgód og miklu betri til nærfata enn lérept, einkanlega þegar hún er vel tætt, sem, þvi verr! fáir láta sér svo annt um sem skyldi. Tóbak og brennúvín og kaffe áttum vid, hefdi eg nærri sagt, aldrei ad sjá, og mundum vid þá ecki sakna þess framar enn forfedur vorir, sem ecki þecktu neitt af því, og höfum vid þó víst enga yfirburdi yfir þá, í tilliti til líkamans styrkleika eda heilbrygdi, sem ecki er heldur von, því læknararnir segja ad allt þad, sem örfar blódrásina og strengir enar smágjördu taugar í líkamanum framyfir þad edlilega, eins og brennuvín, tóbak og kaffe gjörir, sé hvervetna skadlegt fyrir heilsuna; hvornig segir ecki þjódskaldid Eggért Olafson í kvædi því, er hann kvad undir Islands nafni?

Hiálpudust ecki ádr
elsku börnin mín?
sízt þau smacka nádu

sikur, brennuvín,
ecki tóbak eda tee;
vitlaus oldin verdr nú,
nema vøkvud á því sé.

En sleppum þessu. Hvadan er madurin?

Eg. Eg er ættadur úr Flóanum.

Bóndi. Hvar áttu heima?

Mér var eckért um þessar spurníngar, og vildi koma mér hjá ad svara beint uppá þær, og sagdi því: „fyrir sunnan.“

Bóndi. Hvar helzt þar?

Eg. Eg er svona hjá sjálfum mér.

Bóndi. Áttu þá þennan varníng sjálfur?

Eg. Já, med hann á eg.

Bóndi. Er þér nockur þægd í ad keypt sé ad þér?

Eg. Ecki þyki mér þad lakara.

Bóndi. Ecki ætla eg samt ad kaupa neitt af þér í þetta sinn, og því sídur, sem bædi prang og lausamennska er nú bønnud; en eg skal segja þér kabla af æfisøgu minni, og kann þad ad verda þér eins notadrjúgt eptirleidis, ef þú villt taka vel eptir, eins og þó eg keypti ad þér varníng svosem fyrir ríkisdal.

Eg skal ecki neita því, ad eg vildi heldur ad hann hefdi keypt af mér svosem ríkisdals-virdi, enn ad hann segdi mér æfisøgu sína, því

eg hélt ad hún mundi ecki vera svo markverd; þókti mér og fyrir því vid hann nidrí, ad hann sagdi ad prang og lausamennska væru fyrirbodin, því sannleikanum verdur hvorr sár-reidastur, samt gat eg ecki þverneitad því ad eg vildi heyra søguna, af því eg var adkomandi.

Bóndi tók þá svo til orda: „Foreldrar mínir vóru øreigar. Fadir minn dó þegar eg var tvævetur, en módir mín þegar eg var 5 vetra; var bú hennar þá svo lítid ad varla hrøck til skuldalúkníngar, og var eg þessvegna settur í nidursetu; var eg þá svo heppinn, ad eg lendti hjá bónda þeim, er bestur vat madur og rádvandastur í allri sveitinni; hann fór med mig ad mestu leiti, og í øllu sem mér var árídandi, eins og sín egin børn. Svo var hann nærgætinn vid mig, ad þegar annadhvort børnin hans eda vinnufólkid kalladi mig nidursetu mér til mínkunar, var honum þar ad mæta, ef hann heyrdi þad; hann sagdi, ad enginn ætti ad leggja mér þad til lasta ad eg væri nidurseta, því eg gjæti ecki ad því gjört; þad kynni einhvørntíma ad verda annar eins madur úr honum Láka litla (svo kalladi hann mig) fyrir því, eins og þeim, þar skyldi hann studla til ámedan eg væri hjá sér. Hann kéndi mér ad lesa eins og sínum eigin børnum; og þegar eg var á 8 árinu, lét hann mig fara ad draga til stafs.

En á þessu sama ári andadist hann; varst eg þá svo illa af, ad eg neytti hvorki svefns né matar, því eg elskadi hann eins og besta födur. Þegar hann lá banaleguna kalladi hann mig til sín, tók í hendina á mér og sagdi: Nú fæ eg ecki leng- ur verid hjá þér, og alid önn fyrir uppeldi þínu, mínir dagar eru uppi, eg á nú brádum ád standa reikníng af því, hvörnig eg hefi farid med þig, eins og af ödrum mínum athöfnum í þessu lífi; vertu nú gott barn hereptir, eins og þú hefir verid híngad til; elskadu gud og óttastu, sem hefir skapad þig, og giört þér svo mikid gott; kappkost- adu ad uppfylla þær skyldur, sem hans ord upp- áleggur þér; þú munt læra ad þeckja þær herept- ir, þegar þú ferd ad læra Barnalærdómsbókina. Þegar þér vex fiskur um hrigg, þá láttu þér eink- um vera annt um ad ná fullkomnun í því kalli, sem þú þá getur fyrirséd ad muni falla í þitt skaut; en umfram allt ætla eg nú ad leggja þér þad uppá hjartad, því seinna get eg þad ecki, ad láta eckert þad tækifæri hjálída, sem þér býdst, til ad gjöra þínum medbrædrum gott; eg meina ecki hérmed, ad þú skulir hjálpa hvörjum einum med fésíyrk, sem þú sérd ad þess vidþarf, því þad er ólikligt ad fjárhagur þinn leyfi þad, en fleira gagn- ar enn fégjafir; enginn velgjörníngur er meiri enn sá, ad leidbeina einum, sem villur fer, greida

vandrædi, og vísa ödrum veg til velgengni og gledi. Eg þykist vita ad þú munir nú eigi til hlýtar skilja það, sem eg hefi talad fyrir þér, barnid mitt! en ef þú geymir ord mín hjá þér, muntu betur skilja þau, þegar aldur færist þér yfir höfud, og vitid hefir nád meiri þroska hjá þér; far þú nú vel! gud veri med þér!"

Hér snéri bóndinn sér vid, og þurkadi sér um augun. Eg hlustadi med mikilli adgjæzlu og eptirtekt á frásögu hans, því mér vyrdist hún svo lík því, sem hafdi framkomid vid mig í úngdæmi mínu; eg vard einhvörnvegin órólegur innvortis, og fylltist med tilfinníngar, sem eg á bágt med ad lýsa.

Bóndin snéri sér nú til mín aptur, og hélt áfram sögunni:

„Eg gét hvörki né vil lýsa því, hvörsu mér brá vid þessi ord fóstra míns; á medan hann taladi, sat eg eins og höggdofa, en þegar hann hætti, brast eg í mikinn grát, hljóp eg þá upp um hálsinn á honum, og bad hann í minni barnligu einfeldni ad deya ecki frá mér; en nú var eg tekinn og borinn í burt frá honum.

Nockru eptir andlát fóstra míns var eg settur nidur hjá ödrum bónda í hreppnum, hann var mjög ólíkur fóstra mínum, og svo reyndist mér hann líka; hann var mesti ákafamadur og

framkvæmdar madur, þarhjá enn mesti offstopi í gédi, og sat þessvegna aldrei á sárshöfdi vid vinnuhjú sín, hann bar ecki hid minnsta skynbragd á gott uppeldi, eda þess nytsemi, bar þessvegna enga umsorgun fyrir sálar eda líkama þroska hjá sér eda ödrum, en lét þad undir tilfellunum med öllu, líkt eins og sá, sem á aleigu sína í sjædarmálinu, og hleypur burt til ad sjá eitthvad, sem honum þykir gyrnilegt, og lætur kylfu ráda kasti, hvört flódid gángi svo lángt upp med adfallinu, ad sjórinn taki aleigu hans eda ecki.

Mér þókti nú skipta um, þegar eg kom til þessa mans; hann fyrirleit mig, og óleit mig eins og annann kross, sem sér væri sendur af bölvudum hreppstjórunum, (svo titladi hann þá). Limirnir dönsudu nú hér eins og annarstadar eptir höfdinu; allir á bænum fyrirlitu mig, og börnin eins, þótt þau væru yngri enn eg; allir kölludu mig „Nidursetuna" mér til minkunar. Húsbóndi minn gaf engan gaum ad mér í ödru skyni enn því, ad hafa sem allramest gagn af mér, svoad erfidi mitt borgadi sem mest af uppeldi mínu; hefdi honum og eigi verid þad svo mjög láandi, hefdi hann farid skynsamliga ad því, en hann lagdi mér nú mikid meira og strángara erfidi á herdar, enn sambodid var abli mínu og aldri, og gaf mér eigi meiri tómstundir frá því, enn hinum fullordnu.

Húsmódirin var ecki bótinu betri; þegar henni þókti fyrir vid mig, þá sá eg þad altént á askinum mínum, hann var þá ecki nema hálfur med eitthvørt vatnsblandi. Má af þessu ráda ad eigi muni mér hafa farid mikid fram ad kroptum eda í vinnubrøgdum. Svona skémdi hann fyrir sjálfum sér; hefdi hann farid bæriliga med mig, þá hefdi hann haft eptir því meiri nót af mér, sem árin hefdi fjølgad, þótt hønum hefdi aldrei dottid mín egin velferd í hug; en nú var eg ecki í neinu betri eda dugligri seinasta árid enn þad fyrsta. Allt fór eptir þessu; þegar eg gat ecki afkastad því, sem hann setti mér fyrir, bardi hann mig í brædi sinni, med ógnan og formælingum; þarvid vandist eg til ad gjøra allt af þrælsótta, og ad svíkjast um, þegar eg sá mér lag. Þegar eitthvad smávegis hafdi gengid aflaga, spurdi hann mig opt, hvørt eg hefdi gjørt þad, og til ad locka þad sanna þess betur útaf mér, lofadi hann mér ad hann skyldi ecki berja mig, ef eg segdi sér satt; en þegar eg hafdi medként, bardi hann mig þrátt fyrir lofordid; þá tók eg uppá því ad þeigja, en þad dugdi heldur ecki, hann bardi mig eins fyrir þad; svona neiddi hann mig til ad ljúga. Af þessari medferd vard eg beygjulegr, svo eg þordi ecki ad líta uppá nockurn mann, en undireins tilfinningarlaus svovel fyrir íllu sem gódu, þrá-

lyndur og ill-lyndur. Hann hyrdti eckért um ad kénna mér ad lesa, eda ad halda mér til ad læra Kristinndóminn, svo eg tefdist ecki vid þad frá vinnunni; týndi eg því svo ǫllu nidur, sem eg hafdi lært ad lesa og pára hjá fóstra minum. Þetta héldst honum líka dável uppi, því Presturinn kom aldrei í húsvitjan, og lét sér nægja med ad spyrja þau bǫrnin á fǫstunni, þegar messufært var, sem sjálfkrafa komu fram á kyrkjugólfid; þannig fór mér heldur aptur enn fram í ǫllu. Hjá þessum húsbónda var eg þángad til eg var 12 vetra, þá dó hann, og þókti mér eins vænt um þad, eins og mér sárnadi þad þegar fóstri minn dó. Nú var eg settur í nidursetu í þridja sinni hjá fátækum bónda í sveitinni, hann var ólíkur bádum mínum fyrri húsbændum, en þó litt fallinn til ad stjórna mér, svo sem eg nu var ordinn afvegaleiddur; hann var hid mesta gúngumenni, afskiptalaus og hyrdulaus; konan var nockud skárri, þó kvad eckért ad henni. Hér mátti eg nú ad mestu lifa og láta, eins og eg vildi, því þar skipti sér enginn af, og má géta því nærri, ad mér hafi ecki verid þad hendtugt med því lagi, sem komid var á mig; eg fór mér nú ecki hardara vid vinnuna enn eg ætladi mér, því þegar kallin eda kéllingin fundu ad einhvǫrju vid mig, þá lendti þad vid nǫldur, og þad tók

eg ecki nærri mér; eg sagdist ecki vera skyldugur til ad erfida fyrst eg væri nidursetn, og þad væri gefid med mér. I matnadi átti eg ecki gott, því bóndin var fátækur, sem von var, þar sem litlu var afkastad, og húsyslan var lítil. Enginn hélt mér til ad læra ad lesa eda ad læra Kristinndóminn ad neinu rádi, mér lá þad í léttu rúmi, þó þad væri nefnt svona lausliga einusinni eda tvisvar, því eg var ordinn svo vanur vid ad géra eckért, nema þad sem eg þordi ecki ad láta ógjørt vegna eptirkomandi hyrtingar. Mér gat þannig ecki farid fram í neinu á þessum bæ. Svona fór nú fram þángadtil útá leid um veturinn, þá kom Presturinn í húsvitjan; um vorid ádur høfdu ordid prestaskipti, og lét sá nýkomni prestur barna uppfrædínguna vera í fyrirrúmi fyrir øllum sínum embættis skyldum. Hann lét alla á bænum, sem voru fyrir innan tvítugt, lesa fyrir sér, og géra grein ó sinni þeckingu í Kristinndóminum, og líkadi honum vel vid alla, en þegar til mín kom, þá var kvedid vid annann tón; eg kunni þá eckért, nema Fadir vor og blessunar-ordin, og einhvørn graut í nockrum bænum og versum, sem eg hafdi lært hjá fósturfødur mínum, og þegar eg átti ad lesa á bók, þá stafadi eg eins og 6 vetra barn. Presturinn vard forvida, þegar hann fékk ad vita

hvad eg var gamall; fór hann nú ad grenslast eptir hvar og hvornig eg hafdi verid uppalinn, og gérdi mér sídan lánga áminníngu, sem var løgud eptir mínu ásigkomulagi. Hann leiddi mér fyrst fyrir sjónir, hvørsu heidarligt þad væri, og í sjálfu sér hrósverdt ad kunna vel ad lesa, og ad kunna vel sinn Kristinndóm, og yfirhøfud ad vera vel ad sér í þeim bókmentum, sem ætti vid sérhvørn aldur og serhvørja stétt; tók hann þá til dæmis ymsa únglínga, sem eg þekti, og vóru ødrum betur ad sér í bókmentum, og sýndi mér ofaná, ad þad væri ein af adalorsøkunum til þess, ad þeir væru metnir meira enn adrir únglíngar á þeirra reki; hann tiltók og nockra únglínga, sem eckért lærdu fyrir mókþróa og leti sakir, og bendti mér til hvad illur ordrómur á þeim lægi; hann taldi líka nockra fullordna menn og bændur, sem vóru vel ad sér, eptir því sem kostur er á í þeirri stétt, og lét mig þreifa á, ad þetta væri þeim til mikils vyrdíngarauka hjá sveitúngum þeirra; enn nefndi hann og nockra bændur, sem vórú heimskir og illa ad sér, og leiddi mér fyrir sjónir hvørsu miklu minna álit þeirra væri fyrir þá skuld; — sagdi hann ad þeir mættu nú drecka af því á fullordins árunum, ad þeir hefdu verid latir og halstýrugir í úngdæminu, því þad væri satt, sem maltækid segdi: þvi er

fibl ad fátt er ként, og þad sem stædi í Hallgrímskveri:

Opt er sá í ordum nýtur,
sem ydkar mentan kjæra,
en þussinn heimskur þegja hlýtur
sem þrjótskast vid ad læra.

Hann sagdi ad eg skyldi nú taka í mig nýann hug og dug, og bera mig ad komast í tölu hinna námfúsu únglínga, þad væri sá einasti vegur til þess, ad eg ecki yrdi talinn med heimskíngjunum, þegar eg yrdi stór. Ef eg gérdi þetta, sagdi hann ad eg yrdi ánægdari med sjálfann mig, og fengi lof hjá öllum gódum mönnum.

Svona leitadist hann nú vid ad vekja metnadarfýsnina (ærutilfinnínguna) hjá mér, því hann ætladist til ad hún skyldi reka mig til ad læra. En honum þókti þad ecki nóg, hann vildi nú vekja fleiri fýsnir og tilfinníngar hjá mér, eda ef þær voru vaknadar, þá vildi hann víkja þeim svoleidis vid, ad þær legdust á eitt med metnadarfýsninni, ad halda mér til ad læra; hann veik þessvegna rædu sinni, og stíladi hana nú uppá munadarfýsnina (hagnadar — eda farsældarfýsnina). Hann vissi vel ad hún var vöknud hjá mér, eins og ödrum, sem komnir eru á þann aldur, enn hann grunadi líka hitt, sem var, ad hún hefdi ecki híngadtil sýnt sig í ödru

enn því, sem mér var annadhvort ógagnligt eda skadligt t. d. í því, ad hlidra mér sem mest hjá allri vinnu og lærdómi. En med því ad slíkar fýsnir eigi verda nidurkæfdar, þá bar hann sig ad locka þær til ad verka til gagnstædrar hlidar; þetta gérdi hann med því móti, ad hann leiddi mér fyrir sjónir, hvörsu hegllasamt þad væri, þegar komid væri á fullordins aldurinn, ad hafa varid æskuárunum vel til ad læra Kristinndóminn, og til ad læra ad lesa og skrifa og reikna, og s. frv. Hann sagdi, ad ef ad eg ecki lærdi Kristinndóminn, þá yrdi eg aldrei fremdur, og gæti þannig ecki komist í kristinna manna samfélag, en til þess ad géta lært Kristinndóminn útheimtist ad hafa lært ad lesa; auk þess væri þad bannad í lögunum, ad sá mætti gipta sig, er ecki kynni hvörttveggja, svo hann gæti kénnt þad börnum sínum og hjúum, og mundi mér kannské ecki falla þad betur, þegar eg væri kominn á þann aldur, ef þad stædi mér í vegi. Hann sagdi ennfremur, ad þad ablædi margrar skémtunar og hagsmuna ad kunna ad lesa, sem hinir mættu án vera, er þad eigi kynnu, því þegar manni leiddist, og eckért væri fyrir hendi ad starfa, þá tæki hann sögubók eda adrá skémtiliga eda gagnliga bók til ad lesa, en hinir mættu geispa og hánga ofaní höndurnar á sér á medan. Þegar manni væri skrifad til, væri þad

ekki hagkvæmt, ad géta lesid brèfid sjálfur, enn ad verda fara med þad til annnara, kannskè á adra bæi; þad kynni líka stundum ad standa svo á, ad brèfid innihèldi eitthvad þad, er eigi þætti jafnvænt ad adrir vissu. Hvílíka nytsemi bóka-lesturinn hefdi í andligum efnum vildi hann ecki nefna, en hvad veraldlig efni áhrærdi, þá hefdi margr bóndi gagn af ad lesa búnadarrit, og adr-ar bækur, er helzt vördudu bændastèttina, því bædi gætu þeir numid margt af þeim, en einkan-liga vektu þær eptirtekt þeirra, og leiddu þá til ad yfirvega þá hluti, er þeir dagliga sýsludu um, og þeirra edliliga gáng, og hefdi þad heillasamar afleidíngar fyrir alla; en því væri verr ad þeir væru allt of fáir, er svo gérdu, og því væri búsældin svo sjaldgæf. Sló hann nú uppí hálf gaman, og spurdi mig hvert mèr sýndist þad ecki ómakslns verdt ad læra, þegar eg fyr-ir þad sama gjæti ordid ríkur og gódur bóndi. Ad skrifa sagdi hann væri góð lyst og þörf; þad stædi eins á því med brèfaskriftina eins og med brèfalesturinn, ad þad væri hagkvæmara ad géta skrifad brèfsedilinn sjálfur, enn fá þad ödrum. Reikníngslystin væri ómissandi fyrir hvörn bú-höld, sem vildi brúka nockra nákvæmni, og ad-gjætslu; þá sæist líka hvört rètt væri reiknad í Kontrabókinni, og s. frv.

Eg svaradi engu, en ecki held eg ad eg hafi verid mjøg følur í andlitinu. Eg skammadist mín nú fyrst og fremst ofan í hrúgu fyrir þad, af því Presturinn átti í hlut, ad eg kunni eckért; en ad ødru leitinu tókst Prestinum þad sem hann ætladi sér, því ad nú hreif mig ósegjanlig laungun eptir ad læra ad lesa, og ásetningurinn ad ástunda þad eptirleidis var óbifanligur; einasta óskadi eg ad Presturinn vildi nú hætta þessum lestri, og fara af stad, en mér vard ecki ad því, hans tími var ennþá ecki kominn góda manns; hann átti ennþá eptir ad leitast vid ad vekja hjá mér vyrdíngu fyrir trúarbrøgdunum, en þad tókst honum midur enn hitt, þó ávann hann nockud tøluverdt; eg var líka medtækiligur fyrir øll áhrif, því hugurinn var í einhvørri óvenjuligri hrærfngu. Hann byrjadi þá á því ad vekja hjá mér undran og lotníngu fyrir Skaparanum, þad gérdi hann med því ad leida mig til ad skoda og yfirvega guds verk á annann hátt, enn eg hafdi gjørt ádur. Byrjadi hann þá fyrst á þeim hlutum, sem eg daglega sá í kríngum mig, og færdi sig svo smámsaman lengra út, þángadtil hann hafdi leidt huga minn út í þann ómælanliga geim, hvar óteljandi þúsundir himinhnatta sveima hvørr fyrir utan annann, svo lángt sem augad eygir og hugurinn gétur flogid. Svona

sýndi hann mér ofaná það hvörsu Guds verk væru hendanliga stór; en að ödru leitinu leiddi hann mér fyrir sjónir hvörsu hendanliga smágiörsir hlutirnir væru; hann sagdi að svosem Guds verk væru hendanliga stór, þegar þau væru skodud öll í einu, eins smágjörd væru þau, þegar menn vildu skoda hvörn part útaf fyrir sig. Hann sagdi, til dæmis, að jördin væri sáralítill partur af al-heimunum, sérhvört land væri lítill partur af jördunni, sérhvört hérad lítill partur af landinu, sérhvör þúfa lítill partur af héradinu, sérhvört grasstrá lítill partur af þeirri þúfu, er það sprettur á, en sérhvört gras væri aptur samansett af ödr-um smærri pörtum, t. d. rót, stilk, blómstrum, blödum og s. frv. og sérhvörr af þessum pört-um ennþá aptur af ödrum smærri pörtum, og svo framvegis, svolángt sem augad og hugurinn gætu fylgt; að lokunum sagdi hann, ad augunum dapr-adist sjón og huganum flug eins vid það smáa eins og það stóra, og yrdi þá ekkért eptir nema undrun og lotníng fyrir Skaparanum, sem hefdi sýnt sinn hendanliga mátt í hvörutveggju. Þar-næst leiddi hann mér fyrir sjónir þá visdómsfullu niðurskipun og fegurd, sem náttúran lýsir, med því að taka dæmi af þeim hlutum, er eg dag-liga sá í kríngum mig.

Eptir þetta leitadist hann vid ad vekja hiá mér elskuna til Guds, á þann hátt, ad hann leiddi mér fyrir sjónir hvørsu mannkynid er med øllu komid uppá Gud bædi í andligann og líkamligann máta, og hvørsu mikid vér eigum honum ad þacka."

„Prestirinn fór ad sønnu ædi mørgum ordum um allt þetta í húsvitjaninni, en hann útlistadi þad þó seirna betur fyrir mér, svo eg gét nú sagt þess greiniligar frá því, hvørn veg hann valdi sér vid barna-uppfrædínguna. En han lét sér ecki nægja ad velja þad haganligasta efni, eptir sérhvørs aldri og þecking og ødru ásigkomulagi, hann leitadist líka vid ad brúka þann besta máta, til ad koma sérhvørjum í skilnínginn um þad sem hann vildi. Hann leitadi allra bragda til þess ad locka børnin til ad svara einardliga og segja sína meiníng; hann vard þessvegna ecki bistur þegar þau svørudu rángt, og neitadi þeim heldur ecki strax, en leiddi þau med einhvørjum dæmum, þángadtil þau ráku sig á þad sjálf, ad þau høfdu svarad rángt. Hann hafdi einhvørt lag á því ad leida børnin med samtali til ad finna þad sama sjálf; hann tók opt dæmi af þeim hlutum, sem hann vissi ad børnin þecktu vel, og líktust í einhvørju þeim hlutum, er hann vildi koma þeim í skilníng um; lét hann þá børnin fyrst dæma

um þann hlutinn, sem þau þecktu og leiddi þau sídan, þángadtil ad þau sáu ad eins skéd á hinum hlutnum, sem þau ecki þecktu. Eg vil segja þér eitt dæmi uppá þad, hvornig hann fór ad spyrja; á seinustu árunum, sem hann lifdi, treysti hann sér ecki til ad fara í húsvitjan á veturnar, þótt hann væri ern og heilsugódur á þeim aldri, en í þess stad kalladi hann úngdóminn úr sókninni heim til sín, og þad af sóknarfólkinu, sem hann hélt ad helzt mundi þurfa uppfrædingar vid, tvisvar eda þrisvar á vetri, og suma optar. Í hinn ed fyrra, seinasta árid sem Presturinn lifdi, fór únglíngur nockur til mín í dvøl úr annari sókn; hann var 18 vetra ad aldri, einardligur og málhvatur; hann var nú einn í þeirra tølu, sem áttu ad lesa fyrir Prestinum; fylgdist eg med hønum og yngsta syni mínum, eins og margir gérdu, því sóknar-fólkinu þóktu þeir tímar skémtiligastir, er þad heyrdi á rædur og kenníngar Prestsins, svo var hann elskadur og virdtur. Þegar farid var ad spyrja, og rødin kom til únglíngsins, reyndi Prestur hann fyrst framarlega í kverinu, og gékk þad vel; en þegar kom aptur í Sjøtta Kapitulann, reyndi Prestur til á þrem stødum, og sagdist drengurinn enga greinina kunna. Prestur vard hissa, og spyr hvad því valdi. Únglíngurinn kvad

sinn fyrri prest hafa strikad út fyrir sig mesta hlutann af Sjötta Kapitulanum, eptir beidni foreldra sinna.

Prestur. Nú! ætla þad sé þá ecki naudsynlegt ad læra ad þeckja sínar skyldur?

Ungl. Ecki allar held eg. Foreldrarnir mínir sögdu ad mesti parturinn Sjötta Kapit. væri óþarfi, þvíad menn vissu optast nær, svona af sjálfum sér, hvörnig þeir ættu ad haga sér.

Prestur. Veiztu nú hvad skyldurnar eru í raun og veru?

Unglíngurinn þagdi og vissi ecki gjörla, hvad hann átti ad segja.

Prestur. Ætla þad sé ecki skylda, sem menn eru skyldugir ad géra?

Ungl. Jú.

Prestur. Ef húsbóndi þinn skipar þér eitthvert verk, ertu þá ecki skyldugur ad géra þad?

Ungl. Jú.

Prestur. Hvörsvegna?

Ungl. Af því þad er hans vilji.

Prestur. Vilji húsbónda þíns (í tilliti til þín og þess, er hann vill ad þú starfir), er þá sú skylda, sem þú átt ad uppfylla.

Ungl. Þad sýnist svo.

Prestur. Alltadeinu stendur á skyldunum, þegar gætt er ad þeirra fyrstu uppsprettu; þær

eru Guds vilji, í tilliti til vor, í sérhvörju tilfelli, eda med ödrum ordum: þær eru þad, sem Gud vill ad vér gérum í serhvörju tilfelli.

Ungl. Þagdi og hneigdi liúd eitt höfudid.

Prestur. Þegar þú ecki grenslast eptir hjá húsbónda þínum, hvad þú eigir ad hafast ad, veiztu þá alltént af sjálfum þér, hvad hann vill ad þú starfir í þad skipti?

Ungl. Nei, hvornig á eg ad vita þad?

Prestur. Hvornig getur þú þá vitad, hvornig Gud vill ad þú hagir þér í sérhvörju tilfelli, þegar þu hefir ecki grenslast eptir því á undan? eda med ödrum ordum: hvornig getur þú þeckt allar þær skyldur af sjálfum þér, sem þú hefir aldrei lagt neina alúd á ad þeckja?

Ungl. Kannské foreldrum mínum hafi sézt yfir í þessu.

Prestur. Þad held eg líka, einkum fyrst þú hefir svo gódar gáfur. En tekurdu þig aldrei fram um þau störf, er þú veizt ecki uppá víst hvort húsbóndi þinn vill láta vinna?

Ungl. Nei, eg hefi nóg ad géra samt.

Prestur. Og þá mundir þú ecki heldur uppfylla þá skyldu, er þú annadhvort ecki eda mjög ógjörla þecktir?

Ungl. Eg held ecki.

Prestur. Eg set nú ad húsbóndi þinn ætl-

ndi ad senda þig í lángferd, og væru margar torfærur á leidinni, en þú hlyppir strax af stad, sem þú heyrdir óvæníng um þad, og bidir ecki eptir því, ad þér væri sagt med hvorjum eyrindum þú skyldir fara, eda hvar lægi hættu minnstur vegur; hvornin heldurdu þad færi?

Ungl. Eg er ecki sá glópur, ad eg færi svona ad rádi minu.

Prestur. Nei! Nei! eg segi þad ecki heldur; en eg tek svo til dæmis.

Ungl. Þad er sjálfsagt, þad færi illa; eg leysti eckért af þeim eyrindum, sem húsbóndi minn hefdi ætlazt til ad eg skyldi fara med, en gérdi honum margt til óhags, og færi mér kannské sjálfum ad voda.

Prestur. Þetta líf getur líkst vid lángferd, og hefir Skaparinn ætlazt til ad vér á henni skulum leysa eyrindi nockur af hendi, hvorr í sínu kalli; en med því eyrindin eru margbrotin, og margar torfærur á leidinni, þá hefir Skaparinn hagad því svo til, ad vér skyldum géta fengid ad vita, hvornig vér eigum ad haga oss á þessari lángferd, ef vér adeins sjálfir leitum þess; en ef vér nú hlaupum af stad frameptir lífsins skeidi, án þess ad grenslast eptir, hvornig Skaparinn vill ad vér högum oss, hvornig heldurdu þá fari?

Ungl. Eins og fyrir mér, ef eg flanadi

í lángferdina, ádr enn eg vissi, hvad eg ætti ad eyrinda, eda hvar eg ætti ad fara.

Prestur. Rétt er þad, barnid mitt! en Sjötti Kapitulinn er um skyldurnar, eins og þú veizt, og getur þú þá sjálfur séd, hvort þad er þarft eda óþarft ad læra hann. Vér megum ecki hafa eintóma Trúarlærdóma, og byggja Sidalærdómunum út, og ecki heldr eintóma Sidalærdóma, og skinga Trúarlærdómunum undir stól; vér eigum og hljótum ad hafa hvorja med ödrum og láta hvorutveggju fylgjast ad, því þeir eru bygdir hvorjir á ödrum."

Nú tók eitt af börnum Godsvinns á Sólheimum, 14 vetra gamall piltur, Snorri ad nafni, málinu fyrir og sagdi: hann hefir farid alltadeinu ad kénna Presturinn svá arna, fadir minn! eins og þú, þegar þú villt koma ockur í skilning um eitthvad andligt eda veraldligt.

Godsvinnur. Þad er ekki svo ólíklegt, því eins og eg hafdi hina mestu nytsemi af æfisögu Þorláks bónda í ödru, eins tók eg þennann kénslumáta upp, sem hann sagdi ad Presturinn hefdi brúkad, og hefir hann reynst mér mikid vel.

Snorri. Já mér finnst eg skilji allrabezt, þegar þú leidir ockur til hins sanna á þennann hátt.

Godsvinnur. Lofadu mér nú ad seigja söguna.

„Eg er nú kominn nockud burt frá húsvitjaninni" sagdi Þorlákur bóndi „og er þad, ad nockru leiti, med vilja mínum, en svo ad þú ecki missir samanhengid, þá ætla eg ad færa mig nær henni aptur. Þegar Prestrinn var búinn ad lesa svo mikid yfir mér sem honum líkadi, snéri hann sér til húsbændanna, og veitti þeim ávítur fyrir þad, ad þau hefdu ecki haldid mér til ad læra ad lesa framanaf vetrinum, og skipadi þeim ad leggja meiri alúd á þad, þad sem eptir væri af honum. Hann sagdi ad ecki væri því um ad kénna ad eg væri gáfulaus, þau born væru mjög fá, sem gætu afsakast med því. Hann sagdist mundi koma um sumarmálin, til ad vita hvad mér hefdi þá farid fram, en kæmist hann ecki til þess, þá skyldu þau senda mig heim til sín einhvorntíma um sama leiti, og kvadst hann seinna mundi tiltaka daginn nákvæmar.

Hann endti nú húsvitjanina med rædukorni, og fór svo af stad, og vard eg því feginn, eg segi þad satt, því mér þókti hann vera búinn ad lesa nóg yfir kollinum á mér.

Húsvitjanin verkadi þó svo mikid, ad eg fór ad keppast vid ad læra ad lesa; húsbændurnir héldu mér líka til þess med meiri alvorugéfni enn ádur. Á sumarmálum hafdi mér farid svo mikid fram, ad eg las bæriliga, og þegar

Presturinn reyndi mig, likadi hönum vel, bad hann mig ad halda þeirri kostgæfni fram, er eg hefdi nú byrjad, þad yrdi mér til hamingju seinna meir. Veturinn eptir lærdi eg allann Ponta, sem þá var Barnalærdómsbók, og næsta ár var eg fermdur; þá var eg á fimtánda árinu. Tveimur árum þareptir, var eg tekinn fyrir léttadreing, af efnugum bónda í næstu sókn. Þar vár ecki gott bæarbragd, og dró eg, eins og vant er ad vera, dám af minum sessunautum med tímanum; fór mér nú ad nýu mikid aptur ad sidferdi og hugarfari, sem Presturinn var þó búinn ad koma í gott horf. Eg sá ad vinnumennirnir fóru sér ecki hardt, þegar húsbóndinn var ecki vid, og þó hann væri nálægur, hlupu þeir ecki af sér hornin; og á þetta og annad eins var eg yfirburda næmur, einkum þar eg var kominn í góda stöfun med þad á undan; sífelldur sollur, kérskni og klám gleyptu nú þannig fyrir mér, ad eg innan skams tíma hafdi gleymt Prestinum og öllum hans áminníngum; eg vard fatt ad segja allramesti garúngur. Þegar húsbóndi minn í fyrsta sinn galt mér kaup auk fatnadar, gaf hann mér vænann saud, fjögra vetra; mér þókti óskøp vænt um þad, og var eg ad rádgast um, hvörnig eg ætti ad hagtæra hönum, svo eg fengi sem mest fyrir hann; þegar vinnumennirnir heyrdu þad, settu þeir upp spek-

ings svip, og sögdu ad mikill heimskíngi væri eg ad vilja fara ad selja saudinn, þad nemdi svo engu, sem eg fengi fyrir hann, mér væri betra ad láta hann í mig, eg vissi þá bezt hvad af honum yrdi; þad sögdust þeir gera, og yrdi sér gott af. Hvört þeir hafa nú gért þetta af fávizku, eda af því, ad þeir vildu mig jafnann sér í öllu, eda, í þridja lagi af því, ad þeir hafa hugad sér ad fá hjá mér bita, þad veit eg ecki, en hitt er víst, ad eg féllst á fortölur þeirra, og át nú saudinn uppúr skinni, og þurfti eg þess þó ecki vid, því vistin var gód. Mér fannst nú bágott bragd ad sauda-kjötinu, og héldt þess vegna árliga fram ad kaupa mér hángid kjöt og magála, fyrir þad af kaupinu mínu, sem mér var ecki goldid í fatnadi, og stundum seldi eg spjarir af mér fyrir einhvörn gódann bita. Nú var komid lagid á mig, eg var ordinn bædi latur og eydslusamur, en þó fór mér betur fram í bádum lystunum seinna; því þegar eg var á fyrsta árinu um tvítugt, kéndi Fjandinn mér, og nockrir lausamenn, sem eg komst í kunníngsskap vid, ad verda Lausamadur. Eg réri nú út á Sudurlandi, eins og lög géra rád fyrir, á vetur, vor og haust, en á sumrin var eg í kaupavinnu upp til sveita. Í verinu vandist eg á leti, tóbaks-brúkan og brennuvíns-dryckjur og fleira óþarft, svo þóad

og stundum óbatadist drjúgt, geck þad jafnódum úr aptur í frambúdina, svo aldrei hafdi eg neitt afgángs, en var jafnan í skuldum vid hana; hey-vinnan á sumrin vard mér óbætilig, af því hún leysir eingar hvíldir. Þannig vard eg æ óhæfari til þess ad géta ordid þad, sem eg gat vænt ad verda, þegar bezt gengi, nefniliga: íslendskur bóndi."

Nú rann mér kallt vatn milli skinns og hörunds, því mér fanst bóndi vera ad lýsa mér, en samt lét eg sem eckert væri. Bóndi héldt fram sögunni.

„Þridja sumarid, sem eg var lausamadur, var eg kaupamadur á einum bæ í minni fædingar-sveit; þá vildi þad svo til, ad eg vard ástfánginn í einni vinnukonunni; þad var yfirburda efnilig stúlka, en bláfátæk; til þess ad geta nú verid hjá henni, vann eg þad til ad vista mig hjá húsbóndanum til næsta árs. Honum var ad sönnu ecki um ad taka mig, en af því ad vinnu-manna ekla var mikil á þeim árum, er allir vildu lausir vera, og unnusta mín bad fyrir mig, þá var þad ad rádi gért. Eg ætla nú ad hlaupa yfir þad, sem fram fór þángadtil á Krossmessunni átid eptir, og taka þar til, er eg kom í vistina. Fyrstu vikuna var eg svo lidugur og stimamjúk-ur, ad húsbændurnir kunnu sér ecki læti, og

heldu mér vid hvorn sem kom, þau sögdu ad eg væri bodinn og búinn til alls; en þegar kom fram í adra vikuna, þá fór ad draga af mér; og í mánadarlokin snéri eg því fullkomliga út sem inn var; gjördist eg þá svo latur og hvumleidur eins og þau hjú, er lökust eru, eigi ad sídur var eg nógu störhuga, því strax um haustid ætladi eg ad gipta mig, og bad eg Prestinn ad lýsa; en þegar búid var ad lýsa fyrstu lýsínguna, komu Hreppstjórarnir og bönnudu Prestinum ad lýsa optar; sögdu þeir ad eg væri allramesti óspilunarmadur og letíngi, en hvörugt ockar hjónaefna ætti neitt, væri því ekkért sjáanligra, enn ad eg á fyrsta eda ödru árinu yrdi sveitarvandrædi. Nú datt ofan yfir mig. Eg skammadist mín mest fyrir þad, ad þetta var komid svo lángt, og þókti líka óþolandi ad mega ecki eiga unnustu mína; eg ól þessvegna daudligt hatur til Hreppstjóranna; en nú gét eg ecki þackad þeim nógsamliga fyrir þad, því þad frelsadi mig, satt ad segja, frá húsgánginum. Eg vissi ecki hvad eg átti til ad géra. Einusinni datt eg ofaná þessi ord af hendíngu: leitid fyrst Gudsríkis og hans réttlætis, þá munud þér fá í vidbot allt þad, sem þér vidþurfid. Kannské þad komi til af því, hugsadi eg med mér, ad eg ecki fæ ad eiga hana Unu mína (svo hét unnusta mín), ad eg ennþá ecki hefi leitad Gudsríkis af

meinni alúd; — mér finnst þó ad eg geti ekki verid án hennar — og sé þad satt, ad þeir sem leita Guds-ríkis fái allt þad, sem þeir vidþurfa, þá fæ eg hana Unnu mína líka, ef eg nú fer ad leita þess af alvöru. Snöggvast var eg í efa um þad, hvörnig ad því skyldi fara, en þad var ekki lengi, því mér þókti þad svosem sjálfsagt, ad sá einasti vegur til þess væri ad lesa gódar Gudsorda-bækur og sækja vel kirkju. Eg las nú Þórdar-bænir og Gerhardi hugvekjur, þegar eg komst höndunum undir, og adrar gódar bækur, sem þá vóru ad fá. Þessi lestur hefdi getad ordid mér til mikillrar uppbyggingar, hefdi eg farid rétt ad, en nú var ekki því ad heilsa; eg las ekki eiginliga til ad frædast og betrast, eda til ad læra hvörnig eg ætti ad haga mér, heldur ætladi eg ad þad væri nockurskonar gudsdýrkun í lestrinum sjálfum, þó hugur ekki alltíd fylgdi máli. Eg vard þó miklu settari enn ádur, en aptur miklu þurrari og stirdsfeldnari í umgengni, þad var allt þad sem lesturinn verkadi, ásamt med mótgánginum; en ekki datt mér þad í hjartans hug, ad þad vardadi nockru, þegar Guds ríkis væri leitad, ad útvega sér þeckingu á sinnar stéttar skyldu[illegible]; ad venja sig á hlýdni og elsku vid yfirbodna, eda á ydjusemi, sparsemi og þrifnad; eg var þessvegna eins athugunarlaus um búnadarháttu eins og ád-

ár, eins hvumleidur o; svørull eins og ádur, eins sólginn í brennivín og ætinn á hángikét og magála eins og ádur, svoad þegar árid var lidid, sá eg ecki, eptir allan þennan lestur, ad mér mundi gánga betur ad gipta mig enn fyrr. Eg fór nú ad hyxa ad þessi lestur mundi ecki vera til mikils, og ætladi eg nú ad fara ad hætta hønum; en rétt um sama leitid fór eg til kirkju, og heyrdi þá prédikun til Prestsins, er mest hefir hrifid á mig af øllum rædum, því hún snéri huga mínum allt í einu, og er þad þó ærid skaldgæft.

Því er verr! ad eg man ecki prédikunina ordrétt, þótt eg lærdi hana einusinni utanad; hún var munstur uppá mælsku; en allar þær fogru líkíngar, sem hér og hvar umvøfdu ena djúpsettu þánka, sú snotra rød á ordunum, sem gjørdi ordfærid lidugt og klíngjandi, er mér lidid úr minni, en adal-innihaldid hefi eg vardveitt, og mun þad eigi gleymast mér ámedan eg lifi; vil eg nú láta þig heyra þad; en til þess ad afbaka sem minnst, ætla eg ad lesa þad af prédikunarinnar eigin ordum sem eg man, en þar sem eg ecki man, verd eg ad brúka mín eigin. Hérumbil til svona byrjadi þá þessi ræda.

# Prédikun.

## Inngángurinn.

Svo vel sem øllum kémur saman um þad, ad þad sé øldúngis naudsynligt til mannanna eylífu velferdar, ad leita Guds ríkis og hans réttlætis, svo ósamþyckir sýnast menn vera í því, hvørnig fara skuli ad því, þar sína leidina geng-ur hvørr. Sumir halda ad sá rétti vegur til þess, sé mikill bæna og sálmalestur, ydugligar kirkjuferdir og adrar gudsræknis-æfingar, án þess ad hafa eiginliga tillit til sidferdisins í lífsins margbreittu tilfellum, því ad þeir ætla ad Gud hafi sérliga velþóknan á þessum andagtar-æfing-um í sjálfum sér, til ad mynda, eins og heid-íngjarnir héldu ad gudirnir hefdu velþóknan á offrum. Sumir ætla sig ad leita Gudsríkis réttiliga, þegar þeir æfa einhvørja einstaka dygd t. d. ørlæti, gestrisni og s. frv.; og hyggja þeir ad slíkar einstakar athafnir séu sannur ávøxt-ur réttrar trúar, og nægar til ad ávinna Guds velþóknan. Sumir ætla enn, ad þeir leiti Gudsríkis réttiliga, þegar þeir leita þekkingar á Krists lærdómi í þeim tilgángi ad betra hjartad, og hans réttlætis, med því ad kappkosta af fremsta megni ad fylgja þessum lærdómi í øllum sínum

athöfnum, eda med: ödrum ordum: ad láta þad betrada hjarta sýna sig í útvortis athöfnum.

En af þessum mátum getur þó einúngis einn verid réttur, því sannleikurinn er einn, og er þá ecki ad furda, þó margur kvarti yfir því, ad hönum tilleggist eigi allt gott fyrir þad, þó hann leiti Gudsríkis; því þeir, sem ecki þeckja hann rétta veg til ad leita þess, þeir leita þess, í rauu og veru, ecki framar, enn sá leitar ad þeim stad, er hann vill finna, sem villtur í dimmvidri stefnir á allt annann stad; og géta þannig ecki ordid njótandi þess fyrirheitis, sem þeim er géfid, er leita Gudsríkis rettiliga, framar enn sá villti, er gengur eptir rángri stefnu, getur fundid þann stad, sem hann ætladi sér ad finna, ámedan villunni ecki léttir af hönum.

Reynslan, sem hefir orsakad þessar kvartanir, hefir nú komid mönnum til, annadhvort, ad rengja Gudsorda sannleika, þar fyrirheitid ecki hafi framkomid á sér, sem þó, — eptir þeirra eigin meiníng — hafi réttiliga leitad Gudsríkis, eda, ad adskilja þá sönnu Gudsdýrkun frá öllum veraldligum sýslunum; þad er ad skilja þannig, ad sönn Gudsdýrkun aldrei geti sýnt sig í veraldligum sýslunum, miklu heldur sé þær skadligar fyrir hana, á þann hátt, ad sá, sem leggi sig mjög ofaní veraldligar sýslanir, dragist

æ meir og meir frá enni sönnu guðsdýrkun, og þeir sem vilji dýrka Gud réttiliga, hljóti því að halda sér sem mest frá veraldligum sýslunum.

Þared þessar síðast töldu meiníngar eru svo skadligar, bædi fyrir einstaka menn, og lönd og lýdi, þá vil eg á þessu stundarkorni leitast vid ad leida ydur fyrir sjónir: hvörr að sé hinn rétti vegur til að leita Gudsríkis; og þarnærst: hvörnig þad liggr í hlutarins edli, að þeim, sem fylgja þessum vegi, tilleggist allt annad gott.

Utleggíngin.

Svo ólíkir þeir vegir eru, ad leita Guds ríkis, sem getid er um í inngánginum, svo kémur þeim ýmsu sem þeim fylgja samt sem ádur saman í því, að þeir allir vilja, hvörr uppá sinn máta, dýrka Gud og þarmed leita hans velþóknunar. Vissum vér nú hvörnig Gud dýrkast réttiliga, fyndum vér nú einhvörja lærdómsgrein, sem í fám ordum kéndi þad, þá gætum vér med þessari lærdómsgrein reynt og prófad alla þá vegi edr máta til að leita Gudsríkis, sem í inngánginum eru nefndir, og þannig fundid hvörr þeirra væri sá rétti. Ef vér nú leitum í Nýa Testamentinu, þá finnum vér, ad Gud dýrkast réttiliga med hreinum anda, eda med hreinum þaunkum og ráðvöndum lifnadi, og nú höfum

vér prófsteininn; en ádur enn vér gétum brúkad hann til hlýtar, hljótum vér ad læra ad þeckja hans innvortis edlí nákvæmar, og þessvegna uppleysa hann í sína parta *); vér þurfum nefniliga ad vita, hvad hér skilst fyrir hreinann anda og hreina þánka. Vid nákvæmari yfirvegan munum vér finna, ad sá hreini andi, sem hér umtalast, sé innilig og kröptug elska til Guds, sem er grundud á réttri þeckingu á Gudi, sjálfum oss og hans óendanligu velgjörníngum vid oss, því þad er þessi elska til Guds, sem Kristilærdómur leggur til grundvallar, og útaf hvörri hann leidir allar adrar dygdir, og án hvörrar hann segir, ad þau bestu verk, ad ytra áliti, séu hégómi einn.

En nú kynni einhvörr ad spyrja: í hvörju er þessi elska innifalin, eda í hvörju sýnir hún sig? Honum vilda eg svara, og bidja hann ad stínga hendinni í sinn eigin barm, þegar hann elskar

---

*) Ordatiltæki þetta er tekid af Vísindagrein þeirri, er kallast Chemie, og á Íslendsku hefir verid kölluð Blöndunarfrædi af sumum. Þessi frædi kénnir á medal annars fleira, ad adskilja þá hluti, sem eru samansettir af fleirum efnum og frumefnum, svoad hvört efni verdur útaf fyrir sig. Þannig uppleysir læknarinn þad medal, er hann ecki þeckir, svo hann sjái af hvörju þad er samansett, og géti þaraf ályktad hvörja verkan þad hefir, hvört þad er saknæmt eda ecki.

og vyrdir einhvorn mann af alvoru, og gëfa gætur: ad hvors hann yrdi þar var. Þegar vër elskum einhvorn af alvoru, þá verdum vër varir vid eitthvad innvortis hjá oss, sem vër köllum elsku; en þótt vër sáum hvorki séd þetta eitthvad, eda þreifad á því, eda sagt ad þad hafi norkud hagna eda þvinstra, eda eignad því adra eiginligleika, þá er líkamligir hlutir hafa, þar þad er audligt, þá erum vër þó eins vissir um þad, ad þad búi í oss, eda ecki búi í oss, hvort sem nú heldur er, eins og vër vitum þad, ad vër hofum einn eda annann lim á vorum líkama, eda oss vanti hann, hvort sem nú heldur er. Og hvad meira er, vër erum ecki einúngis vissir um, hvorr um sig, hvort þetta eitthvad, sem vër köllum elsku, búi í oss sjálfum eda ecki, í tilliti til eins eda annars manns, heldur sjáum vër og einnig hvort þad býr í ödrum mönnum, í tilliti til eins eda annars manns; eda med ödrum ordum: vër finnum ecki einasta, hvort vër sjálfir elskum einn eda annann mann, heldur sjáum vër og einnig á ödrum mönnum, hvort þeir elski einn eda annann mann; því ecki einasta þeir þánkar, heldur og einnig þau ord og þær gjördir, sem hafa tillit til þess manns, sem vër elskum, eda ské í hans áhönd, tá annad edli; eda verda þá ödruvísi lagadar enn ella; þannig eru, til dæmis,

barnsins þánkar og umtal um foreldrana, eda adra, sem þad elskar og virdir, og allt atlæti vid þá, ödruvísi enn vid adra, og allt hvad þad gérir og talar í þeirra ásýnd, gérir þad og talar med meiri setníngi og hæversku, enn þegar þad er hjá ödrum. Sama er ad segja um mann og konu, vin og vin. Alls ber vitni um elskuna og virdínguna, jafnvel þau ómerkustu ord og minnstu útvortis atvik. Héraf gétum vér nú ályktad, ad þetta eitthvad, þetta andliga innvortis, sem vér köllum elsku, stjórni öllum þeim ordum og þaunkum og athöfnum, sem hafa tillit til þess, er vér elskum, eda ské í hans ásýnd.

Þannig er elskan ecki bundin til einstakra athafna, þegar hún er hrein og innilig; þad er ad skilja, ad barnid eda vinurinn er ecki eptirlát-ur í einum hlut, en óþjáll og baldstýrugur í ödr-um, á sama tíma, þegar hvörutveggi eru því eda honum jafn gédfeldir. En hún (elskan) hefir einn annann eginligleika, og þad er sá, ad hún er ecki bundin til vissra tíma; því þegar þeir elskast, þá elska þeir eins inniliga þann eina dag eins og þann annann, þad eina ár eins og þad annad, þángadtil eitthvad kémur, sem veikir elsk-una hjá ödrumhvörjum eda bádum, því þá minka hennar verkanir med henni sjálfri.

Sá sem elskar, fer þá ecki eptir því í athöfnum sín-

um, hvad hønum er gëdfeldast þar fyrir utan, hann yfirvinnur sérhverja hindran, og léggur alla í sølurnar til þess ad uppfylla elskunnar krøfur. Vinir neita sér um margt, hvorr annars vegna, og þess eru dæmi, ad sá eini hefir lagt lífid í sølurnar fyrir þann annan. Héraf gétum vér ályktad, ad þegar elskan er hrein og innilig, þá lætur hún hvorki eigingyrni eda adrar fýsnir hvetja sig eda tálma sér, heldur stjórnar hún vorum þaunkum og athøfnum, eptir sínu eigin innvortis edli; þegar vid bætum þessu vid lýsingu elskunnar, þá verdur hún svo hljódandi øll í einu: Elskan er eitthvad innvortis andligt, sem stjórnar, samkvæmt sínu eigin innvortis edli, þeim þaunkum, ordum og athøfnum, sem hafa tillit til þess, er vér elskum, án þess ad vera bundid til einstakra athafna eda vissra tíma. Þetta er elskan. Hafi hún ecki þessi kennimerki, er hún hvorki fullkomliga hrein eda kroptug.

Allt hvad vér þenkjum eda gérum hér á jørdunni, hvort þad er heldur smátt eda stórt, þad þenkjum vér og gérum fyrir augliti ens allt-sjáanda Guds, sem allstadar er nálægur, og eigum líka í øllu ad hafa tillit til hans; héraf leidir þá, ad þegar elskan til Guds er hrein og innilig, þá stýrir hún øllum vorum þaunkum og athøfnum hér á jørdunni, samkvæmt sínu eigin innvortis edli; er hún þannig hvorki bundin til vissra

athafna, eda vissra tíma, heldur er hun sífeldt og í öllu verkandi, eins og sólin, sem aldrei lætur af ad senda sína vermandi og lífgandi geisla til allra peirra hluta, er blasa á móti henni.

Þegar vér nú þannig höfum leitad ad hinni réttu meiningu vorrar lærdómsgreinar, þegar vér þannig höfum rannsakad innvortis edli þessa vors prófsteins, getum vér nú til fullnustu reynt þá ödur umtöludu slíku máta, ad leita Gudsríkis.

Sá fyrsti mátinn, sem getid var um í inngánginum, var mikill bæna og sálmalestur, ydugligar kyrkjuferdir og adrar Gudræknis æfíngar. Þad er audséd af hlutarins edli, ad þessar og adrar andagtar æfíngar geta haft adra uppsprettu enn sanngudligt sinnislag, sem framkomid sé af elskunni til Guds; því ef einhvorr væri svo grunnhygginn, sem margur hefir verid, ad ætla, ad hinum óendanliga og fullsæla Gudi þækti vænt um ad láta bidja sig, og syngia sér lof, þó ecki væri nema med vörunum: ad ætla, ad hans velþóknan gæti áunnist þarmed, og hann fridskillst fyrir adrar yfirsjónir, hann mundi ecki forsóma andagtaræfíngar, þar honum findist miklu audveldara ad æfa þær, enn ad láta á móti þeim girndum, er honum þæktu yndælastar. En hann færi þá eins ad og sá, sem smjadrar

fyrir Konúnginum, til þess ad koma sér í mjúk-inn hjá honum, en er þó hinn latasti og hyrdu-lausasti í því kalli, sem Konúngurinn hefir falid honum á hendur. Reynslan hefir sýnt þad sama, nefnilega: ad andagtar æfingarnar ecki séu neitt óbrygdult merki uppá sanna elsku til Guds. Hvad er ecki sagt um Pharisæarana? vóru þeir ecki öllum mönnum gudræknari ad útvortis áliti, beiddu ust þeir ecki dagliga fyrir, og föstudu tvisvar í viku? og hvörjum er þó gefinn lakari vitnis-burdur fyrir sidferdi? Hvörnig voru ecki Múnk-arnir í Páfatídunum? þeir lásu og föstudu, og súngu og bádu, en hvörjir vóru meiri skálkar enn sumir af þeim; og enn á dögum sjáum vér opt dæmi þess, ad þeir, sem látast vera hvad gudrækn-astir eru ödrum bráduandari; þad má yfir höf-ud segja, ad séu andagtar æfingarnar ecki sprottn-ar af heilagri lotníngu og inniligri elsku til Guds, þá eru þær hræsnarans einkénni.

Ef vérnú viljum brúka vorn prófstein, þá finnum vér ad allar andagtaræfingar eru ein einstök athöfn, bundin til vissra tíma; en vid höfum ádur sagt, ad elskan til Guds sé ecki bundin til einstakra athafna né vissra tíma, og þaraf getum vér aptur séd, ad þær eru einúngis einn flockur á medal þeirra athafna, sem hún á ad stjóra; stjórni hún nú ecki öllum þínum athöfnum, svo stjórnar hún

helldur ecki þínum andagtaræfingum, en stjórni hún öllum hinum yfirhöfud, svo stjórnar hún ogsvo þessum, og þá eru þínar andagtaræfingar mikilvægar, enn annars ecki. Vér getum þannig ályktad, ad sá sem stundar andagtaræfingar, án þess ad gefa svo mjög gætur ad sínum skyldum, og sínu framferdi í lífsins margbreyttu tilfellum, hann gengur ecki þann rétta veg til ad leita Gudsríkis.

Annar mátinn er nockud ábeckur hinum fyrsta; þared sá, sem hönum fylgir, vill med einni einstakri athöfn, (sem þá fyrst getur heitid dygd, þegar hún stjórnast af elskunni til Guds) útvega sér Guds nád og velþóknan; því eins og sá fyrsti mátinn med réttu gat líkst vid smjadur fyrir Konúngum, svo getur þessi líkst vid fégjafir og mútur til yfirbodinna, til ad koma sér í mjúk-inn vid þá, og fá þá til, ad sjá ígégnum fingur vid glæpi og óknitti, og hallarétti manna. Þann-ig hefi eg med eigin eyrum heyrt fólk segja, ad Gudi mundi ecki mislíka, þó ad þeir ásældist adra, þegar þeir gjæfi fátækum gódann skerf af því aptur, sem þeir hefdi rángliga haft af ödrum; hvörsu heimskuligur, hvörsu óverdugur, hvörsu ófyrirgéfanligur þánki fyrir kristna, ad menn géti keypt af hinum heilaga og réttláta Gudi aflát þeirra glæpá, sem þeim veitir torveldt ad yfir-

géfa, fyrir einhverja athøfn, sem þeim þeckir síst ad koma í verk! Ecki er ad heyra á Gudspjallamønnunum ad Pharisæurunum hafi tekist þad, og er þó tekid til þess, hvad þeir hafi géfid mikid til fátækra; þeim er hélldur lagt þad til lýta enn ecki, af því þessi þeirra athøfn ecki átti meira skyldt vid elskuna til Guds, enn þeirra andagtar-æfingar, og af því tilgángurinn med þessar gjafir var ecki gódur. —

Ein einstøk athøfn í eins manns lífi gétur ecki verid gegnumþreingd af sannri elsku til Guds, nema allar adrar athafnir hans séu þad líka, á sama tíma framar enn einúngis einn hlutur af øllum þeim, sem blasa á móti sólunni, gétur, á heidskýru vedri notid sólarinnar geisla og verkandi krapts, án þess ad hinir adrir njóti þess líka, hverr eptir sínu edli; og er þad þá audsært, ad sé elskan til Guds ecki verkandi í ødrum athøfnum þess manns, sem æfir eina einustu dygd, (ef eg svo má kalla hana), þá er hún ecki verkandi í þessari athøfn, og gétur þessvegna ecki heltid dygd, og er þannig lángt frá því ad géta áunnid Guds velþócknan. Vér gétum þá ogsvo ályktad héraf, ad þeir sem leiti Guds ríkis med því ad æfa eina eda adra einstaka dygd fari villir vega.

En sá sem fylgir þeim máta, er sídarst var

mefndir í inngánginum, nefnilliga: ad leita þekk≈ íngar á Krists lærdómi og kappkosta ad fylgja hönum í öllum sínum athöfnum, hann fylgir þeim rétta máta ad leita Gudsríkis og hans réttlætis; því af Kristi lærdómi leitast hann vid ad læra ad þeckja Gud, mannkynid, og hans velgjörníngá vid þad, hvaraf hrilóg lötn≈ íng, og innilig elska uppvekst hjá hönum; hann leitast ennframar vid, ad læra af Kristi lær≈ dómi ad þeckja Guds vilja í lífsins margföldu hylltíngum; þennann vilja í þeim einstöku tilfell≈ um kallar hann eins mörg bodord, og þessi bodord kallar hann skyldur; og sýnir elskan til Guds sig í því, ad adgjæta og uppfylla þessar skyldur í sérhvörju tilfelli í lífinu, þ. e. elskan til Guds sýnir sig hú sem einhvörn innri and≈ ligann stjórnara í öllum hans athöfnum.

Hann veit nú ad Guds vilji nær til allra hans athafna, þ e. ad sérhvörr gjörníngur sé bund≈ inn til vissrar skyldu, eda med ödrum ordum: ad þad sé ecki sama, í tilliti til Guds, hvörnig og med hvada hugarfari sérhvörr gjörníngur sé gjörd≈ ur. Hann leitar þessvegna eptir, hvört þær at≈ hafnir, hvörra samband vid sidferdislögin hann ecki í fyrsta áliti sér, ecki hángi af ödrum gjörd≈ um, hvörra sambengi vid sidferdis lögin hann glöggliga sér, til dæmis: einhvörr bóndi kynni

ad halda ad þad væri þad sama, (: í tilliti til Guds vilja eda sidferdislaganna,:) hvornig hann hyrdti um jörd sína, en þeckti þaramóti skyldu sína, ad kreda sína sjolskyldu, og ad hafa nockud afgangs handa þeim naudstadda, svo gjæti hann strax þaraf ályktad; ad þad væri ecki þad sama, hvörnig hann hyrdti um jörd sína, þared upp fyllíng hofudskyldunnar væri mjög svo komin undir því; hann gjæti þá strax séd ad þad væri skylda, ad hyrda vel um jörd sína.

Til þess nú ad fá nockurskonar yfirlit yfir þær skyldur, sem optast mæta honum í lífinu, og til þess ad géta því betur fundid sinna ad hafna sidferdisliga samhengi, og visari reglur ad breyta eptir, leitar hann nú ad einhvörjum mid-púnkti í lífinu, um hvörn þær flestu af hans skyld-um snúist, frá hvörjum flestar af hans athöfnum hafi sín upptök, og til hvörs þær aptur hverfa eptir streyma yfirvegan finnur hann ad þessi midpúnktur er hans stand. Til ad sanna þetta vil eg taka bændastéttina til dæmis, þar þér, mínir elskuligu tilheyrendur! allir erud bændur. Hvörjar eru ydar dagligu athafnir? eru þær ecki þad, ad slá og róa, vinna og spinna, ad hyrda hjardir ydar, og annad þessu líkt? er ecki ydar stand sá midpúnktur, hvadan allar þessar og því-líkar athafnir hafa sína nærstu upprás? og er

ecki ydar stand sá midpûnktur, til hvorrs allar þessar athafnir hverfa aptur? eg meina, er þad ecki ydar stand, sem færir þessar athafnir med sér, og er þad ecki ydar stand eda velgengni í þessu ydar standi, sem þér hafid fyrir augum í øllum þessum athøfnum? Þessu mun enginn af ydur vilja neita eda géta neitad; en héraf leidir þá aptur, ad þared Gudsvilji nær til allra ydar athafna, en elskan til Guds sýnir sig í því, ad kappkosta ad uppfylla þennan hans vilja í øllum vorum athøfnum, þá hljóta þeir af ydur, sem viljid elska Gud réttiliga, ad kappkosta ad uppfylla þennan hans vilja í þeim athøfnum, sem fylgja ydar stétt, þar nærstum allir ydar útvortis giørningar á allri ydar æfi géta heimfærst til þeirra, eda eiga meira eda minna skildt vid þær.

Sá bóndi, sem réttiliga leitar Gudsríkis, ástundar því ad læra ad þeckja þær skyldur, sem eru bundnar til þessara og annara slíkra athafna, sem vidkoma hans stétt. Þessa ransókn byrjar hann nú med því ad læra ad þeckja þær adalskyldur, sem fylgja hans standi, og finnur hann þá fyrst, ad hann sem innbúi eda borgari í héradinu, landinu, ríkinu (eptir því sem skodad er lángt eda skamt) er einn limur af því mannliga félagi, sem býr í héradinu, landinu, ríkinu, og hefir þar sinn vissa stad, sem Forsjónin hefir úthlutad honum, á hvorjum hann er

skyldur ad verka fyrir félagid (þ. e. líkamann á hvörjum hann er limur), og undireins sjálfann sig, svo mikid sem hans kraptar leyfa, til ad mynda eins og sérhvörr limur á líkamanum hefir sinn vissa stad, á hvörjum hann verkar, á medan hann er heilbrygdur, svomikid til líkamans þarfa, sem hans edli leyfir og Skaparinn hefir til ætlad; en til þess útheimtist ad hann sé dugligur í sinni stétt. Þarnærst finnur hann, ef hann er húsfadir, (og hann hefi eg mér hér einkum fyrir augum), ad hann á ad framskeyta heilli sjölskyldu, og þartil útheimtist einnig, ef vel á ad fara, ad hann sé dugligur í sinni stétt. Þessunærst finnur hann, ad hann, sem fadir, á ad uppala og uppfræda börn sín þannig, bædi í andligum og veraldligum efnum, ad þau í þeirri stétt, sem þau velja sér, ecki géti kénnt slæmu uppeldi og ófullkominni uppfrædíng um þad, ad þeim ecki lídi vel; enn hértil útheimtist einnig ad madur sé dugligur í sinni stétt. Sleppi eg bóndanum sem húsfødur, og láti nú þann, sem leitar Gudsríkis, vera vinnuhjú, svo finnur hann vid líka ransókn, ad hann, eins og húsbóndinn, er limur af því mannliga félagi, hvört sem hann lítur til þess minna, sem býr í sveitinni, eda hinna stærri, sem búa innan landsins eda ríkisins takmarka, og ad hann þessvegna er skyldugur ad verka fyrir þetta félag, svomikid

sem hans kraptar leyfa; en þartil útheimtist líka að hann sé dugligur í sinni stødu. Sú onnur aðalskylda, sem honum liggur á herdum í tilliti til hans stødu, flýtur að sønnu, að nøckru leiti, af hinni, því hann getur ecki verið gagnligur limur þess mannliga félags, nema hann nókvæmliga uppfylli hana, nefniliga: að vera húsbónda sínum hlíðinn og auðsveipur, og stunda hans gagn, eins og hann vildi stunda það best fyrir sjálfann sig; enn hértil útheimtist líka að hann sé dugligur í sinni stétt og stødu. Það verður þannig aðalskylda að vera dugligur í sinni stétt, undir hvorrar uppfyllingu það er komið, hvornig vér uppfyllum þær aðrar aðalskyldur, sem vér hofum talið, og hvornig vér skiljumst við það ætlunaverk, sem Skaparinn hefir fengið oss í þessu lífi.

Þegar nú sá, sem leitar Guðsríkis réttiliga, veit að það er Guðsvilji, veit að það er heilag skylda að vera dugligur í sinni stétt, svo getur hann þaraf fundið vissar almenniligar reglur fyrir því, hvornig þær einstøku athafnir og sýslanir í hans stétt eiga að framkvæmast, samkvæmt Guðsvilja, hann veit nefniliga, að þær eiga að framkvæmast uppá þann besta og hagkvæmasta hátt, því þetta útheimtist til þess að vér getum verið dugligir í vorri stétt, ásamt því, að vér

ecki vanrækjum neitt af þeim leyfiligu medölum, sem standa oss til boda til ad betra vor kjör; en til þess ad géta vitad, hvarnig sérhvarr einstakur hlutur, sérhvör einstök sýslan ámist best í verk, til þess ad géta þeckt sérhvört medal, sem kann ad standa oss til boda til ad betra vor kjör, útheimtist nú nökkvæm þecking um sérhvörn einstakann hlut, sérhvörja einstaka sýslan og sérhvört medal til velgengni, sem er til innan vorrar stéttar verkahrings, því án þessarar þeckingar gaungum vér eins og í þoku, og öll vor verk verda hálfverk, og gétum ecki heitid dugligir í vorri stétt. Hann veit nú, ad þared Gud vill ad vér skulum vera dugligir í vorri stétt, þ. e. gjöra sérhvörn hlut og framkvæma sérhvörja athöfn, sem heyrir til vorri stétt, uppá þann besta og hagkvæmasta máta, þá vill hann líka, ad vér skulum leita þeirrar þeckingar, sem þartil útheimtist. Hann kappkostar þessvegna ad utvega sér þessa þeckingu, og þad á tvennann hátt. fyrst med því, ad ausa af þeim uppsprettum, sem til vóru á undan honum; þar hann bædi les þau rit, sem til eru áhrærandi hans stétt, og litur eptir þeim máta, sem þeir dugligustu af hans stéttarbrædrum fylgja; og þarnærst med því, ad reyna sjálfur hvört ein eda önnur breyting ecki færi betur, enn þad sem ádur var tídkad, eda fleiri medöl ecki frambjódi sig honum til nota,

enn þeir, sem menn almennt færa sér í nyt; loksins leggur hann allt kapp á ad útvega sér svo mikla æfíngu, sem honum er moguligt í sérhvorjum hlut, og ad verja sinni þeckíngu í lífsins margbreyttu tilfellum.

Sá sem kappkostar þetta, hann er eda verdur hinn dugligasti madur í sinni stétt; en eins og þetta fylgir edliliga af hinni sönnu elsku til Guds, þannig fylgir aptur af því, ad honum, yfirhöfud ad tala, tilleggjast fleiri tímanlig gædi enn þeim, sem eru ódugligir og hyrdulausir i sinni stétt; vér sjáum þannig hvarnig á því stendur, vér skiljum nú loksins þann sannleika, ad þeim, sem leitar fyrst Gudsríkis og hans réttlætis (réttiliga), tilleggist allt annad gott.

En svosem þad, ad kappkosta ad vera dugligur í sinni stétt, ecki er neitt órækt einkénni sannrar elsku til Guds, þar sá ágjarni og metordagjarni, og sá sem af náttúrunni er mjög upplagdur til framkvæmda, géra þad líka, þannig er þad ad ödru leitinu aldúngis víst, (eins og þér, mínir elskuligu tilheyrendur! getid rádid af því, sem eg þegar hefi sagt), ad sá sem ecki ástundar ad vera dugligur í sinni stétt, hann leitar ecki Gudsríkis og hans réttlætis réttiliga, hann er ecki gégnumþrengdur af hinni sönnu elsku til Guds, hann hefir ennþá ecki notid þeirrar einustu stóru og eptirsóknarverdu

farsældar, ad vera í þeirri sameiníngu vid Gud, sem elskan til hans verkar, hann hefir enn þá ecki fengid forsmeck himnarikis í þessu lífi.

Eg sagdi strax ad þad væri eckert órækt einkénni sannrar elsku til Guds ad kappkosta ad vera dugligur í sinni stétt, því sá ágjarni, metordagjarni og sá sem af nátturunni væri upplagdur til framkvæmda, gérdu þad líka, en samt sem ádur er hægt ad þeckja þann, sem kappkostar þad af sannri elsku til Guds, frá himum. Sá sem knúdur af elskunni til Guds kappkostar ad vera dugligur í sinni stétt, færir sér ad sönnu öll þau medöl í nyt, sem géta eblt hans tímanligu velgengni, þegar þau adeins eru leyfilig, og hann ecki þarvid skérdir sinna medbrædra rétt, en séu medölin óleyfilig og leidi af sér óréttindi, fordast hann þau med eins mikilli varkárni, eins og hann varast ad vanrækja nockur af þeim sem eru leyfilig, og standa í hans valdi, því hann fordast eins mikid ad géra á móti Guds vilja, eins og ad láta nockud af því ógjört, sem hann veit ad hann vill. Sá ágjarni og metordagjarni skéyta þarámóti ecki um, hvörnig medalid er, hvört þad er leyfiligt eda óleyfiligt, hvört þad færir med sér óréttindi eda ecki, þegar þeir adeins ábatast þarvid um einn skilding, eda framast um eina litilfjörliga tröppu, og hvad þá þegar meira er í bodi? Sá sem af nátturunni er upplagdur til

framkvæmda, er ecki eins útsettur eins og hinir, til ad brúka sleypilig medöl, en af því hann vantar naudsynliga þeckingu, stefnir hann beint af augum eins og maskína, og yfirtredur marga skyldu óvitandi, og stundum vísvitandi, því hann setur þad ecki eins mikid fyrir sig, eins og sá sanngudhræddi.

Yfirhöfud fá vorar athafnir allt annad innvortis edli og verd, þegar þær stjórnast og ákvardast af elskunni til Guds; því vér getum þá álitid þær eins og Guds verk, því sá sem elskar Gud rettiliga, hann fylgir Guds raustu, sem talar til hanns bædi innvortis í hans samvitsku og skynsemi, og útvortis í hans ordi, og á þannig eiginliga, og frá einni sídu skodad, ecki annann þátt í sínum verkum enn þann, ad hann gefur sig æ meir og meir med barnligri hlýdni og trúnadar-trausti undir Guds lögmál, sem þannig verkandi í gégnum hann, sýnir sig í hans athöfnum. Þetta er elskunnar einkenni. Hinir adrir fylgja ogsvo vissu lögmali, og eiga ecki annann þátt í þeirra athöfnum enn þann, ad þeir gefa sig æ meir og meir undir þess herradæmi, og löggjafans máttur sýnir sig þannig verkandi igégnum þá í þeirra verkum, en þessi löggjafi er Djöfullinn, heimurinn og vorar holdligar gyrndir. Hvílíkur munur ad þjóna Gudi, eda Djöflinum, heiminum og gyrndunum, sem eru gagnstæd! Látum oss þjóna þeim

hveri einn afrækta himum sídari, þá verdum vèr sælir bædi þessa heims og annars, Amen.

Svona hèrumbil hljódadi predikunin, þó eg ecki muni hana ordrètt; sumir Prestar, sem eg hefi lesid hana, segja ad þeir heyri þad gløggt, ad eg fari ecki oldúngis rètt med, þó muni eg hafa haldid øllum kjarnanum, þad heyri þeir á sam-antheinginu.

Engri predikun hefi eg hlýdt med stødugra athygli enn þessari, og engin predikun hefir hrifid meira á mig enn þessi, því hún leiddi mèr svo skiljanliga fyrir sjónir, ad sá máti, sem eg hugs-adi ad væri sá rètti til ad leita Gudsríkis, væri ránguz. Eptir messuna hinkradi eg vid, þángadtil allt messufólkid var komid af stad, þá fór eg til prestsins og hóf vid hann eptirfylgjandi samtal:

Eg. Engin predikun hefir hrifid meira á mig enn predikunin ydar í dag, Prestr gódr!

Prestur. Hvorsvegna?

Eg. Vegna þess ad eg gérdi mèr allt adra ímindun um þad, hvornig menn ættu ad leita Gudsríkis, enn þèr kéndud í dag.

Prestur. Og hvornig huxadir þú þá ad menn ættu ad fara ad því?

Eg. Eg huxadi ad madur þyrfti ecki ann-ad enn ad lesa ydugliga í gódum gudsordabókum, og sækja ræksliga kyrkju.

Prestur. Hyxadirdu þá ad Gudi væri þægd í þessu?

Eg. Já eg hyxadi það.

Prestur. Þú heyrdir nú hvad eg sagdi um þennan máta í dag; en það gengur yfir mig ad þú skyldir trúa þessu, þú hefir þó gódar gáfur; barnalærdóminn þinn kunnir þu vel, og af honum hefir þú ecki lært þetta; það hefir einhvorr mótgangur annad ad þér, því þá taka menn opt uppá ýmsu undarligu.

Eg rodnadi, og vard heldur seinn til svars, því eg vissi ecki hvort eg átti ad dylja sannleikann, eda segja eins og var; loksins rédi eg það seinna af, og sagdi: þér munid, prestur gódur! hvornig það fór fyrir ockur Unu í fyrra.

Prestur. Man eg það; það fór ad sönnu ecki vel, en eg hyxadi ad þú mundir ecki hafa tekid það mjög nærri þér.

Eg. Jú Jú, Prestur gódur! Eg hefi ecki verid sami madur sídan, þó ecki hafi mikid borid á.

Prestur. En þú hefdir gétad verid búinn ad koma þeim hlut í gott horf, hefdir þú viljad, og haft vit á.

Eg. Eg ætladi líka ad bera mig ad því; eg dátt af hendíngu ofaná þessi ord: leitid fyrst Gudsríkis og hans réttlætis, þá mun ydur allt annad gott tilleggjast; eg ætladi mér nú ad gánga á þetta lagid; fór eg þá ad leita Guds-

rikis uppá þann hátt, sem eg sagdi ydr ádan, og hugadi ad Gud mundi gefa mér hana Unu, og hvad annad, sem eg vid þyrfti ístadinn; en nú er lidid heilt ár sídan, og ber eckert á því, ad mér gángi í nockrum hlut betur enn ádur, sem ecki er von fyrst eg hefi farid villt.

Prestur. Og vesalíngur! Nú skal eg kénna þér gód rád, samkvæm því, sem eg kéndi í dag; fylgir þú þeim, þá skalltu bædi fá hana Unu þína og annad sem þú vidþarfst; eg vona ad þú látir þér rád mín, ecki sídur nú ad kénníngu verda, enn hérna um árid, þegar eg kom í húsvitjanina, og taldi um fyrir þér þángadtil, ad þú, sem hafdir verid latur og hyrdulaus, vardst hinn ástundunarsamasti í ad lesa, og ad læra Kristinndóminn, þared þú nú hefir meira vit enn þá.

Mitt fyrsta rád er, ad þú lesir alla barnalærdómsbókina upp aptur, med adgjætslu og eptirþánka; eg ætlast ecki til ad þú skulir læra hana upp aptur utanad, heldur ad þú verjir þess meiri eptirþánka, og hafir þann ásetníng ad láta þá lærdóma, sem hún inniheldur, betra þitt hjarta, og sýna sig kroptuga í þínu framferdi. Þetta gétur þú giort á sunnudögunum, og á kvøldin þegar þú gengur til reckju, og í ødrum frítímum.

Mitt annad rád er, ad þú leggir nidur alla þrióstku, mótþróa og óhlýdni vid húsbónda þinn, en gjørist honum audsveipur, eptirlátur og hlíd-

inn, og álítir hann þér ryfirbodinn, eins og hann í ranninni er, stundir hans gagn eins og þitt eigid væri, og gángir þarf ó undan hinum vinnuhjúunum med gódu eptirdæmi; þú hefir vest af því sjálfur, ef þú villt halda áfram ad vera eins svørull og hvumleidur, úrtølusamur, svikull og latur, eins og þú hefir verid híngadtil, þvíad þegar þú verdur sjálfur húsbóndi, þá gétur þú ecki heimtad ad vinnuhjú þín breiti ødruvísi vid þig, enn þú hefir breitt vid húsbændur þína á undan; þú mátt líka vera viss um þad, ad þegar þau vita hvørnig þú hefir hagad þér í vinnumenskunni, þá géra þau húsbónda sínum ecki hærra undir høfdi, enn þú hefir gért þínum. Ef þú venur þig á úrtølur og svik og leti, ámedan þú ert vinnumadur, og ad hánga sífellt vid verk þitt, án þess ad géra nockurntíma røgg á þér, þá verdur þetta ad vana fyrir þér, svoad þegar þú kémur til sjálfs þíns, þá villtu líka hlidra þér hjá øllu því sem þú gétur; verdur þú þá eins liddaligur og óskarpur í verkum þínum eins og ádur, og svíkur nú þannig sjálfan þig, konu þína og børn, ístadin fyrir ad þú ádur sveikst húsbónda þinn; þú og þínir mega svellta heilu húngrinu, og gánga klædlausir fyrir þína skuld, og ad sídustu skrídur þú útúr greninu, sem þú hefir hokrad í, útá hreppinn med allann hópinn; er ecki þetta snotur lýsing,

sem, því verr! margur einn á með réttu á vorum tímum! Taktu því ráð í tíma, svo að þú gétir komist hjá þessum ósköpum. Eg veit vel að þér gengur torveldt í fyrstu að venja þig á ydni og röggsemi í verkum þínum, en þú mátt ekki uppgéfast við það, að þér verður ekki svo mikið ágengt í því á hvörjum degi, sem þú villt, haldtu adeins stödugt áfram dag eptir dag, og láttu þér nægja, ef þú finnur dálitinn mun á þér á vikna og mánaða fresti, þá verður ydni og röggsemi þér að vana um síðir, eins og þeim, sem opt gengur mikið, að géta gengið mikið, þeim sem opt rær mikið, að géta róið mikið, þeim sem opt slær kappsamliga, að géta slegið kappsamliga, og s. frv. En það er ekki allt undir því komið, að géta unnið miklu af með einhvörjum berserksgángi, því þá gengur maður opt illa frá verki sínu, og skémmir stundum fyrir sér, enn þarf jafnan lánga hvíld á eptir, af því hann hefir ofreynt sig; hitt er miklu meira verdt, að maður leiti lags í hvörjum hlut, og venjist sig á þau sömu handbrögð í sama verki, því sá sem það gérir, kémur sama verkinu af með lægni og fimleika, á skémri tíma enn hinn, er fer með offsa og berserksgángi, og það með þeim mikla mismun að lokunum, að hann gengur vel frá verkinu, og hefir ekki ofreynt sína krapta, svo hann gétur haldið áfram vinnu sinni, á meðan hinn þarf

ad hvíla sig. Eg ætla því ad bæta þessu vid þetta mitt ráð: ad þú venjir þig á lægni og fimleika í verkum, jafnframt med røggsemi og ydni.

Mitt þridja ráð er, ad þú leggir nidur ad kaupa hángikét og magála og brennuvín og annad sælgjæti til ad hafa utanhjá, því þarvid venur þú þig bædi á eidslusemi, sem øllum er skadlig, og sóar þaradauki øllu þínu kaupi í þennan óþarfa, sær þú svo aldrei safnad neinu til ad reisa bú med, og venst heldur aldrei á ad hagtæra þínum eigin efnum forsjálliga; leggir þú þetta nidur, og haldir øllu þínu kaupi til hagnadar í tvø eda fleiri ár, þá hefir þú þó safnad þér dálitlum styrk til búsins; samt vil eg ecki ráda þér til ad vera mjøg heimtufrekur ved húsbónda þinn, því bændur þola ecki ad gjalda mikid kaup; en þad sem þú heimtar, á medan þú ert vinnumadur af húsbónda þínum, þad heimta þín vinnuhjú af þér, þegar þú ert ordinn húsbóndi, svo þú hefir ecki ábatann á því. Þetta ættu øll vinnuhjú ad athuga, því þegar þau eru mjøg kaupfrek, grafa þau sér sjálfum grøf þó þau grafi. Þú hefir lángtum meiri not af því, þegar þú kémur til sjálfs þíns, ad hafa, samkvæmt mínu ødru rádi, vanid þig á ydni og lægni og fimleika í verkum, og

yfirhøfud ad hafa stundad húsbóndans gagn, því þá getur þú þess betur stundad þitt egid.

Mitt fiórda rád er, ad þú safnir þér svo mikilli þeckíngu, sem þér er unt, á búskaparhátt- umi og hlutanna edlilega samhengi, jøfnudi og gángi innan þíns verkahríngs. Þetta getur þú nú, eins og eg kéndi í dag, bædi med því ad lesa þau búnadarrit sem til eru, og þarmed líta eptir gódra búmanna reglum, en einkum med því ad brúka eigin eptirþánka og reynslu, því þad gagnar meira enn allt annad, og verdur jafnan ad vera samfara med allri þeckíng og allri upplýsíng og øllum fyrirtækjum, ef þau eiga ad verda til nockurra teluverdra nota. Vid eptirþánka og reynslu finna menn þad sem ófullkomid er í annara skrifum, og sínum og annara búreglum, og leidast opt þarvid til nytsamra breytínga. Brúkadu þess- vegna umfram allt eigin eptirþánka og reynslu!

Eg. En sumir segja ad þad þurfi engan lærdóm til ad búa.

Prestur. Hvad kallar þú lærdóm?

Eg. Ad vera lærdur í bokum, eins og þér, Prestur gódur!

Prestur. Þú kallar þá lærdóm, þad sem eg hefi lært, t. d. latínu og grísku mælíngarfrædi stjærnufrædi, og s. frv."

Eg. Ja, þad er siálfsagt.

Prestur. Þú kallar það þá lærdóm, sem menn læra?

Eg. Já.

Prestur. En segjum við ecki, að einn læri sjó, (þ. e. sjómennsku), annar læri að slá, sá þridji læri að hyrda fénad, sá fjórði læri að vefa, sá fimti að smída, og s. frv?

Eg. Jú, það segjum við.

Prestur. Þú sagdir ádan, að það væri lærdómur, sem madur lærdi; sjómennska, sláttur, fjár-hyrdíng, vefnadur, smídar, og s. frv., er þá lærdómur líka.

Eg. Kannské, mér sýnist það líka núna.

Prestur. Nú veitsku að það er naudsynligt fyrir þann, sem vill vera gódur bóndi, að kunna sjómennsku, slátt, fjárhyrdíng, vefnad, smídar og s. frv. (annad hvørt allt eda sumt), og hvad getum við þá álýktad af því?

Eg. Að það þurfi lærdóm til að búa; en þetta læra menn ecki af bókum, og verdur ecki heldur lært af þeim, heldur af því að sjá það fyrir sér og med æfíngu; og þá sýnist mér nú aptur eins og það þurfi engan lærdóm til að búa, því eg vil ecki kalla annad lærdóm enn það, sem madur lærir af bókum.

Prestur. Sýnist þér þá að þú hafir álýktad rángt, þegar þú sagdir að það þyrfti lærdóm til að búa?

Eg. Eg veit ecki hvad eg á ad segja, Prestur gódur! mér sýndist þad þá vera rétt, af því sem á undan var gengid, og nú sýnist mér þad gagnstæda rétt.

Prestur. Jæa, vid skulum þá setja ad eckért sé lærdómur, nema þad sem madur lærir af bókum.

Eg. Já, þad held eg sé réttast.

Prestur. Þú hefir lært Kristinndóminn þinn á bókina.

Eg. Jú.

Prestur. Kristinndómurinn er þá lærdómur hjá þér.

Eg. Já.

Prestur. En ef þú hefdir ecki lært hann á bókina, heldur utanbókar af ødrum.

Eg. Eg veit ecki hvad eg á ad segja, Prestur gódur! mér sýnist ad Kristinndómurinn væri lærdómur eins fyrir þad, ef eg kynni hann eins vel; en sé þad satt, ad eckért sé lærdómur, nema þad sem madur lærir af bókum, þá væri Kristinndómurinn þó ecki lærdómur, ef eg hefdi lært hann útanbókar af ødrum. Þér erud kominn med mig í einhvørja flækju, sem eg sé ecki vel útúr, hjálpid þér mér nú útúr henni!

Prestur. (Brosti og sagdi): Þú hefir nú rekid þig á þad, ad fleira sé lærdómur enn þad, sem madur lærir af bókum; en villa þín kémur

af því, ad þú tekur lærdóm í einni einustu merkíngu, nefniliga fyrir þau eiginligu hærri vísindi, sem þeir lærdu stundum, en eg tek lærdóm fyrir allt þad, sem madur lærir, hvad sem þad er. Eg skal ecki neita, ad ordid lærdómur brúkast mest um þau hærri vísindi, ad læra, um ad ydka þau, og lærdur um þann, sem hefir ydkad þau, og ad ordid kunnátta þaramóti, brúkast mest um lærdóm í búskap og handverkum og øllum handydnum yfirhøfud; en stundum slengir madur þó bádum ordunum saman, svoad ef einn merkismadur t. d. segdi, ad þad þyrfti engan lærdom til ad búa, þá kynni einhverjir af þeim nærstøddu ad halda ad hann hefdi meint kunnáttu en ecki vísindi, og hefdu þad sídan fyrir satt og bæru þad út, ad ecki þyrfti neina kunnáttu til ad búa. Sé lærdómur tekinn fyrir þau hærri vísindi, þá samsinni eg þér í því, ad hann eda þau, sem þá er þad sama, ecki þurfa til ad búa, þó leida sum af þeim til ad þeckja nákvæmar búskaparins edli, og til ad sjá gløggvar hvad hagar; en sé lærdómur tekinn fyrir kunnáttu, þá segi eg þér þad satt, ad hún er naudsynlig til ad géta búid vel; — eda ertú mér ecki samdóma í því, ad sjómenska og sláttur og fjárhyrdíng og vefnadur og smídar og s. frv. sé kunnátta?

Eg. Jú.

Prestur. Og ad þetta, allt, eda sumt, eptir því sem ástendur, (sveitarlagi, bólfestu, og s. frv.) sé naudsynligt til ad géta búid vel?

Eg. Jú!

Prestur. Eg játa líka, ad þad væri ecki ómaksins verdt ad lesa búnadarrit, ef þessar athafnir, sem vér hvörsum tilgreynt, ásamt öllum hinum, sem vid hvörsum hugad til og vidkoma bændastéttinni, væru ordnar svo fullkomnar manna á milli, ad engu eda mjög litlu yrdi þar vidbætt, svoad hvörr einn ecki sæi annad fyrir sér, og ecki vendist á annad enn hann besta og algjördasta hátt í öllum búsýslum og búnadarháttum, því þá yrdi svo lítid sem eckert af þeim lært; en, séu búsýslurnar og búnadarhættirnir, hjá þeim flestu sára ófullkomnir og festu- eda grundvallar-litlir, svoad sáir sjái annad fyrir sér, eda venjist á annad, enn ófullkominn og óskipuligann búskap, þá álít eg þad yfrid naudsynligt og öldúngis ámissandi, ad leita betri uppfrædíngar í þeim efnum, af slíkum bókum, er ánnadhvört hafa verid skrifadar af þeim, sem med eigin eptirþánka og reynslu hafa útvegad sér betri þeckíngu enn adrir í búskaparefnum, eda af þeim bókum sem innihalda safn af þeirra manna reynslu og þeckíngu í enum sömu, er bestir búmenn hafa verid á fyrri og seinni tímum, ad svo miklu leiti sem þad gétur ordid kunnugt. Héraf er þá audséd ad læra má búnadarháttu af

búkum; má og ráða það af hlutarins edli, því hversvegna ætla ecki matti skrifa um eina og adra atferd eda reglu í búnadarháttum, eins og í öllum ödrum efnum?

Eg. Mér sýnist ad þér segid satt, Prestur gódur! nú sýnist mér ad eg skilji. En eg óttast fyrir ad fáll hlæi ad mér og hædi mig, ef eg fer ad lesa búnadarrit, því þad er ecki sidur, eins og þér vitid, á medal fólks; vid gaungum heldur uppá rádbuk og ófram med höndurnar í vösunum; Ilka er eg hræddur um, ad ef eg verd ödrum fródrugdinn og smásmugligur í búskaparefnum, sem eg heyri sagt ad búnadarritin hvætji menn til; þá er eg hræddur um, ad þeir fari med mig eins og hann Jón á Slidrum, sem þeir draga sundur í háðinu, af því ad hann vill láta allt ganga eptir vissri reglu, tölu, mælir og vigt, og af því ad hann veit hvörnig sérhvör matartegund verdur best hagnýtt og tilreidd, og hvad mikid af einni matartegund í búi mann þarf til ad jafnast vid vissa ákvedna tölu, mælir eda vigt af annari, af því hann er gloggur í reikningum, og þenkir og talar sjaldan um annad enn um eitthvad þessháttar.

Prestur. Mikil villa ertu, barn! ad óttast fyrir því arna; taktu þér dæmi af honum Jóni á Slidrum; þad sér ecki skárt á honum, þó

ad heimskíngjarnir og Stiffúngarnir hlæi ad honum; hann er líka í því eins og ödru, hann skeytir ecki um þad, þó hann heyri þad, en leidir þad svona hjá sér med hægdinni, því hann veit þetta, ad þad muni minka í þeim mesti hlátúrinn, þegar fer ad lída útá veturinn og þeir ætla ad deya í sulltí, þá verda þeir fegnir ad fara til hans og bidja hann hjálpa sér um einhvorja matbjörg; en þá er svo ástadt fyrir honum, af því hann brúkar reglu, töku, mælir og vigt og s. frv. ad hann gétur hjalpad þeim. Sýnist þér nú sukka ad gêfa enn þyggja, ad vera eins og hann heldur enn hinir, þá er þér einsætt ad leita eptir þeckíngu í búskaparefnum, hvort sem nockur hlær ad þér eda ecki; þeir taka hvorki ofanaf þér ne nedan, þó þeir hlæi. Ef ad fluga eda flö stíngur þig, þá verdur þar eptir raudur bletturt sem hún stack, en þó einhvorr hlæi ad þér fyrir sakleysi, sérdu þess engin merki þegar hann er genginn í burt.

Eg. Eg skal hlýda ydur, Prestur gódur! en eg á engin búnadarrit, og þecki heldur engan sem á þau, nema hann Jón á Slidrum; hvörnig á eg ad fara ad því?

Prestur. Eg skal ljá þér þau búnadarrit sem eg á, og gêfa þér upplýsíngú um þad, sem þú ecki skilur, ef þú villt leita hennar, en einkum er eg reidubúinn til ad gêfa þér upplýsí-

fugu um þad, sem þú annadhvort ecki skyldir vel í hónum Ponta þínum, eda þú óskadir ad fá frekar útlistad, því þartil ætti eg ad vera færari enn til hins. Prédikunina, sem eg flutti í dag, skal eg ljá þér heim med þér, svo þú getir kynnt þér hana betur, og brúkad eptirþánka til ad fylgja samanhenginu í einrúmi, því þad er ecki svo audveldt, þó madur heyri eina rædu líða einusinni frambjá eins og straum, þegar efnid er margbrotid; en þú verdur ad skila mér henni aptur, þegar næst verdur messad.

Eg þackadi hinum góda Presti fyrir sín hollu ráð, og alla umhyggju fyrir mér, bædi nú og fyrri, og snéri svo heimleidis. Á leidinni var eg í miklum þánkabrotum; á medal annars fell mér þad í huga, sem fóstri minn taladi vid mig á deyanda degi, og gjørdi þad nú því meiri áhrif á mig, sem tilfinníngar mínar vóru komnar á svo mikid rót af prédikuninni og samtalinu vid Prestinn, og eg aldrei hafdi fylgt hans rádum, jafnvel þó þau væru samkvæm því, sem Presturinn hafdi kent, og rádid mér til. Eg ángradist yfir því, hvornig eg hafdi vanbrúkad tímann, en ad ødru leitinu brann eg af heitri laungun eptir ad géta nú sem allrafyrst byrjad nýtt líf, og þad var nú minn fasti ásetníngur. Þegar eg kom heim, las eg henni Unu minni prédikunina og

bad hana laga sig eptir því sem í henni væri ként, því ef vid gérdum svo, mundi rádahagur ockar takast. Eg lagdi nu af alla þrjótsku og mótþróa vid húsbondann, og stundadi hans gagn af öllu megni. Eg var allstadar þar sem eg vissi ad eg gat unnid húsbónda minum sem mest gagn, og géck á undan til allrar vinnu þegar han var ecki vid; ydni og röggsemi vard mér ad lokum svo töm, ad eg gat aldrei verid ydjulaus, og aldrei gengid ad neinu verki án þess ad keppast vid. Nú veitti mér létt ad koma því í verk, sem eg ad undanförnu ecki hafdi gétad orkad med neinu móti. Þad kostadi mig ad sönnu mikla sjálfsafneitun og mikid strid, í fyrstu, ad koma þessu til leidar, og stundum var eg rétt á nöfinni ad uppgéfast og hverfa aptur, en eg herdti upp hugann og yfirvann alla torveldni med stödugum ásetningi, og stödugri ástundun, þángadtil mótspyrnurnar tóku ad láta undan. Frístundum mínum vardi eg til ad lesa andligar og veraldligar bækur til skiptis, og til ad tala vid vitra og reynda menn, einkum prestinn, og for eg ætíd frödari og ánægdari frá hönum enn eg kom.

Nú sá eg fyrst hvad baudliga eg hafdi svikid húsbónda minn ad undanförnu; eg vann hönum nú meira enn tvöfaldt gagn vid þad sem

eg hafdi gért hönum ádúr, svoad eg var hönum nú betri enn tveir adrir eins og eg var ad undanförnu, en tilkostnadurinn ad halda mig hinn sami, og þó enda minni, því nú var eg ecki eins heimtufrekur; þaradauki var þad ædi munur fyrir hann, ad umgángast þad vinnuhjú sem ástundadi ad vera eptir hans gédi í öllu, og sýndi, ad þad óleit hann fyrir sinn yfirbodara, eins og eg gérdi nú, eda ad verda ad berjast vid svörulann, óskamfeilinn, óþægann, svikulann, hrecksjóttann og latann vinnumann, eins og eg var ádur; en eg sá nú líka ad eg hafdi ecki svikid húsbónda minn einann, og þad sveitarfélag sem eg var í, heldur og einnig sjálfann mig, því hefdi eg haldid áfram ad vera eins eg var, þá hefdi letin og ódugnadurinn fengid æ meiri yfir hönd yfir mér, og þverlyndi mitt og óskamfeilni gért mig óvinsælan, svoad þó einhvörr gódsemdar hreppstjórinn hefdi verid svo nádugur ad leifa mér ad gyptast, og eg hefdi farid ad búa, þá hefdi eg aldrei komist hærra, enn ad verda síhúngradur húsgángsmatur. Gud gledji sálu prestsins sem leiddi mig af raungum vegi á réttann! hönum á eg ad þacka fyrst og fremst af mönnunum, alla mína tímanligu velferd fyrir víst, og eg veit ecki hvad mikid af þeirri eilífu.

Þegar húsbóndi minn vard var um þá

Kjötu umbreytíngu sem eg hafdi tekid, og hann sá ad hún vard eptir því meiri og þeckjanligri sem stundir lidu fram, vard hann hissa og vissi ecki hvadan á sig stód vedrid, en lét þó ecki bera á því vid mig í ødru enn því, ad hann vard ljúfari í vidmóti og lét mig opt heyra á sér ad hønum líkadi vid mig, þegar eg hafdi sýnt mikinn dugnad eda trúskap. En þegar leid framad veturnóttum, og hann galdt mér kaupid mitt eins og hann var vanur, kalladi hann mig á eintal og sagdi: ad nú væri komid ad þeim tíma sem hann væri vanur ad greida vinnuhjúum sínum skyldur sínar, og ætladi hann nú ad greida mér mínar líka; en hvad mér þykir vænt um, sagdi hann, ad eg gét nú gért þad med betra gédi enn ádur; og skil ecki í því hvad þú ert ordinn umbreittur sídan í fyrra; ádur varstu eitthvørt þad óþægasta og ónotaligasta vinnuhjú, enda gallt eg þér svo-lítid kaup sem eg gat minst, því þú vannst ecki til þess, en nú ertu allra þeirra vinnumanna afbragd sem eg hefir þeckt, og því betri sem lengra hefir lidid á árid; hefi eg nú haft meiri not af þér í ár, enn tveimur ødrum eins og þú varst ad undanførnu, því auk þess ad þu hefir verid mér hollur og audsveipur, hefir þú afkastad helfmíngi meiru enn ádur, eg vil nú leitast vid ad

breyta ved þig, eins og þú hefir breytt vid mig; ætla eg nú ad gjalda þér tvøfaldt kaup vid þad, sem eg hefi goldid þér ad undanførnu, og er eg þó miklu betur haldinn enn hin árin. Eg þackadi hans gódfýsi, en sagdi þarhjá ad ecki skyldi hann gjalda mér neitt gífurligt kaup, þad hefdi slæmar afleidíngar fyrir hina fátæku bændur í sveitinni; því þegar adrir vinnumenn heyrdu ad eg hefdi fengid þetta kaup, þá heimtudu þeir allir þad sama, hvørr af sínum húsbónda, og þeir frekligast sem minnst ynnu fyrir því; eg sagdi, ad þó ad hann væri svo efnadur, ad hann gjæti goldid øllum sínum hjúum álíka mikid kaup, þá væru margir svo fátækir, ad þeir gjætu þad ecki, og mættu þannig annadhvørt vera vinnuhjúa lausir, eda útarma sig med øllu med þessu mikla kaupgjaldi; héraf leiddi mikil vandrædi og vanrækt á bjargrædisvegunum. Hann sagdi: ad eg skyldi nú ecki vera ad þessari undanfærslu, eg skyldi taka vid því sem hann vildi géfa mér, bædi hefdi eg unnid fyrir því, og líka greiddi hann þad af gódu gédi. Eg sagdist hvørki neita því eina eda efa þad annad, en ecki ætladi eg samt ad taka á móti svona miklu kaupi eins og hann bydi mér, hann gjæti, hvørt sem væri, aldrei golldid mér svo mikid kaup, ad þad yrdi mér eins notadrjúgt eptirleidis, eins og sú

æfing, sem eg fengi med því ad vera starfsamur og rögg samligur og kostgiæfinn í hans þiónustu, því þó hann hefdi gott af því á medan eg væri hiá honum, hefdi eg þá meiri not af því siálfur þegar eg færi ad yrkja uppá nýjan stofn med ad gipta mig og búa. Þetta sagdist eg ecki hafa séd fyrri enn núna nýliga, ádur hefdi eg hreytt eins og hinir pilltarnir, eg hefdi rembst vid ad ná nytsæmi, en forsmád kiárnan, eg hefdi næfniliga viljad gapa yfir sem mestu kaupi, en ecki skeytt um, med trúmennsku ydni og röggsemi í verkum, ad útvega mér þá æfingu, sem gérir menn hæfiliga til ad géta biargad siálfum sér og sínum, þegar þeir fara ad búa. Samt sem ádur sagdist eg skyldi þyggja nockud meira kaup enn ádur, en þækti honum ad eg hafa unnid til enn meira, og hann lángadi til ad þægja mér eitthvad í því skyni, þá skyldi hann geima mér þad þángadtil eg færi frá honum, þá skyldi eg taka þad til hinna skærstu þacka, mér kynni þá líka ad liggja á einum og ödrum búsáhölldum (ef eg þá færi ad búa,) sem hann giæti mist, og þá giæti allt jafnast á milli ockar. Húsbóndi minn lét sér þetta vel lika, og skyldum vid nú hvorr vid annann med hinni mestu blídu, þvert á móti því sem vandi hafdi verid til, þegar hann greiddi mér kaup mitt ad undanförnu.

Eg rédi mig heima hjá húsbóndæ mínum til nærsta árs; tók eg á því tøluverdum framförum í þeckíngu á húskaparhöttum, og líka í starfsemi og fimleika í vinnu, því laungunin eptir ad komast sem lengst í hvorutveggju, óx eptir því sem mér fór meira fram, og þareptir før ástundanin. Eg hagtærdi nú kaupi mínu sem best eg mátti, því nú var eg búinn ad leggja af þau heimskuligu sérkaup og adra eidslusemi, hvartil allt hafdi gengid sem laust var vid mig ad undanfornu.

Sú óheppni vildi til á þessu ári, ad húsbóndi minn fótbrotnadi, skømmu fyrir sláttarbyrjun; setti hann mig þá til verkstjóra síns, á medan hann ecki gæti sjálfur gengid til vinnu. Þetta kall vildi eg rækja med hinni mestu trúmensku, en sá brádt ad þad var ecki svo audveldt sem eg hurdi í fyrstu. Vinnumennirnir høfdu horn í sídu minni bædi fyrir þad, ad húsbóndinn hafdi nú sett mig yfir þá, sem þeir álitu jafnan sér, og líka vegna hins, ad þeim þókti eg hafa verid of-óhlífinn-mér ad undanførnu, og med trúmensku og starfsemi orsakad þeim meira erfidi, enn naudsyn hefdi tilborid, þeir søgdu, ad eg flanadi eins og gickur til margra þeirra verka sem húsbóndinn ecki hefdi skipad, og hønum hefdu ecki dottid í hug; vard eg þannig eptir því óvinsælli hjá

þeim, sem eg vard vinsælli hjá húsbændunum; en nú tók yfir þegar eg var ordin verkstjóri þeirra; þeir vildu ecki hlída mér í neinu, heldur ráda sjálfir vinnu sinni eins og eg minni. Eg lét mér í fyrstu nægja ad gánga á undan þeim med starfsemi og trúmennsku, því eg hugdi þeir mundu skamast sín ad fylgja mér ecki, en brádum sá eg ad þetta var ecki nóg, eg vard opt ad segja fyrir hvad nú skyldi starfa, ad nú skyldu þeir hætta vid þetta verk, um sinn, og byrja á hinu, en þegar þeir opt og tídum þverskölludust, og fóru sínu fram, hvad sem eg sagdi, sá eg ad ecki mátti vid svobúid standa. Einn dag kalladi eg þá til mín, og sagdi svo: þid vitid, piltar gódir! ad húsbóndi ockar er sjukur, og ad hann hefir trúad ockur fyrir ad stunda sitt gagn á medan; sjáid þid þá sjálfir hvor minkun þad er ad svíkja hann veikan í rúminu. En af því hann vissi, ad sjaldan fer vel ad margir eda allir rádi, hvar margir eru, og ad sjaldan verdur búdrjúgt hvar margar eru rádskonur, þá hefir hann skipad svo fyrir, ad einn af ockur skyldi ráda fyrir ockar allra störfum; en eg aumkast yfir honum fyrir þad, ad hann hefir verid svo óheppinn ad velja mig, því eg hlýt ad vera yckar óhæfastur til þess, þar mér verdur svo lítid sem eckért ágengt í því; en mér er meira annt um gagn húsbónda míns enn svo, ad eg vilji láta

hann hjalda þessarar sinnar ófrantsýni, og skulum vid nú fara til hans allirsaman, og bidja hann ad velja einhvørn annann af ockur til verkstjóra; þeim sem hann þá velur skal eg hlída í øllu því sem búinu vidkémur eins og þad væri húsbóndinn sjálfur, því þó ad hvørr ockar. sé ecki meiri enn eg, og egi ecki med ad skipa mér neitt af sjálfsødáðum, þá hefir þó sá, sem húsbóndinn vill setja til verkstjóra yfir ockur, eins mikinn myndugleika, eins og hann, til ad skipa mér verk, því undireins og húsbóndinn skipar einhvørjum af ockur ad stjórna og gángast fyrir verkum í sinn stad, þá gérir sá hinn sami húsbóndans vilja þegar hann stjórnar og skipar fyrir verkum, en vid hinir erum þá skyldugir til ad hlída hønum, því vid erum skyldir ad hlída húsbóndans Vilja, hvørt sem hann kémur ockur til eyrna af húsbóndans egin munni, edr frá ødrum, í hvørs munn húsbóndin hefir lagt sinn vilja. Þá svaradi einn af vinnumønnunum Krákur ad nafni, þad skýtur ecki skøcku vid, ad rádsmennirnir fari allténd eptir húsbóndans vilja; sumir hafa ecktert vit á størfum, og skipa fólkinu allt vitlaust, húsbóndanum til stórs skada, ef fólkid ecki rédi betur; sumir eru miklu stróngari og eptirgángs samari vid fólkid enn húsbóndinn sjálfur, þú tekur ecki sneidina ad þér laxmadar! og sumir eru svik-

ufir og útsettir til ad svíkja og skada hann. Gëtla þeísir og adrir, eins kallar þaß ecki ülltid húsbóndans vilja á vorunum? Eg sagdi vid skyldum þá ecki vera ad þessu, vid skyldum fara til húsbóndans, hann kvad svo vera skyldi, og var þad þegar gjört. Eg sagdi húsbóndanum allt eins og var, og bad hann ad velja einhvørn af hinum vinnumonnunum til verkstjóra. Hann svaradi: þú skallt vera verkstjóri minn á medan eg er veikur, og þid hinir pilltar minir skulud hlída honum eins og eg væri þad sjálfur. Þad skal vera eins og eg segi, Krákur tók ad mögla, og taldi þau somu tormerki á því ad hlída rádsmonnum, sem hann hafdi ádr tilgreint vid mig. Þóad hann Þorlákur minn væri yckar óverkhyggnastur, sem þó ecki er, þá ættud þid ad hlída honum samt, þegar eg hefi skipad svo fyrir, og sett hann yfir yckur í minn stad; ráda mættud og ættud þid honum ad sonnu til þess, sem þid sæud ad færi betur, en vildi hann ecki fallast á rád yckar, þá ættud þid ad gjöra eins og hann vildi, og værud þid þá úr allri skuldinni, því yckur kémur eckért vid hvøda óbyrgd á honum liggur. Sé hann strángari og eptirgangssamari vid yckur enn eg, þá er þad kannské ecki um skör fram, því eg sé másské ofmikid igégnum fíngur vid yckur stundum. En skyldi hann verda óþolandi, þá komid þid til mín.

og segid mér yckar ástædur, helldur enn ad setja yckur upp á móti honum; en fyrir því þurfid þid ecki ad óttast, hann kann nú þegar betur til alls sem búskap vidkemur enn eg, og eins ad umgángast fólkid. Skyldi hann þaramóti vilja giöra mér skada vísvitandi, þá ættud þid strax ad láta mig vita þad, og öldúngis ecki hlída honum í því ad taka þátt í slíkum fyrirtækjum, þó hann skipadi yckur þad. En fyrir því þarf slíkt ráð ad gera hjá honum Þorláki, sem í öllu sínu dag fari synir hina mestu rádvendni. Hlídid þid honum á medan eg vil láta svo vera, og berid þid yckur ad líkjast honum, þad verdur yckur sjálfum til gódş.

Svona fór nú þetta, eg mátti til ad vera verkstjóri. Vinnumennirnir hlíddu mér nú betur enn ádur, og hefdi ecki Krákur verid, þá hefdi allt farid vel fram, enn hann spanadi hina upp og sat um mig eins og valur um rjúpu; þó gat eg komid því svo fyrir med hægd og gódum atlotum, ad honum vard ecki mikid ágengt. Þegar mér annadhvört yfirsást eitthvad, eda Kráki, syndist svo, þá fór hann til húsbóndans og sagdi honum þad í allra áheyrn, þó ecki eins og hann vildi ásaka mig eda baktala, helldur létst hann vera ad segia húsbónda sínum hvörnig nú hefdi gengid í dag, yfir hönud ad tala. Hefdi nú húss-

bóndinn verid svo óframmisýnn ad samsinna hónum í því, ad mér hefdi yfirsést, og farid ad fárast yfir því, eins og margur gérir, þá hefdi verid útúm álit mitt hjá vinnufólkinu, og undireins med þad gagn sem eg hefdi gétad gért í verkstjórastéttinni, enn húsbóndi minn vissi þetta vel og þeckti Krák, og lét þessvegna sem hann ecki tæki eptir því ad mér hefdi yfirsést; stundum setti hann ofaní vid hann og sagdi: ad þad kjæmi hónum ecki vid hvad mér kynni ad sjást yfir, þad væri sitt og ecki hans ad skulda mig fyrir þad, hann skyldi hlýda mér, þá væri hann úr skuldinni. Þarad auki sagdi hann ad öllum sæist yfir, mér sæist enda minna yfir enn sér, en Kráki sæist þó mest yfir, þar hann vildi baktala mig og rægja, því ef hónum tækist þad, hefdi hann sjálfur (n. l. húsbóndinn), ecki minni skada af því en eg; hann vildi þessvegna ecki heyra þessar hans sögur; Vid þetta misti Krákur álit sitt hjá vinnufólkinu, en eg var hafdur í meiri metum, svoad verkstjórnin geck mér eptir því betur og betur sem eg var lengur vid hana, og vard betur þockadur af vinnufólkinu.

Um veturinn leitadist eg vid ad útvega mér jardnædi, því nú vildi eg fara ad gipta mig og búa. Þegar Hreppstjórinn vard þess vís, gérdi hann mér bod ad finna sig, eg hafdi ímugust á

á þessum bodum, en fór þó eitt sunnudagskvöld, eptir ad eg hafdi tekid leifi hjá húsbónda mínum. Hreppstjórinn var allt ödruvísi enn eg hafdi vænt; hann tók mér blídliga, og baud mér ad sitja í stofu; eg þádi þad. Hann lét bera mér mat, fisk og smjör og kjöt, en hvorki baud hann mér brennuvín eda Kaffe. Hann taladi fyrst svona vídt á dreif, loksins veik hann málinu til mín og sagdi. Er þér ecki ílla vid mig fyrir þad, ad eg hindradi þig frá ad gipta þig í hitt ed fyrra, eda hvönær þad var?

Eg. Ecki gét eg neitad því ad ílla var mér vid þig þá, enn nú er mér vel vid þig fyrir þad, því hefdir þú ecki haft vit fyrir mér, og uppfyllt þína embættisskyldu rækiliga, þá hefdi eg brádum ordid húsgangsmatur og sveitarvandrædi.

Hreppstjóri. Þad held eg líka. En er þad satt ad þú ætlir nú ad fara ad gipta þig?

Nú fór ad fara um mig; en eg herdti þó upp hugann, og hugsadi ad eg skyldi svara honum einardliga, því eg vissi med sjálfum mér ad mér væri óréttur giör, ef mér yrdi nú bannad ad gipta mig, þegar eg væri búinn ad útvega jardnædi; eg sagdi því: „já, þad væri satt."

Hreppstjóri. Þad glédur mig nú eins mikid ad heyra þad, eins og mér var þad ógédfeldt í hitt ed fyrra, því nú ertú eins efnikigur, og líkligur

til ad verda gód sveitarstytta, eins og þú varst þá efniligur og líkligur til ad verda mikil sveitarbyrdi. Eg skal þessvegna láta mér eins annt um ad styrkja þig til ad fá jardnædi, og ad géta reist bú, eins og eg lét mér ant um þad í fyrra sinni ad koma í veg fyrir giptíng þína, þad er ecki nóg ad bera sig ad verja sveitina sem mest fyrir ónaudsynligum þýngslum og skada, heldur á madur líka ad reyna til ad útvega henni gódar stittur, med því ad halda þeim fram og styrkja þá sem eru efniligir, og hafa verid trú og digg vinnuhjú. Eg er viss um ad margur sveitarbóndi verdur til, fyrir mín ord, ad géfa þér eda ljá einn eda annan búshlut sem þér liggur allramest á til ad géta reist bú, því allir unna þér fyrir atgiörsi þína og trúlyndi vid húsbónda þinn, einkum þared þú varst kominn svo lángt afvega ádur; en sýndu þá framvegis ad þú hafir verid verdugur fyrir slíka hjálp, med því ad vera dugligur í þinni stétt.

Eg þackadi Hreppstjóranum hans gódvilja og tillögur, med mörgum og svo fögrum ordum sem eg gat til fundid, og héllt nú gladur heimleidis aptur, og gladdi hana Unu mína med því ad segja henni hvad fram hafdi farid. Nockru seinna skrifadi Hreppstjórinn mér til, og sagdi ad eg mætti nú láta fara ad lýsa þegar eg vildi,

hann væri búinn ad útvega mér jardnædi, og margur hefdi tekid vel undir ad hjálpa mér um sitt hvad smávegis til búsins; Eg lét þad nú ecki heldur lengi bída, því næsta sunnudaginn bad eg Prestinn ad lýsa, og þridja sunnudaginn þareptir lét eg hann gefa mig saman vid hana Unnu mína í messunni, og geimdi mér þad sem adrir brúka til veitslukostnadar, til vorsins, því eg vissi ad þá mundi nóg med ad géra. Þegar Vordagar komu, bjó eg mig undir ad taka jordina og byrda sem best eg mátti. Margir af sveitarbændum gáfu mér, sitt hvorr, einn gaf mér orf, annar ljá, þridji hrífu, sá fjórdi þetta allt, hinn fimti trog, hinn sjötti kollu, hinn sjöundi fatu og s. frv. en þó ad hvorr fyrir sig giæfi svo lítid ad honum ecki dragi um þad, þá dró þad þó svo saman ad eg vard búfær ad búsáhöldum.

Þegar vid hjónin fórum alfarin frá ockar eskada húsbónda, leiddi hann fram bæra kú útúr fjósinu, og gaf ockur auk margra annara bús-hluta, þetta sagdist hann gefa henni fyrir margra ára trúa þjónustu og mér fyrir tveggja ára tryggd og dygd, og jafnframt til uppörfunar, til ad halda því stödugt fram sem eg hefdi byrjad Vid þöckudum ockar gódu húsbændum þenna og alla adra velgjörninga vid ockur, og skyldum grátandi vid þá en, Þau (hjónin) árnudu ockur alls gódt.

Það er ecki að orðlengia þetta framar, eg fór að búa og baslaði vonum betur við það litla sem eg hafði; sá eg nú, best hvað sú þecking sem eg hafði útvegað mér, og sú ydni og reggsemi sem eg hafði vanið mig á seinustu árin sem eg var vinnu maður, var mér notadrjúg, því án þess hefði búskapurinn minn bæði orðið aumur og enda-sleppur, en hingað til hefir gud blessað mig og mitt erfiði eins og þú kannské hefir séð nockur merki til í gjærqvöldi, ef þú hefir litið nockuð eptir því, sem sést í kríngum bæinn.

Nu vænti eg þér þyki að eg sé orðinn ædi margorður, og þér sé orðið mál á að hvíla þig, góður maður! en fyrst eg hefi halldið þér svo lengi uppi, þá ætla eg í fám orðum að segja þér hvörþa aðal-reglum eg hefi fylgt í búskapnum.

Það gamla boðorð sem Gud gaf Adam fordum, og undireins öllum hans niðjum: með erfiði skaltu þig af jörðunni næra, ásamt þeim búnaðarbókum sem eg hafði lesið, leiddu mig við nákvæmari eptirþánka til þess, strax í fyrstu, að hyrða og endurbæta jörð mína svo vel og mikið sem mér var mest moguligt; fann eg bráðt, að það erfiði sem eg varði þartil, svaraði svo vel kostnaðinum, að þegar stundir liðu fram, og mér varð nockuð afgángs af því sem eg þurfti til búsius nauðþurfta og aukningar, safnaði eg

hvorki peníngum né keipti fasteignir, heldur vardi eg því til ad framhalda endurbót jardar minnar sem best; sá eg ad peníngarnir þannig brúkadir, færdu lángtum meiri ávöxt, fyrir mig og sveitarfélagid, en þó eg hefdi keipt fyrir þá fastegnir, aukheldur ef eg hefdi látid þá liggja á kistubotninum; en þegar eg var búinn ad koma jördunni í þad lag sem eg vildi, vardi eg þeim fémunum sem mér urdu afgángs, til ad kaupa fastegnir, eda annad sem borgadi renturnar. Svona held eg ad allir ættu ad fara ad, og eins þeir sem búa á annara egn, eins og eg á fyrstu árunum, en þá held eg kóngurin ætti ad láta þad bodord útgánga, ad sá leigulidi sem hefdi endurbætt sína ábilisjörd svo eda svo mikid, sem hann allranádugast kynni ad tiltaka, mætti búa á jördunni svo lengi sem hann vildi, vid þann gamla leigumála, og hvörr af sonum hans eptir hann sem hann sjálfur vildi þó med þeim skilmála, ad sonurinn ad minsta kosti héldi fødursins endurbótum vid lídi. Þú segir ecki höfdingjunum fyrir sunnan frá því hvad eg rabba hérna, eg segi þetta svona ad gamni mínu; eg hefi eckért vit á því.

Hin önnur adalreglan sem eg hefir brúkad, er sú ad vera ætíd byrgur af heyi; hana kéndi presturinn minn mer eins og margt annad. Hann

sagdi einusinni vid mig: „Mundú mig um þad Þorlakur! ad vera ætíd heybyrgur þegar þú ser ad búa. Þú veitst ecki hvad lángt þess er, ad bída ad hardindi komi; vid megum alltínd vænta þeirra þegar minst varir hérna í Íslandi; en þegar þau koma, þá fellur peníngurinn hjá þeim sem ecki ega heyfyrníngar, ef ecki á fyrsta, þá þó á ødru árinu, en þegar hann er fallinn, þá er øll lífsbiørg horfin mestum hluta fólksins, og má þad þá deya úr sullti, og eins þó vedráttan batni og grasid spretti, því þá er engin sképnan til ad bíta þad. En sá sem á heyfyrníngar, hann heldur mestum hluta fénadarins, og hefir hans full not þegar vedráttan batnar; hann hefir ecki annad ad segja af hardindunum enn þad, ad hann sér menn og kvinnur sem ecki hafa safnad á gódu árunum, rása med børn sín á bakinu bæ, frá bæ, þángadtil þau deya útaf einhverstadar á milli þeirra, sitt í hvørju laginu; en þótt þad sé full-þúngt ad sjá uppá þad, þá er þó verra ad verda fyrir því, og þaradauki er þad mikil fróun ad géta forsorgad sína fiølskyldu, og ad géta géfid mørgum verdugum aumíngja sadníng sína. Menn ættu, sagdi hann ennframar, ad géra har úr árinu svo þeir á eptir gætu gért ár úr hárinu, þegar þad kémur; meiníngin er: Menn ættu ad spara vid sig á gódu árunum, og

hleypa ecki upp miklum pening, fyrri enn þeir væru búnir ad koma fyrir sig heyfyrníngum, svoad þeir gætu haldid skepnum sínum í hardind-unum; ábatinn af þessu yrdi sá, ad þegar menn spörudu vid sig sjálfir, med vilja, á gódu árun-um, þá færu þeir sem næst um þad ad fölga sér ecki, en þegar náttúran sparar vid menn þá hlífir hún engum, nema þeim sem hafa safnad í hlöd-ur, á medan hún var örlát, frambjá þeim geing-ur hún, eins og mordengillinn fordum frambjá þeim sem höfdu rjódad dyrastafi sína í blódi. Þetta er þad einasta rád, til ad koma í vég-inn fyrir ad hardindin verdi mannskæd, ef þad gæti ordid ad landsvana, og er undarligt ad þad ecki er ordid þad fyrir laungu; vandinn er ecki stór; þad er ecki svosem menn þurfi ad svellta sig í öllum gódum árum, því þegar þeir eru búnir ad koma heyfyrníngunum fyrir sig, þá géta þeir haft svo mikinn pening sem jördin gétur borid, án þess ad heyfyrníngarnar skérdist, nema í hörd-um árum, því þá á ad taka til þeirra. Eg veit ad sönnu ad sumir ega svo bágt, ad þeir aldrei géta fyrnt hey til nockurra muna, en þad gætu þó tuttugu sinnum fleiri enn þad géra, ef þeir legdu nockurt kapp á þad." Presturinn fór enn fleirum ordum um þetta, því hann sagdi þad væri einhvörr sá hlutur, er væri einna mestrar athug-

unar verdur, af ollu því er búskap vidkæmi; en eg ætla ecki ad fara lengra frameptir því. Eg lét mér hans rád ad kénníngu verda, því undireins og eg fór ad búa, rembdist eg vid ad koma fyrir mig heyfyrníngum; eg sparadi vid mig fyrsta og annad árid, heldur enn ad taka eldapeníng eda ad setja ofmargt á mig, svoad eg ad þremur árum lidnum fyrnti árs heyid eins og þad var; þetta kom mér í gódar þarfir, því tveim árum þar eptir byrjudu reikjarhardindin, sem drapu badi menn og sképnur, og hefdi eg og mínir vissuliga ordid í þeirra tölu, hefdi eg ecki átt svo mikil hey, en nú komst eg betur af en margur ríkisbóndinn, þvíad eg hélt öllum mínum sképnum, þar sem flestir adrir kollfelldu. Þetta gérdi tveggja ára sparnadur. En þad stód heima, ad þegar hardindunum létti af, vóru heyin uppi; byrjadi eg þá ad nýu ad safna þeim, og dró allt til muna, þángadtil eg var búinn ad koma fyrir mig ársfyrníngunum aptur, þá fór eg ad hleypa upp peníngi, svomiklum sem jördin gat borid mest, en lét þó aldrei verda þurd í fyrníngarnar; því gengi meira upp eitt árid enn eg vildi, passadi eg ad bæta í skardid á hinu.

Su þridja adalregla sem eg hefir fylgt, er ad brúka reglu og Reikníng á öllum hlutum.

Þannig hafdi eg vissann stad fyrir hvad eina, og var vandr'ad því ad þad væri látid þángad þegar hætt væri ad brúka þad, svo þad ecki tíndist, eda þad yrdi leit úr því þegar á lagi. Eg lagdi mikid kapp á ad læra ad þeckja jafnvægi biargrædisveganna, og allskonar matartegunda sín á milli, ad búdrýgindum, og hefir þad ordid mér ad miklum notum; því sídan hefi eg gétad bygt reiknínga mína á fastara grundvelli, og hagtært efnum mínum forsjálligar, Eg hefi, t. d. séd uppá víst, hvørt mér væri betra ad fæcka saudunum enn fjølga ánum, eda þvert á móti, eda hvørt eg ætti ad fiølga ánum og fæcka kúnum, eda þvert á móti, og er mikid í þad varid; flestir gánga í blindni, og hafa eins mikid af hvørju fyrir sig á hvørri jørd, eins og sá sem bió nærst á undan á henni, án þess þeir viti eginliga hvørt svo fer best eda ecki, og hefir margur af því stórann baga. Líka hefi eg gétad varad mig vid ad láta hentugri og driúgari mat úr búi mínu fyrir annann óhentugri og ódrjúgari, t. d. kiøt fyrir korn, einkum þegar kornid er dýrt. Sømuleidis hefi eg varast ad gánga fram hjá því smáa, því margt smátt górir eitt stórt.

Sú fiórda adalregla sem eg hefi brúkad, er ad vera sparsamur. Eg meina ecki ad eg hafi svellt mig eda mína, nema ef eg á ad und-

antaka þau árin sem eg var ad koma fyrir mig heyfyrningunum, og gét eg ecki kallad þad sullt þó eg sparadi nockud, annars hefi eg fordast þad eins og heitann eld; eg meina heldur ecki ad eg hafi legid í nidurnídduin og óþockaligum húsum, eptir þad ad gud gaf mér nockur efni, eins og þú getur séd nockur merki til, en framan af mátti eg til, naudugur viljugur; þó hresti eg þad vid sem eg gat, og lagfærdi; ecki heldur meina eg ad eg hafi sparad vatnid til ad þvo mér þegar eg hefi verid óhreinn, einkum á kvøldin ádur enn eg hefi farid ad sofa, heldur meina eg hérmed ad eg hafi hagnýtt hvørn hlut sem best, og ecki keypt óþarfa glis eda sælgiæti af útlendum svosem brennivín og kaffe. Þegar Presturinn minn og Sýslumadurinn hafa komid, þá hefi eg leitad fordildar í því, ad tilbúa handa þeim einhvørn fágætann rétt ur maturtagardinum mínum, hefir þeim og fallist á þad, og sagt ad þeir vildu þad miklu helldur enn kaffi-skólpid hjá hønum nabúa mínum. Stundum hafa þeir spurt mig hvørnig eg hafi farid ad tilbúa þann eda þann rétt, sem þeim hefir þókt gódur, og hefir mér þókt gaman ad fræda þá á því; þeir hafa jafnan lofad kostgæfni mína í jardarræktinni, en eg hefi þókst meiri madur á eptir.

Min fjórda høfudregla hefir verid ad út

vega mér sem vænst og hollust vinnuhjú; en hafi þau vantad töluvert á það þegar þau hafa komid til mín, þá hefi og leitast vid af öllum kroptum ad laga þau; eg hefi leidt þeim fyrir sjónir med hægð, hvornig þau med tómlæti sinu og mótþróa stædu sér sjálfum í vegi bædi fyrir, hinni tímanligu og eilífu velferd; æfisagan mín hefir einna mest verkad á þau. Eg hefi látid vinnuhjúin sjá bædi í ordi og verki, að sú astund-an sem eg legdi á ad laga þau, væri ecki sprottin af egingyrni, þád er ad segja, til þess ad þau yrdu þess þægri og dugligri á medan þau væru hjá mér, heldur af umhyggju fyrir þeirra egin velferd. Þannig hefi eg upphvatt þau til ad brúka sunn-udagana og adra frítíma, til ad lesa andligar og veraldligar bækur á víxl. Af andligum bókum hefi eg haldid ritníngunni mest fram og Barnalærdóms-bókinni, einkum sídan Nýakverid kom, og búnad-arritum af hinum veraldligu. Á kvöldin hefi eg helst lesid þær bækur fyrir fólkinu til skémtunar, sem mér vyrdtust best lagadar til ad betra hiartad, laga hugarfarid og uppfræda um þá hluti er optast mæta á æfinni, eg hefi þessvegna ecki sídur valid til þess Qvöld- vökurnar og Atla, og adrar slíkar bækur, helldur enn fornmannasögurnar, þótt eg lesi þær opt líka, bædi vegna þess-ad vér höfum svo fáar bækur sem eru skémtiligar og nytsamar undireins,

og líka vegna hins ad eg þóktist sjá, ad forn-mannasögurnar væru þad besta medal til ad vid-halda málinu, og til ad hindra ýmsa útlendska sidu og útlendskt hugarfar (þenkíngarhátt) sem er skadligt fyrir landid, og hætt er vid ad ræki þess gömlu einka sidu og þjódarsamheldi med öllu á flótta ef þær ecki væru; en þegar eitthvad kom fyrir sem var eptírbreitnisverdt, og sýndi forfed-ranna yfirburdi yfir ockur, annadhvort í bún-adarháttum, framkvæmdum eda mannkostum, þá hætti eg ad lesa, og leiddi fólksins eptirþánka til ad gaumgæfa þad nákvæmar, og eins þegar eg fann eitthvad bogid eda svívirdiligt í fari þeirra; svona bar eg mig ad gièra þad skemti-liga nytsamligt undireins. Eg sagdi og sýndi vinnuhjúum mínum búreglur mínar, og sagdi þeim hvørsvegna eg hefdi breitt svo eda svo í þessu eda hinu tilfelli, vakti þeirra egin eptir-þánka, og vandi þau á ad brjóta sjalf heilann í einu eda ödru; eg kéndi þeim viss handbrøgd á öllu því sem eg gat, og var vandur ad því ad þau gérdu þau sér ad vana. Þegar þau vóru sjúk hjúkradi eg ad þeim sem best eg mátti, og bar umhyggiu fyrir lækníngu þeirra. Yrdi þeim eitthvad á af ófyrirsýnju, umbar eg þad med hóg-lyndi, og lét mér nægja med ad ámynna þau ad vera adgætslusamari eptirleidis; en þegar einhvørr

hefir hast mótþróa og hrecki og svik í frammi, þá hefi eg brúkad alvarlig ord, en sialdan mörg og olltént skynsamlig; reidi og fjarska hefi eg fordast af öllu megni, því slíkt gérir þad vonda verra. Opecka skráka hefi eg stundum barid. Þar fyrir utan hefi eg alltíd umgengist þau blídliga, og látid þau sem sialdnast finna til þess ad eg væri þeirra yfirherra, en þarámóti hefi eg jafnan látid þad ásiást ad eg væri þeirra yfirbodari sem fadir. Alltènd hefi eg viljad láta vinnufólkid hafa eitt-hvad ad géra og gánga skarpliga ad vinnu, en eg hefi aptur látid þad hafa nóg ad jeta. Kaup hefi eg golldid þeim í medallagi, þo nockud mis-jafnt eptir því sem þau hafa verid misjöfn; en hafi mér þókt ad einhvörr vinna fyrir meiru kaupi enn eg hefi goldid, þá hefi eg bætt þad upp vid hann þegar hann hefir farid frá mér; hinum hefi eg ecki géfid neitt ad skilnadi. Med börnin mín hefi eg farid líkt eins og vinnufólkid, þegar þau hafa verid komin á þann aldur, nema hvad föd-urelskan kann ad hafa gért mig enn umhygiusam-ari fyrir þeim.

Allir kvarta yfir hreppsþyngslunum, og vildu fegnir létta á þeim ef þeir þecktu veg til þess, en þad er ecki vegurinn ad fara illa med börn og únglínga sem eru á nidursetu, eda ad ala þau hyrdulausliga upp, því þá komast þau stundum

aldrei almenníliga af hrepp, og verda orsök til enn meiri þýngsla med tímanum; þar hefi eg vitad mörg dæmi til; eg hefi þessvegna ætíd farid vel med nidursetur mínar einkum þegar þad hafa verid börn og únglíngar; eg mundi líka hvörnig farid var med mig þegar eg var úngur. Oknytta gamalmenni, sem höfdu verid letiblód alla sína æfi, lét eg mér minnst annt um.

Mín fimta adal regla er og hefir verid: ad safna aldrei skuldum, nema brádasta naudsýn hafi tilborid, því þær eru eins og syndirnar, lands og lída töpnu; en hafi eg hleypt mér í skuld, þá hefi eg ecki verid í rónni fyrri enn eg hefi verid búinn ad borga hana. Eg hefi haft þann sid, ad leggja dálítid afsídis þegar vel hefir gengid, en lítid í einu, svoad ecki hefir séd mikid á; en af því margt smátt gérir eitt stórt, svo hefi eg med þessu móti haft nockud ad taka til þegar á hefir legid; þetta géck nú svona framanaf, en nú skortir mig ecki þad sem eg þarf á ad halda, þó fer eg vel med muni mína, því vér egum ecki ad vanbrúka guds gáfur til óhýtis.

Vid allar búskaparreglur hefi eg verid eins og Tómas, eg hefi ecki trúad þeim fyrri enn eg hefi reynt þær sjalfur, hvört sem þær hafa verid gamlar eda nýar, en eg hefi heldur ecki fyrirlitid þær eda dæmt illa um þær á medan eg hefi

ecki reynt hær, en til þess ad gánga úr skugga, hefi eg reynt og prófad allt gamallt og nytt, og hvorki látid gamlann landsvana og barns vana, eda nýúngagyrni blinda mig, heldur hefi eg farid eptir því sem mér hefir reynst best. Hefi eg ecki látid þad fæla mig ad mér hefir mis-luckast einusinni eda tvisvar, einkum í því sem hefir vidkomid jardarrækt, því eg hefi opt komist ad því, ad eitt eda annad atvik, ein eda önnur óhyrtni hefir ollad því ad ecki hefir tekist. Þetta hefir verid mín síðsta adalregla í búskapnum. En med allri þessari vidleitni er eg þó ecki kom-inn á hálfa leid ennþá ad þeckja búskapinn; eg held hann sé eins og skákin, ad hann verdi aldrei lærdur til fulls; en þad er alltend betra ad vita nockud enn eckért. Annars held eg ad ef margir gérdu eins og eg, og bæru sig svo saman ó eptir, þá kiæmust þeir ædi lángt í búskapar þeckingunni.

Þetta vóru nú adal „reglurna sem eg hefi fylgt í búskapnum, og þarmed ætla eg ad hætta; þó má eg enn géta þess, ad eg, auk þeirra, hefi fylgt því heilrædi sem fóstri minn gaf mér, medal annars, ó deyanda deigi: ad láta eckért tækifæri hjálída sem mér bydist til at géra ödrum gott, og þetta er einmidt orsökin til þess, ad eg hefi sagt þér þennan kabla af æfisögu minni. Gjæti þad ordid þér ad einhvörjum notum fyrri eda

seirna, þá hefi eg náð mínum tilgángi. Þarna er rúmið sem þú átt að hvíla þig í, guð gefi þér allar góðar nætur!"

Só æruverði Öldúngur gèck nú inní húsið sitt; en mér var orðið svo heitt um hjartaræturnar að eg gat valla tekið undir við hann. Eg fór nú að hátta því framorðið var orðið og allir gengnir til hvílu, en ecki varð mér svefnsamt um nóttina; Eg var alltaf að bera mitt ástand saman við það sem hann sagði frá sínu þegar hann var lausamaður, og fann eg að það var mikið líkt, hvörnig sem eg bar míg að rengja það; þóktist eg nú sjá að líkt mundi á eptir koma, nema eg eins og hann tæki ráð í tíma. Mér datt í hug að þessi gamli maður hefði nú verið sendur af forsjóninn til að leiðbeina mér, og hugsaði eg mér nú að færa mér það í nyt.

Um morguninn var eg snemma á fótum, og hugði að komást af stað áður enn húsbondinn yrði þess var; ecki þessvegna að eg hefði ómugust á hönum, heldur fyrirvyrðti eg mig að sjá hann, en mér varð ecki að því, bóndi var kominn á fætur líka; hann mætti mér í gaungunum og bauð mér góðann dag; eg tók því vel. Hann spurði mig þá að hvörnig mér hefði sofnast. Eg sagði að æfisaga hans hefði staðið mér fyrir svefni. Hann kvað sér það vel líka, og sagði að

hún mundi þá verka eithvad gott hjá mér med tímanum, fyrst hún hefdi gért svo mikil óhrif á mig í fyrstu. Eg flýtti mér nú af stad, kvaddi bónda og þackadi honum fyrir greidan; hann bad mig ad þacka hann eigi, hitt væri sér kjærara, ad eg myntist æfisögunnar; þá mundi gud og luckan verda med mér.

Eg flýtti mér nú ad koma því litla út sem eg átti eptir af varníngnum, og tókst mér þad skjótt, en eptir þad fylgdi eg mér kappsamliga ad vinnu um sumarid, og las barnalærdómsbókina á sunnudögunum. Eg sá ad mér var nú einsætt ad fara í vist, en hvar eg átti ad leita hennar þarum var eg í efa. Eg vildi heldur fara þángad, sem eg gjæti lært nockud, enn þángad hvar eg fengi meira kaup, enn lærdi minna, og þess vegna rédi eg af ad vista mig hjá Sýslumanninum, því eg vissi ad hann lét sér annt um ad fræda alla og leidbeina öllum, en einkum vinnuhjúum sínum, bædi í búnadarháttum og ödru nytsamligu; eg sá líka ad med því móti gæti eg best lært hans adferd í allskonar jardarrækt og jardarbetrunum, er hann kunni betur enn nockur annar í hans sýslu. Þetta rád luckadist, og vard mér til hamíngju, því þegar Sýslumadurinn sá ad eg hafdi vilja á ad læra, sparadi hann ecki ad fræda mig. Þegar eg hafdi verid hjá

honum 2 ár, gérdi hann mig ad verkstjóra sínum; en alls var eg hjá honum 5 ár, þá reisti og bú, og hefi búid sídan. Þid vitid sjálf hvörnig mér hefir búnast, svo eg þarf ecki ad segja frá því, einúngis vil eg géta þess, ad æfisaga Þorláks bónda er sú besta saga sem eg hefi heyrt, því henni á eg nærst gudi ad þacka mína veraldligu hagsæld og innvortis rósemi, hvört yckur kann ad sýnast eins og mér, veit eg ecki, þad er allt komid undir því, hvört þid viljid færa yckur hana í nyt eins og eg, því þeir sem þad géra þeir munu lofa sínu hýru, en hinum verdur hún ecki annad enn hlátursefni þegar best gérir.

*Hér* þagnadi Godsvinnur bóndi (sagdi Adkomumadr) og leit allt í kríngum sig; fólkid þagdi líka, og leit þad eins út eins og engin kiæmi sér ad því, ad ávarpa húsbondann ad fyrra bragdi, eda ad verda fyrstur til ad tala. Ámedan hann sluttí søguna, hafdi hann gaman af ad sjá hvörnig fólkid hegdadi sér, og hvörnig útlit þess breyttist. Yngri børnin sátu rétt á móti fødur sínum, og høfdu ecki af honum augun; þau gjættu nákvæmliga ad hvörnig hann bærdi høfudid eda høndurnar, þegar hann taladi, og gérdu þad stundum í buxunarleysi á eptir. Þegar hann var ad segja frá húsvitjaninni, stöck blódid útí kinnarnar á

þeim því þá var innanstams von á prestinum í húsvitjan; ecki kom það til af því að þau væru ecki vel að sér á þeim aldri, heldur hafa öll børn hitann í haldinu þegar þau ega von á prestinum. Tveir af vinnumønnunum sátu einnig géngt Gođsvinni, en þó í ødru stafngólfi, annar á rúmi sínu, en hinn á kistli fyrir framan það; þeir voru úngir menn, og høfđu þeir ráđist til vistar hjá honum vorinu áđur; vóru þeir það er høfđu att það tal saman um daginn, er eg øndverđliga gat um. Þeir rođnuđu þegar húsbóndi þeirra var að segja frá lausamenskunni og vinnumennsku Þorlaks bónda, og litu hvørr uppá annann, og sitt uppa hvørn; þeir foru að keppast við að kémba í einhvørju ósjálfræđi, en stundum hættu þeir og horfđu í gaufnir sér. Aldrađr mađur, Jón ađ nafni, sat á stafn rúmi, hann háfđi léngi verið vinnumađur hjá Gođsvinni, og verið hinn trúasti, hann var fáskiptinn en smáskrítinn, þegar hønum varđ komið til. Gođsvinni var vel til hans og þeim hvørjum til annars, en nýkomnu vinnumennirnir høfđu horn í síđu hønum og og háđuđu hann sín á milli; gaf Jón því lítinn gaum en þyktist þó heldur niđri. Hann ypti øxlum og brosti í kamp þegar eitthvađ kom sem hønum þókti vera sneiđ uppá vinnumennina. Niđursetan var mađur, um sextugs aldur, hann var

einn af þeim sem aldrei hafdi kunnad neitt, og aldrei hurad neitt, og aldrei gért ærligt handarvik, lá því eckért eptir hann nema átta born, og vorn sex af þeim á hreppnum. Hann svaf á móti badstofudyrum. Þegar Godsvinnur hafdi hreinliga byrjad søguna þá fór hann ad hrjóta; en þá honum vard á milli dúra spurdi hann børnin hvort búid væri ad lesa, eda hvort þad mundi verda lángt þángadtil farid yrdi ad skamta, og þarmed lagdi hann sig útaf aptur. Stúlkurnar réru vid rockana sína hinumegin í badstofunni, fyrir framan húsdyrnar hjónanna. Þær urdu halfseimnar þegar farid var ad tala um klútana, þær litu undan og løgdu undir flatt, en gatu þó ecki gért ad sér ad brosa. Húsfreyan sat fram í badstofu líka, bædi til þess ad líta eptir vinnu fólksins, eins og hun var von, og líka til þess ad hlída søgu bónda síns. Hún hafdi sín módurligu augu alls um kring, en optast numdu þau stadar á honum siálfum og sá þad á, ad hún þóktist af því ad ega slíkann mann, en engin sá feimni á henni eins og hinum stúlkunum þegar ad klútunum kom. Hún vard nú fyrst til þess ad brjóta þøgnina og segir til bónda síns.

Þú hefir ad sønnu skémt ockur vel í kvøld, Hjartad mitt! en þó þykir ockur kvennfólkinu nockud vanta ennþá; þú skilur þad!

Godsvinnur. (brosandi) æ! hvorr heldurdu géti verid ad gégna úr yckur bónastaglinu, Elsk-an mín!

Husfreyan. Æ láttu nú ecki svona!

Vinnukonurnar (hvør med annari) Þú kvedur svo sjaldan fyrir ockur húsbóndi gódur! — Það er svo-lángt sídan ad það hefir verid kvedið núna! — æ já! blessadur húsbóndi gódur! kveddu nú dálitid fyrir ockur!

Godsvinnur. Eg vænti eg megi láta undan, þid viljid svo hafa það, skilst mér! en hvad á það þá ad vera? — Eg held eg verdi að taka eitthvad úr búnadarbálki, það á best við það efni sem vid høfum hurad um í kvøld. Børn syngid þid med, Snorri! Þóra! Gudmundur! komid þid hérna til mín! þid hafid øll saman lært Búnadarbalk, er ecki svo?

Børnin. Jú.

Godsvinnur (til nýu vinnumannanna). En þid, pilltar minir! kunnid þid hann ecki?

Vinnum. Nei ecki kann eg hann — Nei, ónei! ecki held eg það.

Húsfreyan. Eg skal syngja undir.

Godsvinnur. (byrjar).

Vænt er ad kunna vel ad búa,
(Børnin taka undir)
Vel ad fara med herrans giøf;

Hans rádum sér í hag ad snúa
Honum þacka fyrir utan tøf;
En sér og ødrum géra gott
Gledjast og forsmá Heimsins spott

Húsfr. Æi! þú tekur þá þarna til, Hjartad mitt! svo aptarliga, þad er ecki ordid svo framordid ennþá; stjørnurnar eru ecki komnar lengra enn í hádegisstad. Þú verdr ad byrja á upphafinu; þad er ecki svo opt sem þú kvedur fyrir ockur.

Godsv. Eg verd ad géra þad fyrir þig Gudrún min! en ecki hefdi eg gért þad fyrir adra. Snorri litli! sæktu kverid, þad er á bókahyllunni í stofunni hjá Félagsritunum og honum Atla.

Snorri fer eptir kverinu.

Godsv. Lestu nú fyrirsøgnina, Snorri litli! og tileinkunarbréfid sem Presturinn hefir útlagt fyrir mig úr latínunni; þad liggr þarna innaní á lausu bladi; þegar kémur ad kvædinu sjálfu þá skulum vid øll syngja, en þú, Sorri! skalt lesa skýríngargreinirnar sem standa fyrir nedan, þegar serhvert erindi eda vers er búid.

Snorri fór ad lesa.

---

# Nockrar

# Hugleidingar,

framsettar í ljódam

sem nefnast

# Búnadar-Bálkur,

sundurskiptar í þriú

# Kvædi,

Um dagligt búskapar-líf Islendínga; hvørsu látt sé hiá ofmørgum; Hvørnig vera eigi, edur og verda mætti.

Hér er sleppt því almennasta, sem menn brúka, til nytsemdár og gódrar dægradvalar, dugandi bændur, af hvørium (Lof sé Gudi!) margir eru til, þó fáir ad reikna mót hinum fjøldanum sem hlut á í Eymdar-Ódi og fleirum Klausum.

Sumt er ávikid í Fullsælu, Islands-Sælu, Heim-Sótt og vídar.

# Teingdabróddur
sínum góðfrægum

# Byrni Haldórs syni

Héradsprófasti í Bardastrandar sýslu, og Presti til Raudasands og Patrixfjardar kirkjusókna sendir

## Eggert Olafsson

kvedju sína!

Bæklingur þessi inniheldur kvædi í þremur stefum; yrkisefnid vidkémur náttúrufrædi, búskaparháttum og sidum.

Fyrsta stefid er um dagligt líf almennings í landi voru, hvørsu þetta líf vonum brádar trénast og eydist og þrýtur í ómenskuligum, ólunderfullum, ønugligum og ætíd syndsamligum og ófrægum dóda.

Annad stefid talar um, hvørsu madurinn, ad lidnum berusku árunum, nær fullum þroska, og hreppir sín yndælustu kiør, leiddur af skynseminni sem Gud hefir géfid hønum til verndar, og hinni lifandi náttúru, en umfram allt af traustinu á Gudi.

Þridja stefid skýrir frá, hvørsu madurinn med hjálp Guds og leidsøgu náttúrunnar heldur þessum yndælu kiørum vid lídi, med skyldurækt, framsýni og óþreytanligri kostgæfni, til allskonar, ædstu og ævarandi heilla sjálfum sér, sínum vandamønnum, og því mannliga félagi hann lifir í, og hvørsu hann þannig í heilagri unadsemd þokast fram á elli árin.

Þetta efni hefi eg þannig útlistad, ad þad gæti hlýdt gódum og vondum, skynugum og fáfródum, kostgæfn- um og lötum, en þad sem gott er á best heima hjá þér, elskulegi Tengdabródir! er þad skéd med ásettu rádi, því eg hefi tekid dæmi af þér, og lýsir midstefid þinni umlidnú æfi, en einkanliga inniheldur seinasta stefid lifandi afmálun af þér, og þinni elskuligu ekta- kvinnu, því þú hefir látid skadliga hleypidóma lands- manna ockar, víkja fyrir nytsamligum fornaldar fræd- um; hefir þetta sýnt sig í því, ad þú hefir komid skipun á þína heimilis háttu, og endurbætt þá, bædi ad sidum og vinnubrögdum og sýslunum, þvíad auk embættisanna þinna hefir þú dagliga varid nockrum tíma til opinbers bæ- nahalds eda húslesturs, og aptur upptekid góda hússtjórn (húsaga) sem alment er vanrækt. Enframar hefir þú stundad þann lifernismáta sem er hinn saklausasti og heilnæmasti og hagsælasti, já! sem meira enn adrir líkist mannsins sakleysis standi og er hinn yndælasti; þú hefir, segi eg, tekid þetta fyrir þig med svo mikilli alvörugéfni, ad þú á stuttum tíma skaradir í því lángt fram úr ödrum, taldir mörgum trú um ad taka þann sama lifnadarmáta upp, og kéndir þeim hann sídan gódfúsliga. Med þessu meina eg maturtarækt þína, og adra vidleitni í jardyrkju og jardarrækt í landi voru. Þessu erfidi hefdir þú ecki gétad afkastad án blessunar ens sanna Guds, hvad ríkur sem þú hefdir verid, en sá gód gud gaf oss fátæktina sem betri er öllum audæfum, og ávaxtarsömust allra nytsamra hluta; hún sannfærir oss um vorn óverdugleik, og ad oss beri ad vera þacklát- um vid Gud.

Vertu sæll, elskadi bródir! en þó þú hafir sleppt öllum

heldnum gydjum, þá taktu samt á móti þessari lítilfjör-
ligu saunggydiu tengda-bródur þíns: verdu þessa okkar
elskudu þér í skauti ásamt med þinni ektakvinnu, og
hlýd saung hennar svo opt sem hendtugleikar leysa. Þessi
gydja, ef ei annad, sé, eptir burtför mína, til minn-
íngar um samrædur okkar, skólabrædralag og samveru.

Gud vor frelsari láti þér ætid vel vegna í öllu!

Skrifad í Saudlauksdal um sumarmál 1764.



# Inntak Esnanna
## í
# Búnadar-Bálki.

A.

Ad vondir andar búi í Íslands lopti, sem eru þau óluckuligu Præjudicia, edur inngrónar, óprófadar og rángar meiníngar, sem vallda allri ólund, eymd, ørbyrgd og ýmisligri fjørvillu flestra Íslendinga.

B.

Þessir menn fara ei vel med Guds gáfur, hræraft ei af hans gædum í nátturunni, af tíma skiptum né þvílíku, til ad leita med ánægju brauds síns; nema hvad naudin rekur eptir þeim.

C.

Þeir giftast, fá slæmar konur og hiálpast ei. Børnin fædast veik, og uppalast illa. Hjónanna ódygg sambúd, færir med sér óblessun.

D.

Illur bæar-bragur; honum fylgja reimleikar og þvílíkt, en fjarlægd heilagra engla.

E.

Slíkir auminngjar fá ei nátturunnar vor- og sumar-gledi ad finna, sem fyrri alldar menn, hvørjir til þess leitudu ýmsra bragda, og eins ad fá yndi af vetrar-tímanum. Rád, ad fráskiljast þesslags mønnum. Gud vill ad menn gledjist af gáfum sínum.

F.

Hinn úngi madur, (hvørs Persóna hér jafnan

framsett er í eptirfylgjandi kvædum) ser ad hugsa hvernig hann skuli bú reisa, og lifa í þvi farsæll. Nóttin undir sjóar fjøllum og hennar ásynd.

G.

Strandfuglanna ánægjufullt, þo vossamt liferni. Hvad þar af sé ad læra.

H.

Hér opnast sæludalur. Hér er landslagid, landsfugla, dýra og fiska athøfn og edli, allt fullt af ánægju.

I.

Morgunrodinn gefur nátturunni nýann lit. Sá úngi madur reisir hér bú og giptist. Sólin skýn fram og endurlifgar alla hluti, og svo manninn med, sem æxlast og prísar sig sælann ad vera.

K.

Hvad gott er ei ad sitja sæll í búi? hversu búreisendur vaxa stundum af litlum efnum.

L.

Ad menn skuli gera sér yndi af øllu sínu erfidi, med uppáfinningum og ýmisligum umþenkingum, eptir starfsins kringumstædum. Hugleiding út af hrauni og loptetnum klettum. Ýms nytsamlig efni hér af jørdu tekin.

M.

Hve skemtelig sé heimkoma vellídunar bænda af lángferdum. Gódra kvenna atlæti mót b æ n d u m sínum.

N.

Utmálan og hrós gódrar ektakvinnu og húsmódur.

O.

Bóndans vetrar ánægja hvílík sé af ýmsum hlutum; svo sem eru: gnógtir sumarsefna, riúpnaveidar, frost og ísalög og þeirra hlunnindi.

P.

Ad optar sé svipull fióaraflinn, en landgædin jafnari og mannhollari. Kúagagn og mjólkurnægd á vetrum.

Q.

Einhver fágætust vetrargædi eru innsettar grænar og frjóar maturtir, med hverri uppáfinningu ad vetrinn í sumar umbreytist. Leidi Íslendinga á slíkum hlutum og Præjudicium, ad ei gefi jurtir hold né hams.

R.

Um gódann bæarbrag. Ad gódar søgur séu lesnar um vetrar vøkur, til fródleiks og dægradvalar. Sidlátt dagfar. Sáng til æfingar líkamans. Rækíng Guds orda. Englafylgi og hjásneiding reimleika og vondra vætta.

S.

Vorgledin ýmislig: af fiskum, dýrum, sumarfuglum, og s. frv.

T.

Gardyrkja og jardardýrkan. Ýmsar ræktar urtir sem vaxa á Ísland til matar, og undir eins heilsubóta. En allt þesskonar fyrirlíta flestir Íslendingar, og þeir heimskari lasta þad; enn vilja þó og mikils meta útlendska jardar ávexti, af því þeir vita ei gjørla þeirra uppruna. Guds bód urtir ad eta. Galdragrøs og reinir.

## U.

Sumargledin margvísliga. Utiseta í grænu grasi. Nockrar villiurtir á Íslandi hardla gódar, undir eins til matar og lækninga. Reykelsi. Fjárgras og hey, og nockrar maturtir alþecktar ad nytsemi, sem og almennt brúkast, nefnast ad eins.

## X.

Um thé og kaffedrycki af innlendskum tilefnum, og þeirra jurta gódu verkanir.

## Y.

Nockurra annara villigrasa lækningar og dygdir. Dýrindis pípu-tóbak. Sjónarætur. Uppskorin ylmgras blómgast inni í húsum fyrir utan rætur.

## Z.

Sú yndælasta vist í slíkum hlutum náttúrunnar hér á landi, er sett á mót armædu búskap og óbyrju búksorg gróda manna.

## Þ.

Fyrirmæli um Íslands bænda varandi ánægju. Dæmi dregid af skélfiskum og þeirra húsabyggingum. Hvada medøl Gud hafi Íslendingum í hendur fengid. Dæmi af skógar svínum. Upphvatning til Íslands búenda; um Ydni og Anægju, ꝛc.

## Æ.

Til endalyktar framsetiast nockrar greinir úr Prédikan Salomonis konungs um sama efni. Seinast er niðurlag kvædisins.

# Búnadar Bálks

## Fyrsta Kvædi,

# Eymdar-Odur,

edur

# Ovætta-Dvol (1)

og

# Ogéds Æfi,

um þad

Hvornig dagfar og bæarbragur á Islandi sé ordid leidindasamt og ónáttúrligt.

Lagid er: Hryggdin á burt, en gledi og gaman.

A.

Þér sudda drúnga daufir andar, sem dragist gégnum myrkva lopt! Þér (2) jökul-bygda vofur (3) vandar, sem veikar þjódir kveljid opt! Hvad lengi (4) Gardarshólma þid, hyggist ad trylla fárádt lid?

2. Ydar skógérdar fánga fjadrir, fjøll og dali med voggu-brag: Þér valdid þvi, en

1 Ovætta-Dvol, Vist vera edr hýsíng.
2 Jøk. byggda, þ. e. Jøl.
3 Vandar, þad er vondar.
4 Gardarshólma lid, ɔ: Jslendskir

engir adrir, Íslendskir sýta nótt og dag! ellegar svefninn endalaus, umgirdir þeirra dofinn haus.

3. Þeir nema fæst til yndis auka, enn þó natturan hafi til: fyrir ylmgresi sýlu-lauka, fyrir skemtanir hrygdar-spil, fyrir heilbrygdi fánga pín, fyrir sætindi Brennuvín.

4. Fyrir mannvit þeir flónsku velja, fyrir hreinlæti skørnugt gróm, fyrir alúd þeir fúlur selja, fyrir kurteysi rustadóm: fyrir saunglystar sætann eym, (5) svartagallsraul er helst í þeim.

B.

5. Enga nýta þeir afgángs mola, er kallast vilja nockrir menn, (6) húngur kjósandi í hvílu ad þola, heldur enn veida (7) smádyrin: golþorskar fylla grádgann búk, þó gjørist vid þad ydrin sjúk.'

6. Sama' er um allt, er ómaks krefur, ecki vilja þeir skeyta því; hitt sem tilbúid Gud þeim gefur, geti þad komist magann í, (8) beint úr náttúru sýsir já, fyrirhafnarlaust eta þá.

5 Svartagallsraul ɔ: melancholisk løg og efni, sem þeim verdr helst fyrir ad mæla fyrir munni sér hvørs dagliga.
6 Málsháttr, í hvílu skal húngr þola; þviad liggjandi kyrrir finna menn sídr, og sofandi alls ecki til húngursins.
7 Smádyr, smáfuglar, síld etc.
8 Beint edr beinleidis, fyrir utan tilbúning.

7. Mauvæll þegar hverra fara, þeir kénna Gudi sultar skúr, í gódum árum abrei spara, enn sídur hafa (9) nægtabúr; heldur farga til fánýtis, fyrir óþarfa snap og glis.

8. Og þó þeir fái nægtir nógar, nockud þykir þeim vanta samt: (10) árid leidist til lands og sjóar, líkar þeim ei vid Herrans skamt, giøra lítid úr gáfum hans, (11) gremja svo mildi Skaparans.

9. Missiraskipti minnst þá gledja; murra þeir jafnt og dunda sér; hafi þeir nockud húngrid sedja, hvort sumar eda vetur er, (12) naudugir sumir, nockrir frí, náttúru straumi rekast í.

10. Þegar flugurnar lifa ei lengur, leggjast þeir upp í vetrar hams; en nær fiskur ad fjøru gengur, fara tilródurs innan skams: ádur enn grasid blóma brá, bóndinn skal fyrir kúna slá.

11. Svo rekur naudin ætíd eptir, ef ad lífinu bjarga skal, en yndis vegir verda tepptir:

9 Nægta-búr eda Magazin, sem vískum er í safnad til vara, utanlands, ef fátækir kunna med ad þurfa, ellegar dyrtíd, ófridur eda eldsvodi uppá falla.
10 Arid ɔ: Argædskan.
11 Gremja, géra þann milda Gud sér gramann edur ómildann.
12 Þeir skárri fylgja hlaupi náttúrunnar tregdulaust, hinir naudugir.

Vid þetta leit eg margann hal, sem ad andlitis sveita med, sífelld leidindi þola réd.

C.

12. Vid gifting skyldi skorna tími; skatnar hyggja til sælu og fjár, medan ei kólnar blæu brými, búsældin stendur nætur þrjár, þar eptir fylgir brestur bús, barlómar fljúga um sér hvert hús.

13. Húsfreyan vid þad slétt (13) ædir, af því nýlifnud (14) veikist kind; barnid í ljós med forsi (15) fædist: fóstra þau eptir sinni mind, hinn únga son, ad fái fyrst, foreldra spor ad rekja lyst.

14. Veikligt afkvæmi vid þó hjarni, vilja þau helst þad deyi strax: ad Herrann géfi' ei björg med barni, beggja meining er sama slags, og svíkjast um ad ega börn, engu þó sídur lostagjörn.

15. Odlessan fylgir þessu þausi, þrifnadarleysi og huglaust géd: átumadkur og einhvör nauskinn ódrýgir hvad sem hún fer med; hún gérir Mann bæarbrag, bóndinn sem færir ecki' í lag.

13 Ædir edur ólmast af stórgédi.
14 Barnid nýkviknad í módurlífi sýkist (sem alþeckt er) af hennar lídíngu.
15 Forsi, þad er offstæki módurinnar.

D.

16. Þá nóttin dimmist draugar vakna, hjörfs ung taka þeir mönnum frá; heilagra Engla engir sakna, eru þeir hvörgi þar í hjá: gódir andar víst eru til, enn ei vid (16) þvílíkt hjónaspil.

17. Sók heyra menn og horfa á myndir, hrædiligar med ódingum: allt eins sjá þeir sem eru (17) blindir, íllar vofur í myrkrunum: forynjur hestum færa slig, (18) fær, naut og hyrdar slasa sig.

E.

18. Ei mun leidari víst til vera! vorid kémur og nóttin björt: allskonar jurtir blóma bera; blærinn hörnar vid dægrid hvört: fuglar (19) vinast med sælum saung; síst verdr þessum tídin laung.

19. Náttúran stígur vikivaka, veraldar dýrin líigar hún; fyrrgreindar lyrfur (20) frá skal

16 Sambúd slíkra hjóna.
17 Blindir, og heilskygnir þótt byrgi fyrir augu sér. Af þessu er audrádid ad þvílík svo kollud sjón er í raun réttri engin sjón, heldr í huganum ímyndan edr phantasma.
18 Fær, ɔ: saudir.
19 Vinast, þad er fá maka og hafa samgáng.
20 Frá skal taka, þad skal undantaka þær úr hóp annara dýra, sem sumri fagna.

taka, (21) fyrrast þær vid med sída brún, hvörsk-ra gæda' ad blacka til, haldandi vera (22) barnaspil.

20. Viti þér ei ad vorir (23) áar, vid slíkt til kjæti fundu margt? (24) gángdaga jurtir grænar, bláar, gular og raudar (25) kyrkna skært. (26) Leikpallur ís á vötnum vard, í veturinn þannig hjuggu skard.

21. Ef jördin þegar ætti ad (27) gróna, uppá sig tæki vetrar feld; þér skuggasiss og þoku þjónar, þá mundud undrast víst eg held! Gud er betri sem ydur sér, samt ei náttúrunni umbreytir.

22. Nú má hvörr hafa nef og augu, nábúi fólks í slíkum heim. Ef þú villt ecki verda draugur, vend þér, mitt hiarta! burt frá þeim! Þær

21 Fyrrast (: fjarlægast), þumbast vid, láta stirruliga.
22 Allt slíkt er ísl. heyra sagt frá útlendskum eda til þeirra sjá álíta þeir þannig.
23 Lángafar, forfedur.
24 Vulgo gagndaga vika, sú sem uppstigníngardagur er í, þá var hátídliga gengid um tún og garda etc.
25 Kyrkjur voru fordum blómstrum prýddar á sumrum, um Jóns messu, helst á Vestfjördum (í Isafjardar sýslu).
26 Þá vötn lagdi voru þar leikir hafdir, sem sjá má af ísl. sögum.
27 Gróna, grænka ad vori.

(28) fúlu vofur fordast skallt, sem fordjarfa þat loptid allt.

23. Skodadu Guds í verkum veru, vill hann ei þína hvörsdags hrygd: full af yndæli flest þau eru; fékk hann þér í þeim midjum bygd; ad Adams straff og eymda (29) þján, æ mýkist fyrir Herrans lán.

24. Kvædid má nefnast Eymdar-Odur, allra sem byggia þetta land, þúngan vid og þegjandi ródur; þeirra eg óska batni stand; so hryndi burtu hryggdar ryg, hressi þeir upp og brággi sig!

28 Þær fúlu vofur, þ. e. Præjudicia, sjá Innt. A. edr ita Er.
29 Þján, ánaud, þjáning, armæda.

# Annad Kvædi,

sem kallast

# Náttúru Lyst,

edur

## Olundar Hapt

og

## Vonar Fylli,

Um þad

Hversu ad náttúran öll, og einkum dýranna sorgalaust líf, Enn fyrst og seinast Guds forsjón, bendir manninum til gódrar vonar og ánægju, eins hér á Islandi.

§.

Hvad sem, (30) meinvætta mæltú þóptar, mér vard gengid í (31) tjaldra reit: eg fór ad hugsa enn sem optar, um bjargrædid í vorri sveit: heimila störf og holda sá, og hvorsdags lífid hæum á.

2. Þánkar í lopti flugu fríu, flestir þúngbúnir draumum af: himininn (32) netja skýldur

30 Meinv. Þóptar, félagar þeirra fúlu anda (N. 28 v. l.) edr præjudiciorum.
31 Tjaldra reitur, strönd edr sjáfarfiara.
32 Þá var netský á lopti, þ. e. hægd edur lognvidri.

skýum, (33) skygdi sem speigil undir haf: mögl-
adi sjór vid (34) merskis brýn, (35) melanchól-
isku kvædin sín.

3. Vatnid af heidum velltist nidur, var þad
ad tauta giljum í; enn skuggaligir skútar vidur,
skvöldrudu margt og gégndu því: ásýnd jardar
var ecki björt, eins voru fjöll og bygdin svört.

4. Af því ad nóttin nú var komin, nátt-
úran öll var hljód og kyr; þúngsinnis gjördi
þetta vomin; þagnadir sváfu fuglarnir; þó sum-
ar-gríma vegljós var; (36) vid þad fjölsgudu
grillurnar.

5. Eg stód í úngdóms besta blóma, bú-
skapar villdi reyna hnauk: eg gyrntist megan
sæld og sóma, svo væna konu þarad auk; enn eg sá
til þess eingin rád, utan mér veittist Herrans nád.

33 Skygdi edr skyggdi, sægdi edr gjördi fagr-
ann og sléttann sjóinn; þ. e. hægd vedursins
gérdi logn á hönum.

34 Merski edr Mærski er jardar heiti og Bryn
sama og brún, þ. e. vid marar-backann ellegar
sjóar síduna.

35 Öllum kémur saman um þad ad brym og
nidur géri þögn og diúpar hugsanir, og
þar hjá nockurskonar hrygd edur sáleika, eins
og öll melancholisk lög og kvædi, (sjá ad
fram. skýrgr. 5.)

36 Grillur (: ógrundvalladir ímyndunar þánk-
ar) uxu vid þad til nockurs grillti, eda
nockud var enn þá ad sjá.

6. Því flestir þeir sem fara ad búa, fá-tækir, sjaldnar (37) rétta vid; (38) hinir á mátt og megin trúa, med hörku-strit og sífeldt ýd, vinna sér brand, þó varla sé, verdt ad kalla þad sæl-lífi.

7. Nú hugd' eg væri vegur annar, svò vegna kynni betur enn, nær Gud ei sína blessan bannar; bjuggu hér (39) sælir fyrri menn, og mörgum þjódum enn í dag, (40) utanlands gengur flest í hag.

8. Gud hefur margt til matarbóta, mönn-um gefid á landi hér, ad stytta tíd og yndis njóta; enn lína starf og mannraunir, (41) æf-andi vit í verkum hans, verkar þad traust til gjafarans.

9. Enn þá eg leit hve landsins múgum leid, og sidvaninn (42) bjargir fól; sky vonarleysi

37 Þad skédur miklu meir og optar, út í lönd-um, enn hér, vegna vonar og hugleysis og ódugnadar.

38 Hinir fáu sem vidrétta, falla til hinnar hófleisunnar.

39 Landnámsmenn, sem höfdu þó miklu starf-samara enn vér, og þeirra nidjar í nockur hundrud ár, máttu þó betur og lifdu ánægd-ari.

40 Af því þær þjódir finna uppá lángtum fleira sér til yndis og hagnadar.

41 Ydkandi þad og aukandi med því ad skoda Guds verk.

42 Lángur ávani huldi fyrir Íslendíngum og bannadi þeim marga góda bjargrædis útvegi,

døpur drjúgum, dró fyrir mína gledi-sól; efna-leysid mig líka sló, laus-sinnis hik í brjóstid fló.

G.

10. Ei vildi mínu víli létta, vitid reikadi lánga hríd; eg var ad hugsa um hitt og þetta, hvad verda mundi á seinni tíd; þátt fugla kvak þeim blundi brá, byrta tekur af degi þá.

11. Ut er ad falla, stór er straumur, (43) strøndin þornar, enn svalid dvín: þar var svo fagr fugla-glaumr; (fersaung høfdu þeir milli sín) ad vílid hvarf, enn vard eg hress; vil eg því snøggvast géta þess.

12. Tjaldrar, selníngar tístu saman, til var ei hjá þeim slépnum (44) agg; márinn dró seym vid sífeldt gaman; saung Veidibjalla (45) gaggaggagg; Selníngurinn margt tí=tí=tí; Tjaldurinn margt í rennu kví.

13. Þeir voru ad taka til sín fædu: Tjald=urinn (46) madk úr leyrnum gróf, Selníngur hafdi (47) bleina krædu, (48) brúdur=kallsbørn

sem annars væri audveldt ad hafa hér á landi.

43 Þad fellur út.
44 Kíf, orda-þráttanir.
45 Veidi=bjalla, svartbakur, fridarhljód, edur gedstillingar fuglsins er þetta.
46 Fjøru etur beitu=madkur.
47 Fjøru grøs, smá-søl og sli.
48 Brúdurk. børn, smáir brúdur kallar í kletta holum.

af steinum stóf: (49) margfætla smackast Mávi réd (50) mat Svartbakurinn hrognkélsid.

14. J þeirra fugla edlis háttum, ei nema lyst og gledi fann; þeir átu nær þeir eta máttu, af þeirra (51) vistum sjórinn rann; enn þegar vatnid yfir flaut, (52) á medan sérhver hvíldar naut.

15. Þeir bidu til þess brast út sjórinn, búinn var hvers eins réttur þá, matur settur á bord og (53) bjórinn, bord-sálminn kyrjar hver sem má: svo láta kóngar sýn vid (54) dúk, (55) saungvara leika kvædin mjúk.

16. Þeir prísa Gud sem gaf þeim fædu, gjørvøllum hópnum sagdist vel: sífeldt høfdu þeir sømu rædu, sýndi þar tíngan hjartans þel. O! þau fallígu fjadra dýr! farsæld og unun hjá þeim býr.

17. Svo fór eg burt frá greindri (56) gælu;

49 Margf. krabbi (Canc. brachyurus) sem hér algengnastur er.
50 Mat, aktadi mikils, þótti gott hrognkellsi, hrogn-kall, heita Nordmenn raudmagann enn í dag.
51 Kéll út af matvælum þeirra.
52 Þeir sváfu jafnann um flódid.
53 Sjóar løgurinn sem þeir jafnan fá med fædunni og er þeim i dryckjar stad.
54 Dúkur ɔ: bord.
55 Kónaar láta blása til bords og leika fyrir sér á hljódfæri um máltíd.
56 Gæla, skémtanar kvædi.

gyrndin kvad sem í brjóstid slaug: 61 ad eg lifdi í soddan sælu, (57) sem eg er Madur betri enn þau, hreinn og saklaus sem (58) fjadur-fé, frí vid sorgir og andstreymi!

18. Meinlausir þánkar gánginn greiddu, gérdu þeir stutta villuleid, þángad ó götu-leysi leiddu, luckan hvar fyrirsat og (59) beid, ad skipan Guds í grænum dal; gengur þad fram, sem verda skal.

19. Opnadist land til fjalla frammi, fæt-urnar uppad gengu bratt: bólstad leit eg í breid-um hvammi, byggiligann, og þad var satt! húginn mér sagdi: hér er nú, (60) hamíngjuvænt ad reisa bú.

20. Hvad sem land-prýda kallast kunni, komid var hér í eina sveit: hálitad blóm í hvörjum runni, (61) heil-ylmud grös og jördin feit, (62) hólar, vellir, (63) ávöxtud lýng, vötnin og fugl-ar allt um kríng.

57 Sem eg er madr &c. ad eg hefdi sælu þeim mun framar, og eptir mínu standi.
58 Fuglar.
59 Beid mín þar.
60 Hamíngjuvænt, vonligt edur líkligt til ham-íngju og luckustofns.
61 Mjög daungód til heilsubótar.
62 Sem og hólar og vellir.
63 Avöxtud edur berja-lýng.

21. Þeir súngu hverr í sínum nótum, svo þar var lyst ad hlída til, saklausum ásta saddir hótum, svo géck þeim sképnum allt í vil: makar (64) samfara fyrtir pín, flegtudu kríngum hreidrin sín.

22. Engir af þeim í striti stúrdu, starfar þó hverr sem þörf var á: hreidur-fuglarnir heima kúrdu; (65) hvatir ei voru lángt í frá; því nockrir héldu varir vörd; (66) vistirnar adrir tóku á jörd.

23. Einn finnur jurta frygd og (67) ánga, fegursta plockar blóm af þeim; hinn úr (68) grastoppum fræin fángar, flýgur sídan med afl-ann heim, annar (69) smádyr og flugur fær, fordi slíkur er hönum kjær.

24. Vid holu-dyrnar ei þeir eyra, upp-fljúga tídt med compliment, (svo gaman er ad sjá og heyra) sl-tístandi vid lagid klént: allt þetta sem eg aflad hef, unnustu minni þad eg géf.

25. Nær úngar voru úr eggjum skridnir, öllum módirin skamtad gat: fedurnir höfdu allt

64 Samfara, medan þeir eru hreidrin ad byggja og þángad til vorpid er.
65 Hvatir fuglar þeir karlkyns eru, steggir.
66 Þeir tíndu fædu nidur á jördunni.
67 Frygd og Ángi, lystugleiki og gódur þefur.
68 Ýr úr tödúgresi (Graminibus)
69 Smádýr, smá-orma og fydrilldi etc.

eins ýdnir, úngunum líka ógáfu mat, sem (70) víðka kokin vesællig, (71) víandi láta mata sig.

26. Hýadir (72) strax er fidrid fengu, fjadrirnar lærdu ad bera rétt: í fyrstu med þeir gömlu gengu, gátu kennt þeim ad fljúga létt. skyllda forelldra þar med þraut, þadan af hvörr sér bjarga hlaut.

27. Um dýrin hin var sama saga, sinni þjónudu gyrndarlyst: saudurinn gécк í grænum haga, grasid hann beit og mettadist: (73) mjólk í júfrinu mettan jók; mjólkina lambid aptur tók.

28. I vatni fiska sá eg sveyma, (74) sinnisletta med spordakost, þar áin fór til óss ad streyma, af þeirra busli gjördi röst, (75) yfirhöfn sumra svo var glæst, silfri eda gulli komst hún næst.

29. Þeir voru ad (76) metja, sköckva og skedja, stundum móka, því lognid var: med

70 Víðka kokin: so gjöra landsuglaúngar, helst titlinga, þá þeir heim koma.
71 Víandi, þad er, tístandi (med laungum Seym) Vií.
72 Hýadir, hý nefnist sá dún er fyrst fær úngsinn, ádur hann fjadrast.
73 Mettanin eykur mjólkina.
74 Ei djúp hugsandi, þúnglyndir.
75 Yferhöfn, húdin edá rodid, svo sem á laxi og urrida.
76 Þeir voru ad metja straumian.

(77) samnúníng sig makar-gledja, mátti svo vinást hvert eitt par, og una sér vid kaldann kost, kann þeim ei granda, vetrar frost. (78)

J.

30. Otal (79) leit eg sem lystir saddi, (80) ljódad þad ei né tálid fæ, þá (81) morgunrodinn gédid gladdi, gyllti fjøll, engjar, tún og bæ, eg fór ad reysa bygd og bú; blessadist allt sem gérd eg nú.

31. Af einum hlut eg vard ad (82) vaka, vanta þókti mér nockud enn: adrar sképnur þær áttu maka, eins og flestallir vaxnir menn; eg einstædíngur ófta réd, unnustu góda ad hljóta med.

32. Einginn skal lá þó vid eg vælti, værdar lítill í sængurstad: þad var allt sem vid manninn mælti, mér veittist þad er um eg bad: (83) himininn konu góda gaf, Gud svo létti mér hrygdum af.

77 Þad er helst meiníng náttúru spekínga, ad fiskar vinist so.
78 Þvi þeir hafa vetrar fylsni, eru og sjálfir ei heitrar náttúru.
79 Eg sá hér margt fleira í náttúrunni.
80 Ort ljód.
81 Þá rodadi fyrst fyrir sólu, er hann fer fra þessu ad segja.
82 Vard af þvi andvaka, þad stód mér fyrir svefni.
83 Himin, fyrir Gud á himnum, er talsháttur allra þjóda í Evrópu.

33. Sólin brautst fram úr (84) frænu skÿi, fegurd veralldar lÿstist øll: allt var á bestum blóma-skígi, (85) blíkadi gras um rakann vøll, náttdaggar knappa silfri sett, (86) Smaragdar voru í hverjum blett.

34. Þá geislum skaut úr gluggum (87) hifna, (88) gnatadi hrygd og sást ei par: ásján jardar nam endurlifna, øll náttúran (89) sem blómstur var, opnud snérist vid sólar-ljós, sÿndi vellugt og hunángs (90) ós.

35. Giptust (91) jurtir og fóru ad (92) frævast; fjargvidrast dyrin sein og þúng; (93)

84 Fogru.
85 Blikadi, gaf þad vota gras endurskin.
86 Skein í því døggvada grasi, vid sólina hágræn litur, eda sem margur sá edalsteinn er Smaragdus heitir, væri samankomnir.
87 Himna sólin kom fram milli skyanna.
88 Gnatadi, hrapadi, féll burt.
89 Hún var øll í einu áliti so føgur sem eitthvert fridasta blómstur; líka sÿndist hún sem mørg blómstur, ad opna sig vid sólina og snúa sér eptir henni.
90 Sveitti út sætum vøkva.
91 Eptir nÿustu grasamanna raun og sjón, hefur hvert blómstur menn og konur med friófgunar edur gétnadar limum og er viss tala manna og kvenna í hverjum blómstra sveitum (classibus).
92 Frævast, jurta konurnar verda af fræum ófléttar eptir þad mennirnir hafa frjódustid fellt.
93 Þau urdu spøk og lídandi af ástinni.

hin ftyggva fysti ad standa og gæfast; (94) stundu gømlud og fæddust úng: jeg naut þar af og færdi fræ; fjøldgar hystid á mínum bæ.

36. Nú er hásumar heppnis daga; hamingjan sætir búskapinn: þar med er, úti þessi saga, þad er ad skilja fyrst um sinn; lof sé Gudi, sem lánid gaf; landid fagni vid soddann skraf!

94 Enn þau gømlu stundu, sem til slíkra hluta voru ørmagna ørdin.

# Þridja Kvædi,

sem er

# (95) Munadar-Dæla,

edur

# Bónda-Líf

og

# Lands-Elska.

um þad

Hvørnig góðir bændur kunni ad lifa gladir og vel ánægdir, og hafa allskonar nægtir, á Íslandi, af hlunnindum þeim er þar brúkast nú, edur af nýu brúkast kunna; Og í øllu því ad sýna dugnad og elsku fødurlandinu. (NB.) Þó er hér sleppt flestu því alþeckta, sem brúkad er, og til slíkrar ánægju hlídir; eins flestu því er fornmenn brúkudu, sjá tit. bladid.

A.

Vænt er ad kunna vel ad búa, vel ad fara med Herrans gjøf; hans verkum sér í hag ad snúa, honum þacka' fyrir utan tøf; enn sér og ødrum

95 Mun. dæla, e. s. af sælu-dalur, þvíad dæla er lág, lægd, hvadan er dælu-kér.

gëra gott, gleðjast og (96) forsmá heimsins spott.

2. Ad kunna vel sitt kall ad rækja, keppast í bygdum lengra fram, aldr' (97) eptir følskum sóma sækja, síst (98) um veralldar hyrda glamm: ad sýna velgjørd aumri þjód; (99) ossa rángIætis hepta mód.

3. Ad kunna ad lifa í fró og fridi, full-hraustur undir Herrans líkn, umgirdtur verndar-engla lidi, af djøfla valldi frjáls og (100) síkn; enn loks hjá Gudi ad verda vís, um (101) víst ódáins sællífis.

4. Hvillík sér alldrei lucka leynir, litid hef eg þar nockud á: hann sér þad best er sjálfur reynir; segja skal eg því meira frá, hversu mitt bónda hvørsdags líf, hingad til gëck fyrir utan kíf.

96 Þad er grein gódrar ánægju þá mann veit ad hann gërir skylldu sína, ad hirda ei um hvad illir menn kunna hønum til lasts ad leggja.
97 Svo sem er háttur ákit alþýdu, bygt á eing-um grundvelli eda jafnvel løgteknum løstum.
98 Glaum og gledi fjølda manna, sem eru dárar.
99 Ossa rángIætis eru meiníngarrík ord þ. e. ad sigra slíkar tilhnegíngar hjá sér og kunna réttiliga af sér hrinda ánnara ójøfnudi.
100 Osekur.
101 Sælu-víst ódaudligra manna, í ødru lífi.

5. Eg fann (102) bergmanna fimtu veru, farin var ofan af himni sú; félausra þvílík efnin eru, allhentug til ad reisa bú: ein gaf (103) hending og önnur plóg, inn til þess ad eg hafdi nóg.

L.

6. Hvada verk er eg vinna gjördi, vid þad skemti sér þánki minn, og (104) hugsan adra kjæra kjördi, sem kynni stytta dægurin; þó jafnan gjætti ad syndlaus sé, svo mín blessan ei hnignadi.

7. Eg tók mér helst til hugleidingar, hvörsu náttúran reglud var, eins í því vigtug' og í því ringa, er fyrir skilníngs-vitin bar: um þad gét eg ei annad sagt; allt taladi Guds spek' og magt.

8. Hér nærst þegar eg var ad verki, (105) vellti eg hlutnum fyrir mér, og leytadi ef eg hytti hverki (106) hvad nýtt og gott, eda skadligt er, framyfir þad eg vandist vid; (107) varliga trúdi landsins sid.

102 Þad er qvinta essentia málmgraftar-manna; so kallast af þeim vonin, uppá hverja þeir opt verda ad byggja.
103 Mér vildi til eitt happid eptir annad.
104 Eg tók mér fyrir skemtilig hjáverk ad umþeinkja.
105 Vellti í huganum.
106 Einhverja nýa nytsemi eda skadsemd vid þann hlut eda verk.
107 Hvad eptir hönum var best edur hentugast haldid, heldur reyndi þad sjálfur.

9. Nær eitthvað það til bata kendi, brúka lét eg og reyna strax, (108) griðmönnum bædi og grönnum kéndi; so gæti þordið þeim til hags; (109) eins þeirra niðjar sviptir sút, síðan það beri um landið út.

10. Ur jörð eg tek þó tak' á móti, (110) til ýmsa hluti bjargar magns: stundum vellti eg völdu grjóti, veggja til edur meira gagns: eg gyrnist ei (111) gérsemi nein, gull, silfr og náttursteín.

11. Merkur=Demant (112) (eg mæl' ei framar) Mógol skal eiga og hnossin fleir': (113) þenglar kljúfi þrítugann hamar; (114) þéttann í myrkri að grafa leyr: mér læt eg nægja (115) missir auðs, mætti eg afla dagligs brauðs.

12. Þá lít eg berg af loptinu (116) holað, laungum flýgur í þánka minn, að furðast hvað

108 Heimlis=mönnum.
109 Og að börn þeirra verdi við það farsæl.
110 Ymsa hluti til nytsemdar.
111 Gérsemar er réttara og elldra.
112 Sem vegur mörk (nærr því 15 lód. eda 900 Carata) þann stein hefur Mógol fengið frá Culor á Golconda Strönd.
113 Kóngarnir meiga brjótast gegnum björgin niður í jörðunni.
114 Til að fá þaðan málminn.
115 Eg er ánægður þó eg hafi ei stórann ríkdom.
116 Hvillíkt skédur opt við sjó af hafvindum.

eg fái þolad, stra-gjarn ostu seckurinn, sem var í margri vedra hríd, várad hefur þó lánga tíd.

13. Þegar (117) hraungrjót er handa á milli, hrædist eg vid og kém í stans, af því jardeldur jafnan spillir, jordunum hér og utanlands; ad mitt hérad er frá þeim frí, fullkomliga eg glédst af því.

14. Úr jordu lita kann eg klædi; (118) krít rauda tek og smjsann (119) mó, allgódann hnaus, sem eldinn (120) fædir, (121) ebenstimbur hal-samad þó: (122) málmvotnin sjúkum manni þeck, magann bæta nær eg þau dreck.

15. Fyrir mig einn eg ecki byggi; afspríng helldur og sveitúnginn; eptir mig vil eg verkin liggi, vid dæmin orvast seinni menn: eg brúa; (123) gyrdi, gotu ryd, grønnunum til þess veiti lid.

16. Nær eg mædist í stírdu starsi, styrdur af vosi hvíli mig, og hýggast vid, ad þad sé þarsi,

117 Brædt í Jardeldi.
118 Úr sortu.
119 Mór, Argilla, brass-mór. og fl.
120 Mótorf sem vel er eldsýmt.
121 Íslendskt ebentré (ibenus Islandica) kallast surtarbrandur, og er hann smurdur málmvokva, svo ei gétur fúnad.
122 Málmvatn, olkeldur, járnlagarvotn ꝛc.
123 Girdi géri garda.

(124) Þótt í herdarnar kæmi ryg; nóttin og værdin þerra þurt, þess lidna dagsins sveita burt.

XII.

17. Á lángferdum nær eg er úti, ad-drátta vegn' um (125) heida-geim, gét eg helst þángad gyrndin lúti, gott er ad vera kominn heim; því hjartad mitt er (126) helfingad, hlacka eg til ad finna þad.

18. Eg veit hún hefir sinni sama, saknar hún strax ef geng eg frá; þó vid sín hafi verkin gaman, vantar han' allt, nem' eg sé hjá. Skal hann ei brádum bruna' í tún? bóndann dreymdi mig, segir hun.

19. Lít eg af holti lønd og garda, lifnar blódid vid slíka-sjón, mæli hvørn spøl ó spannar (127 kvarda, sprett læt eg fara bitil-ljón, lángt finnst mér heim ad bænum bil, brádlætid samt fyrir ødrum dyl.

20. Húsfreyan hefur augad úti, annad slagid, og þetta sér: Hún strikur munninn klén med klúti, kémur þegar af bak' eg er, og hjarta leggur hønd um háls, helldur enn ecki vid mig frjáls.

124 Þad sé gagnligt þó mikid hafi fyrir því.
125 Á fjallvegum.
126 Helmingad, annar parturinn er heima.
127 Mæli hvørn spøl þ. e. eg mæli hann í smáu, því mér þykir vegurinn lángr.

21. Hun kyssir og med klappi segir: komdu blessadar, heillin min! Gudi sé lof! eg finn þig fegin; fyrir margt laungu vænt' eg þin! hjúin gledjast og bornin blíd, (128) bugtid þad gengur lánga tíd.

22. Jeg fer í bæ og hressist helldur; hún dregur af mér vos-klædin; svo kulldinn flýi, kveikist eldur, kræsast þarf einhvørr rètturinn: borbid er sett med bersta mat, í búrinu sem hún fengid gat.

23. Hún finnur margt til yndis orda, eins og fyrst nýgift værum þá: hún mig ýmist bidur ad borda; brátt kvartar, ad mér fellst ei á. Hún segir: fyrir þreyttann þig, þad er nú mál, ad hvílla sig!

24. Af bestu saungum býr hún rúmid, ad bædi getum sofid hægt: ad dockn lídur dagur húmi, dasadur sef (því vel er lægt) (128) í minnar ástar fadmi sús, fram til dagurinn hyrtir hús.

25. Bidur morguns eg vakna rodа, vakur og nýr, ad hugsa um bú; þanninn á milli vadmáls voda, værara' eg sef, ad minni trú, enn

128 Lotning sem fólkid sýnir bóndanum medan þad er ad heilsa honum.
129 Lægt ɔ: liggjandi, mér er hægt, vel um mig búid.

kóngur svaf ó silki-dýng syrgjandi, kafinn umþenking.

26. Hvað sætt er þannig heim að vitja, hugsi þeir-til sem reyna líkt! ó landi giftur svona' að sitja, sælgæti mun ei finnast slíkt. O! hvað sælann þann segg eg tel, sem þannig býr og giftist-vel!

VI.

27. Má eg vel lofa mína hýru, má eg vel þar um sýngja ljóð: øll er (130) hún skopt af edli dýru; ei veit eg þvílíkt gæðsku blóð: øll er hún søm í sjón og raun, sætann mannkosta særir daun.

28. Hennar guðhræðsl' og dygða dæmi dagliga skín, sem fagurt blys: hjúum allt kénnir sem þeim sæmir, sidar børnin og heptir (131) ys, illmæli, klám og arga-fas, ósamþycktir og heimsku þras.

29. Hún er rétt kølluð hússins Móðir, hjúunum kær og vyrdt sem ber, hennar dygd læra landsins þjóðir, lempin þar til og hugul er; Hún vyrdir mig og elskar eins, engum gérandi neitt til meins.

30. Hún med þróttum húsið fyllir, hreinliga býr til mat óvalt; hvað sem hun hefir hand'

130 Hún, þ. e. hýran edur konan mín.
131 Ys, ógángur.

á milli, herrans blessan þad drýgir alle, svo hvørt eitt matarkynja kér, krucka spámannsins haldid er.

31. Hún er skírlíf í hjart' og sinni, hjá mér sefur og bærist ei; heldur liggur í hvílu minni, hæverskliga sem ønnur mey; (132) ersidan samt med æru þar; ávøxtinn gudi befalar.

32. Hún vill aumstøddum hjálp' og þjóna, hún vill sykra þad remm' er á: Hún er mitt skart og heidurs króna, hún er þad betsta, sem eg á. Hvørjum stundligum eignum af eckért þvílíkt mér drottinn gaf.

33. Nú hef' eg talad nóg um ockur, nefnda sælu má finnast um; Því svoddan konur kosta nockud, kjørgripir er í ríkjunum. Flestallt búendum villdi í vil, væru þvílíkar margar til.

G.

34. Nær vetrar-tíd ad gardi gengur, gledst eg ad (133) eiga skjól og hvíld: útivinnan ei lýr oss lengur, lyst af haustsøfnum verdur fylld: Því nýtri verd eg nú í vor, náttúrunnar ad rekja spor.

35. Veturinn hér ei virda (134) flóar, vid hans gædi samt kannast eg: heilsan er frist þá fris og snjóar; falli vedráttan bærilig:

132 Þetta er sett á mót 1ta Kv. Er. 14da, sjá ad. fr.
133 Þ. e. inni, fara í vetrar hreysi.
134 Flóar þ. e. vermir, heitir.

(77) samnúning sig makar-gledja, mátti svo vinást hvørt eitt par, og una sér vid kaldann kost, kann þeim ei granda vetrar frost. (78)

J.

30. Otal (79) leit eg sem lystir saddi, (80) ljódad það ei né tálid fæ, þá (81) morgunrodinn gédid gladdi, gyllti fjøll, engjar, tún og bæ, eg fór ad reysa bygd og bú; blessadist allt sem gérd eg nú.

31. Af einum hlut eg vard ad (82) vaka, vanta þókti mér nockud enn: adrar sképnur þær áttu maka, eins og flestallir vaxnir menn; eg einstædingur ófta réd, unnustu góda ad hljóta med.

32. Einginn skal lá þó vid eg vælti, værdar lítill í sængurstad: það var allt sem vid manninn mælti, mér veittist það er um eg bad: (83) himininn konu góda gaf, Gud svo létti mér hrygdum af.

77 Það er helst meining náttúru spekinga, ad fiskar vinist so.
78 Því þeir hafa vetrar fylsni, eru og sjálfir ei heitrar náttúru.
79 Eg sá hér margt fleira í náttúrunni.
80 Ort ljód.
81 Þá rodadi fyrst fyrir sólu, er hann fer frá þessu ad segja.
82 Vard af því andvaka, það stód mér fyrir svefni.
83 Himin, fyrir Gud á himnum, er talsháttur allra þjóda í Evrópu.

33. Sólin brautst fram úr (84) frænu skýi, fegurd veralldar lýstist øll: allt var á bestum blóma-skgi, (85) blikadi gras um rakann vøll, náttdaggar knappa silfri sett, (86) Smaragdar voru í hverjum blett.

34. Þá geislum skaut úr gluggum (87) hifna, (88) gnatadi hrygd og sást ei par: ásjón jardar nam endurlifna, øll náttúran (89) sem blómstur var, opnud snérist vid sólar-ljós, sýndi vellugt og hunángs (90) ós.

35. Giptust (91) jurtir og fóru ad (92) frævast; fjargvidrast dyrin sein og þúng; (93)

84 Fegru.
85 Blikadi, gaf þad vota gras endurskin.
86 Skein í því døggvada grasi, vid sólina háglæ-grænn litur, eda sem margur sá edalsteinn er Smaragdus heitir, væri samankomnir.
87 Himna sólin kom fram milli skyanna.
88 Gnatadi, hrapadi, féll burt.
89 Hún var øll í einu áliti so føgur sem eitthvert frídasta blómstur; líka sýndist hún sem mørg blómstur, ad opna sig vid sólina og snúa sér eptir henni.
90 Sveitti út sætum vøkva.
91 Eptir nýustu grasamanna raun og sjón, hefur hvert blómstur menn og konur med fríófgunar edur gétnadar limum og er viss tala manna og kvenna í hverjum blómstra sveitum (classibus).
92 Frævast, jurta konurnar verda af fræum ólettar eptir þad mennirnir hafa frjóduftid fellt.
93 Þau urdu spøk og lídandi af ástinni.

hin skyggvu fysti ad standa og gæfast; (94) stundu gømlud og sæddust úng: jeg naut þar af og færdi fræ; fjøldgar bystid á minum bæ.

36. Nú er hásumar heppnis daga; hamíngjan sætir búskapinn: þar med er úti þessi saga, það er ad skilja fyrst um sinn; lof sé Gudi, sem lánid gaf; landid fagnik vid soddann skraf!

94 Enn þau gømlu stundu, sem til slíkra hluta voru ørmagna ordin.

# Þridja Kvædi,

sem er

# (95) Munadar-Dæla,

edur

# Bónda-Líf

og

# Lands-Elska.

um þad

Hvørnig gódir bændur kunni ad lifa gladir og vel ánægdir, og hafa allskonar nægtir, á Íslandi, af hlunnindum þeim er þar brúkast nú, edur af nýu brúkast kunna; Og í øllu því ad sýna dugnad og elsku fødurlandinu. (NB.) Þó er hér sleppt flestu því alþeckta, sem brúkad er, og til slíkrar ánægju hlídir; eins flestu því er fornmenn brúkudu, sjá tit. bladid.

A.

Vænt er ad kunna vel ad búa, vel ad fara med Herrans gjøf; hans verkum sér í hag ad snúa, honum þacka' fyrir utan tøf; enn sér og ødrum

95 Mun. dæla, e. s. af sælu-dalur, þvíad dæla er lág, lægd, hvadan er dælu-kér.

géra gott, gledjast og (96) forsmá heimsins spott.

2. Ad kunna vel sitt kall ad rækja, képpast í dygdum lengra fram, aldr' (97) eptir følskum sóma sækja, síst (98) um veralldar hyrda glamm: ad sýna velgjørd aumri þjód; (99) ossa rånglætis hepta mód.

3. Ad kunna ad lisa í fró og fridi, fullhraustur undir Herrans líkn, umgirdtur verndarengla lidi, af djøfla valldi frjáls og (100) síkn; enn loks hjá Gudi ad verda viss, um (101) vist ódáins sællífis.

4. Hvílík sér alldrei lucka leynir, litid hef eg þar nockud á: hann sér þad best er sjálfur reynir; segja skal eg því meira frá, hversu mitt bónda hvørsdags lif, híngad til géck fyrir utan kíf.

96 Þad er grein gódrar ánægju þá mann veit ad hann gérir skylldu sína, ad hirda ei um hvad illir menn kunna hønum til lasts ad leggja.
97 Svo sem er hátt ákit alþýdu, bygt á eingum grundvelli eda jafnvel løgteknum løstum.
98 Glaum og gledi fjølda manna, sem eru dárar.
99 Ossa rånglætis eru meiníngarrík ord þ. e. ad sigra slíkar tilhneigíngar hjá sér og kunna réttiliga af sér hrinda ánnara ójøfnudi.
100 Osekur.
101 Sælu-vist ódaudligra manna, í ødru lífi.

5. Eg fann (102) bergmanna skimtu veru, farin var ofan af himni sú; félausra hvillik efnin eru, allhentug til ad reisa bú: ein gaf (103) hending og önnur plóg, inn til þess ad eg hafdi nóg.

L.

6. Hvada verk er eg vinna gjördi, vid þad skemti sér þánki minn, og (104) hugsan adra kjæra kjördi, sem kynni stytta dægurin; þó jafnan gjætti ad syndlaus sé, svo mín blessan ei hnignadi.

7. Eg tók mér helst til hugleidingar, hvorsu natturan reglud var, eins í því vigtug' og í því rínga, er fyrir skilníngs-vitin bar: um þad gét eg ei annad sagt; allt taladi Guds spek' og magt.

8. Hér nærst þegar eg var ad verki, (105) vellti eg hlutnum fyrir mér, og leytadi ef eg hytti hverki (106) hvad nýtt og gott, eda skadligt er, framyfir þad eg vandist vid; (107) varliga trúdi landsins sid.

102 Þad er qvinta essentia málmgraftarmanna; so kallast af þeim vonin, uppá hverja þeir opt verda ad byggja.
103 Mér vildi til eitt happid eptir annad.
104 Eg tók mér fyrir skemtilig hjáverk ad umþeinkja.
105 Vellti í huganum.
106 Einhverja nýa nytsemi eda skadsemd vid þann hlut eda verk.
107 Hvad eptir hönum var best edur hentugast haldid, heldur reyndi þad sjálfur.

condúite þódir hellst, dugnad og kjænsku í framkvæmdum; eda ertú máské ordinn leidur á hinum gamla dugnadi í framkvæmdum?

Önundur ætladi ad fara ad svara einhverju, en Þjódólfur tók málinu fyrir, og segir:

Eg er ecki komin híngad til ad heyra á lærdar dispentássíur í ødrum túngumálum, sem eg skil eckért í. Eg lét yckur narra mig til þess í fyrra ad koma híngad aptur í ár, til ad heyra søgur þínar, af því eg hugadi ad eg mundi hafa eitthvørt gagn af þeim, en mér sýnist nú ad þad ætli ad verda harla lítid. En þar eg hefi gért ferdina og bedid hér svo lengi, þá vil eg hafa þau þess not er eg má; vil eg nú bidja þig, gamli madur! ad segja mér hvad eg gét lært af søgu þinni, því eg á bágt med ad sjá þad sjálfur.

Adkm. Þad er vel og skynsamliga mælt, Þjódólfur minn! og er eg þess állbúinn er þú bidur.

Þad fyrsta, sem vid gétum lært af søgu Gódsvinns, bónda er: ad þad sé sú besta byrjun ad byrja med Gud. Þorlákur bóndi hafdi enga sanna andliga eda veraldliga hagsæld fyrri enn hann fór ad leita Gudsríkis, og svo mun ødrum fara; því þótt sumir menn, er vondir eru og órádvandir, sýnist bada í rósum, þá er þad ei nema missýníngar einar, og rjúka þær burt, er minst varir.

Þjóðólfur. Þetta vitum við allt saman, prestarnir kenna ockur það.

Aðkm. Svo er það, en það má þó með öllum rétti hérum segja, að aldrei sé góð vísa of opt kveðin. En það annað sem vér getum lært af sögunni er þetta: að það sé Guðs vilji, að vér kappkostum af öllu megni að vera dugligir í ockar stétt og stöðu, og að sá er það eigi gérir, géti eigi vænt Guðs blessunar, og eigi heitið ráðvandur maður. Um þetta sannfærðist Þorlákur bóndi eptir að hann hafði heyrt prédikunina; hönum fanst að enum sann-guðhrædda væri það eins edliligt að kappkosta dugnað, eins og hinum ógjarna að safna. En það lítur eins út eins og þetta sé ecki öllum svo ljóst sem skyldi, því annars held eg að fleiri væru góðir og atorkusamir húsfeður, og fleiri dygg og kostgæfin vinnuhjú, en færri gripdeildir og óðáða verk, og minni áseilni, er sumir grípa til er vanrækja sitt eigið kall.

Nú fór að koma guðræknis svipur á Þjóðólf; líka bægdist mikið á Önundi, en Sighvatur var alltaf eins; hann þagði og hlustaði á með mesta athygli.

Þjóðólfur. Ecki hefi eg tekið eptir því, að eg hafi heyrt þetta útlistað á þennann hátt.

Eg vildi óska ad þad væri satt sem þú segir, því mér þykja engir tímar óskemtiligri enn þeir, sem eg má eckért starfa, og hefi eg þessvegna bedid Gud ad géfa ad þad væri ud géra vel, ad vinna, álíka eins og madurinn, sem hann meistari Jón gétur um ad legid hafi í aldingardi sínum, og bedid Gud ad géfa ad þad væri ad géra vel. En mér þykir ad þú géra lítid úr andagtaræfingunum; eda prestúrinn sem hefir búid til prédikunina.

Adkm. Hvørki hann eda eg gérum lítid úr þeim, þegar þær eru sprottnar af réttri rót. En þú mátt ecki leida mig svona frá efninu. Af því tvennu sem eg hefi sagt ad vér gétum lært af søgunni, gétum vid fundid adalreglurnar fyrir uppfrædingu og uppeldi barnanna, og er þad þá hid þridja sem vid gétum lært af søgunni: Vér egum ad innræta børnunum Guds ótta og góda sidu, fyrst og frémst, og þarnærst kénna þeim vel allt þad, sem heyrir til þeirri stétt, er menn géta vænt ad þau hreppi seirna meir, því Guds ótti og gódir sidir eiga einkum ad sýna sig í því; þannig skiptist barnauppeldid í tvær greinir: þ. e. í þad andliga og líkamliga uppeldi; má hvørugs í missa ef vel á ad fara; þó ber ætíd ad álíta hid líkamliga uppeldi, svo sem eina grein af því andliga, því þad fyrra er mikid komid undir því sídara þótt þad sé og eigi

ad vera í fyrirrúmi. Þannig breytti fóstri Godsvins og sá godi madur sem Þorlákur bóndi var settur nidur hjá fyrst, og má læra eitt og annad af því, er sagt er frá atferd þeirra.

Þjódólfur. Þú ert alltént ad tala um barna uppeldid; eg ætla ad þad muni ecki vera svo mikid vandhæfi á því. Ha! ha! nû sá eg nockud! þú vitnar á móti sjálfum þér; þú lætur eins og allt sé komid undir uppeldinu og þó segir þú ad Godsvinnur, sem fécks etthvört hid besta uppeldi, hafi ordid lausamadur á eptir og letingi, sem verst er af øllu; þarámóti segir þú ad hann þarna, hann Þorlákur hafi ordid vænsti madur, og dugnadarmadur mesti, og þó fécks hann hid versta uppeldi, eptir því sem þér segist frá. Svona erud þid nú, sem þykist vita mikid og vera lærdir; Þid lofid þad yfir allt hóf sem þid viljid koma mønnum til ad fallast á, en þegar til kemur, þá er þad einhvør vitleisan.

Adkm. Ecki er þad rétt ad skulda alla fyrir þetta, Þjódólfur minn! því þó sumir kunni ad hafa farid med heimsku og fiarmæli, þá eru hinir miklu fleiri sem hafa talad og skrifad viturliga, og þad eina er mátti ad gagni verda, þeim er hlýddu. Og þad þori eg ad segja, ad þeir af løndum ockar sem hafa reynt til ad fræda brædur sína um eitthvad, þeir

hafa ecki varid minni kostgæfni til ad géra þad vel, enn hinir ad færa sér þad í nyt, því þeir hafa gért þad svo vel sem þeir hafa gétad, hvørr fyrir sig, og svo munu þeir géra sem á eptir koma, og verdur þá ecki meira heimtad.

Þjóðólfur. Þeir eiga ad þegja sem ecki eru nógu lærdir.

Adkm. Þad er ómøguligt ad þagga sér-hvørja raust nidur í því landi sem fødurlandselskan og frelsid hefir valid sér fyrir adalheimkynni, því þau láta steinana tala þegar adrir þegja. Eg ætla ecki ad eyda fleirum ordum til ad forsvara adra, þeirra eigin verk géra þad miklu betur; mér er nær ad ovkja því ámæli af mér, ad eg, eda réttara sagt, ad sagan sem eg flutti, vitni á móti mér sjálfum. Eg hefdi gétad sagt yckur søgur af óteljandi sem hafa notid góds uppeldis, og aldrei látid afvegaleidast, en eg vildi heldur segja frá þeim, sem hafdi hlotid gott uppeldi og sídan látid afvegaleidast, svo eg gæti sýnt tvent í einu: fyrst, hvørnig þeir fara ad sem uppala vel, og þarnæst: ad þó ad gott uppeldi sé dyrmætt, þá sé þad ecki einhlýtt, menn verdi ad gjalda varhuga vid, ad þeir ecki láti afvegaleidast, þegar þeir fara ad ráda sér sjálfir. Eg hefdi og gétad sagt frá møргum sem hefir fengid slæmt uppeldi, og borid þess sorgligar menjar alla æfi, en mér

þókti hitt vænna, ad lýsa einum sem hafdi hlotid slæmt uppeldi, en snúist sídan til batnadar og ordid sómamadur mikill, þó þeirra kunni ad vera færri dæmin enn hinna, því med því móti gat eg einnig hér leidt tvent fyrir sjónir í einu: fyrst, hvørsu sumir breyta vid børnin sem ala þau ílla upp, einkum þegar þad eru nidursetur, og þarnærst: ad sá megi eigi láta hugfallast, sem hast fengid slæmt uppeldi og sé kominn afvega, því þad sé møguligt fyrir hann ad komast til menníngar, ef hvørki skortir gódann vilja eda stødugly ndi og kostgæfni, einkum ef hann leitar ráda og adstodar hja gódum mønnum, eins og Þorlákur bóndi. Í einu ordi ad segja ætla eg ad uppvørtur, lausamenska og vinnumenska Þorláks bónda og Godsvinns bónda, séu spegill og advørun og leidarvísir fyrir suma únga menn og øll vinnuhjú. Þetta er þad fjórda sem læra má af søgunni, og nú er eg komin rétt ad því fimta, sem er: hvørsu mikilvægt sé ad eiga gódann prest og árvakrann, og hvad miklu hann géti komid til leidar.

Þjódólfur. Eg held vid þeckjum prestana hérna, þú þarft eckért ad segja ockur af þeim, þeir eru ecki mikid vid gømlu prestana þeir nýu núna! þeim fer aptur eins og ødru; eg man þad í úngdæmi mínu ad hvørt mannsbarn grét sem var í kirkjunni; en nú géta þeir ecki komid tárunum

út á einni kéllíng. Eg held vid vitum þad líka ad sumir fara í húsdvitjan, en sumir ecki, og þykir mér þad einu gylda; þad er ecki nema til ad tefja fyrir.

Önundur. Þad segi eg med; og kann eg þó ecki ad klaga yfir því ad þeir tefji fyrir mér, þó þeir komi. En þad er lóin í þinn háls ad gomlu prestarnir vóru betri enn þeir nýu, en þad er þad vessa ad þeir ætla ad fara ad blífa of-mikid gamaldags aptur.

Þjódólfur. O! eg vildi ad satt væri! enn hvad sagdirdu? hvørt eg er lodinn á hálsinum?

Önundur. Þú ert svo óþóleradur þú! ad...

Adkm. Hættid þid nú þessu! géfid heldur gaum ad því, hvørju presturinn kom til leidar.

Önundur. Þad var alltént styckid! Þad var ecki svo fárligt, þó hann gæti komid einum stackels-aumíngja manni til ad afnast og erja eins og einn slafi, eda jálkur, sem á ad gánga sig til húdar.

Adkm. Þegar Þorláki bónda var ordid þad full-ljóst, ad Gud vildi ad hvørr erfidadi sem mest og dyggiligast í sínu kalli, þá vard hønum aldrei ad segja ad hann erjadi eins og þræll, eda ad hann gengi sér til húdar, heldur sagdist hann erfida í herrans víngardi, og bera hita og þúnga dagsins med ánægdu gédi; þad var heldur engin þjaníng fyrir hann ad erfida, því hann var

eins og hann Þjóðólfur þarna, ad honum voru þeir tímar leidinligastir er hann hafdi eckert ad starfa. Eg þori ad fullyrda þad Önundur minn! ad hann Þjóðólfur, sem þér þykir svo lítid til koma, er miklu ánægdari og gladværari med sjálfum sér, þegar hann er ad ragla í kríngum kindurnar sínar, og ad taka til í giøfina handa kúnum, heldur enn þú ert þegar þú slæpist allann dáginn í kaupstadnum med hendurnar í vøsunum, og ad honum er meiri fróun og endurnæring í húslestrinum á kvøldin, enn þér í heilli púnchsskál eda brennuvíns-fløsku. En nú er ad víkja til prestsins. Þad var þad minsta af gódverkum hans ad umvenda honum Þorláki; hann lét sér eins ant um ad fræda alla og leidbeina øllum, úngum og gømlum, í sókninni sinni, eins og honum, bædi í andligum og veraldligum efnum, og tókst honum þad ótrúliga, af því hann sjálfur var vitur madur, og bar skynbragd á allt, og geck á undan med gódu eptirdæmi, svoad hann var elskadur og virdtur af øllum. En þótt Þorlákur bóndi hefdi verid sá einasti, sem hefdi átt ad þacka honum svo mikid, þá var þad þó mikils verdt, því auk þess ad þad má þykja mikilvægt ad géta leidbeint einum manni til farsældar, þó ecki séu fleiri, þá breiddist þad sædi vídar út, sem presturinn sádi Þorláki í hjarta; hann bætti stórum øll þau

hjú sem hjá honum voru, og voru þau mørg um hans búskapartíd; hefir flest af þeim ordid rádvandt fólk, og atorkusamt, og eptir því hefir velmegan þeirra farid; hafa þau ástundad ad líkjast Þorláki í allri háttsemi, og borid sig ad breida þad sama hugarfar út til annara, sem þau høfdu ødlast hjá hønum, einkanliga á medal hjúa sinna og barna. — En þad voru ecki vinnuhjú Þorláks ein sem høfdu gott af hønum á þennan hátt, øll sveitin tók sér snid eptir hønum, og dró dám af hønum, því hann þótti þar vænstur bóndi og vitrastur. Notadi hann og serhvørt tækifæri til ad fræda sveitúnga sína og leidbeina þeim í øllu, og munu þeirra afkomendur hans menjar lengi bera. Stundum høfdu utansveitarmenn mikil not af tali hans, eins og t. d. hann Godsvinnur sem nú er hafdur í mestum vyrdíngum í sinni sveit; svona breidist þad góda út og margfaldast í þúsund lidu, þegar þad kémur í hagkvæma jørd. Þad er eins og frækornid sem kastad er í jørdina, þad verdur úr því planta, sem ber mørg frækorn ønnur eins, en hvørt af þeim verdur aptur ad nýrri pløntu þegar tími er til, og svo framvegis, svolengi sem engin útvortis hindran tálmar. Svona verdur opt mikid úr því sem hefur litilfjørliga byrjun. — En allt þetta var ad þacka

prestinum, hann sádi fyrstur þessu góda sædi, er sídan færdi svo gódann og glediligann avöxt. Þetta sama verka allir gódir prestar á medal vor, þó þad sjáist ecki fyrri enn á eptir, því þessháttar framfarir þurfa ad hafa tímann fyrir sér. Bidjid þid Gud ad géfa yckur sem flesta góda presta, og gérid vel vid þá, því þeir eru meira verdir enn gull og silfur.

Þjódólfur. Já, þad er satt, þeir eru Guds verkfæri þegar þeir eru gódir. En mér er spurn: til hvörs varstu ad segja ockur frá húsvitjaninni? þú máttir þó vita, ad þad væri tómur óþarsi, því vid verdum aldrei prestar.

Adkm. Hefdi eg átt tal vid Presta, þá hefdi eg hlaupid yfir húsvitjanina, því þeir hefdu eckért gétad af henni lært, þeir eru ordnir svo vanir vid þær; en fyrst eg átti tal vid bændur, þar sem þid erud, þókti mér þad yfrid vel tilfallid ad géta hennar; svoad þótt Prestarnir eigi ad hafa auga á því, ad þeir sem eru hyrdulitlir svíkist ecki um ad uppfræda börn sín og hjú, og ad lagfæra þad sem kann ad vera abótavant hjá öllum, þá liggur þó mestur hluti uppfrædingarinnar á yckur sjálfum; en med því öllum hefir þókt þad hid mesta vandaverk bædi á fyrri og seinni tímum, þá huxadi eg ad húsvitjanin kynni ad koma yckur vel, þar hún

inniheldur nockrar reglur sem þargð lýta. Er þetta þá hid sjötta er eg hygg ad læra megi af sögunni. Sé nockud fleira enn þetta eptirtektaverdt í sögu minni, þá finnid þid þad sjálfir, þegar þid komid heim og farid ad hugsa eptir henni.

En nú þótt svo kunni ad vera ad þid vitid þad þegar allt á undan er eptirtekta verdt kann ad vera í sögunni, annadhvört af eigin reynslu eda af ödrum dæmum, þá er þó eigi örvænt um ad þid kunnid ad hafa hennar nockur not, því þá getid þid sagt hana börnum yckar og hjúum, sem ecki hafa ennþá lært eda reynt eins mikid og þid, og ef þid látid skrifa hana upp, þá getid þid látid börnin læra ad lesa á hana, þó ecki fyrri en þau eru komin í góda stöfun, og ætla eg ad hún sé eigi med öllu óhentug til þess.

Þjódólfur og Önundur ætludu ad búa sig til ad svara einhvörju, en Sighvatur tók málinu fyrir, og segir: Nú hefi eg þagad svo lengi og lofad yckur ad tala, ad mér þykir þad ecki meira enn skylda yckar, þó ad þid lofid mér nú ad tala fáein ord. Er þad þá fyrst, ad eg bid þig ad hafa sælann sagt söguna, gamli madur! hún er hvörki of ný eda of gömul fyrir mig, því hún er hellst um þad sem vidgengst á þeirri tíd sem eg lifi sjálfur, og nærst fyrirfarandi árum, bædi hjá þeim sem bestir eru og hyggnastir, og hinum sem

þad eru midur. Er þad lángtum markverdara fyrir mig, enn þad sem skéd er fyrir mørgum øldum, eda nýúngar þær sem engan stad hafa, þvi þad sem lidid er lifir eg ecki upp aptur, og þad sem byggt er i löptinn, eru skÿ sem rjúka á braut þá til þeirra á ad taka; þid megid ecki taka ord mín svo, ad eg haldi ad þad sé ónaudsynligt og einkisverdt ad vita hvad til hefir borid á serhvørri undanfarinni øld, og ad hrepta skynsamliga til i ymsum hlutum, þvi þad væri hin mesta heimska, en eg meina hitt, ad menn eigi ecki ad sýkjast i þad gamla af tómri forvitni, án þeis ad hafa þann tilgáng ad læra af þvi þad sem kynni ad géta ordid ad notum á þeirra tímum, eda ad hlaupa eptir serhvørri nýrri rádagérd, á medan ecki er skodad, hvørt hún muni géta ordid til nockurrar nytsemi á þeim stad og tíma sem vér lifum.

Adkm. Þú hefir þagad á medan hinir hafa talad, Sighvatur minn! en þo hefir þú nú talad miklu meira enn þeir. Þú ert eins og forfedur vorir, þú álygtar ecki fyrri enn þú hefir hugsad, og talar ecki fyrri enn þú hefir álygtad, en þá talardu eins og réttum Islendíngi sæmir.

Sighvatur. O eg vildi ad eg ætti þetta hrós skilid! mér þykir engin sómi meiri enn sá ad tala og géra eins og réttum Islendíngi sæmir.

Þiódólfur (heldur lángeigdur). Tala eg þá ecki eins og rèttum Íslendíngi sæmir?

Adkm. Þig vantar þad til ad þú hugsar oflitid, og álycktar og talar offljótt.

Þiódólfur. Er þad þá offljótt álycktad og offljótt talad, þegar eg segi: ad ecki muni vera hægt ad umbæta þad framar, sem vidgengst manna á milli, því ef þad hefdi verid møguligt, þá væri búid ad því fyrir lifandi laungu, þar þær sømu sýslanir hafa verid hèr í landi allt frá þess byggíng, eda ad ecki muni fleiri bjargrædisvegir gèta artast hèr i landi, því forfedurnir væru þá búnir ad taka þá upp? (svarar sèr sjálfur) — Nei nei! ecki vonar mig þad; vid þurfum ecki ad vera ad því affectinu því arna, vid komustum ecki hærra enn þetta. Þad er best ad hafa hvad eina eins og þad hefir verid haft híngadtil, og láta svo vera. En ef þeir lærdu vildu sjá til ad minka áløgurnar á ockur hèrna bændunum, einkum hreppsþýngslin, þad væri bædi mannligt og mikilsverdt, þad er þad eina sem þeir gætu gért ad gagni; enn þeir eru ecki óþessligir, þeir kæra sig eckert um þad.

Adkm. Ecki er fritt fyrir því ád þú hafir géfid þèr oflitinn tíma til ad hugsa og álykta, ádurenn þú sagdir þetta. Þad er ad sønnu ecki ólikligt, í fyrsta áliti, ad þær sýslanir sem hafa verid tíd-

kadar um margar aldir, af sama fólki og í sama landi, séu ordnar svo fullkomnar sem kostur er á, og eins hitt, ad þar sé búid ad taka upp alla bjargrædisvegu, þá sem møguligir eru; en vid megum ecki láta ockur nægja med þad sem er líkligt, þegar kostur er á ad ødlast vissu, en fáist eingin vissa, þá eigum vid ad safna øllum þeim líkum sem til eru á bádar sídur, ádurenn vér ályktum.

Þjódólfur. Hvada líkur? eg ætla þú munir ecki fá margar líkur á móti því sem eg segi, og því sídur vissu.

Adkm. Bíddu nú vid! taktu nú eptir! Ef vid nú findum í fornum søgum, ad margar sýslanir og flestir búnadarhættir hefdu verid fullkomnari hjá forfedrum vorum enn nú á døgum, og ad þeir hafi tídkad ymsa bjargrædisvegu, sem nú eru týndir og gleymdir, — hvad gætum vér þá ályktad af því?

Þjódólfur. Ad forfedur vorir hafi verid ockur meiri.

Adkm. Eda ad veraldligum sýslunum hafi farid aptur enn ecki fram hjá oss, sídan á fornøld; og þar eg gét nú sagt þér þad uppá víst, ad svo er í mørgu, þá er þín ályktan raung. Þetta var nú fullkomin vissa. En vid gétum þaradauki safnad fleiri líkum sem styrkja þad

sama. Er þad þá fyrst, ad hér í landi hafa al-drei verid neinir skólar, sem hafa ként gjöranlig vísindi (þeckingu, og kunnáttu í veraldligum sýsl-unum, sem Danir kalla: oeconomiske, statistiske og merkantilske Videnskaber, og alla í einu: prac-tiske Videnskaber), og eckért félag, nema Lærdóms-listafélagid um nockur ár; þarnærst liggr landid svo lángt frá öllum ödrum löndum, ad Íslend-íngar hafa mjög lítid sidblendi vid adrar Þjódir; héraf leidir, ad fátt af því, sem adrar Þjódir læra, berst til vor, og þó þad bærist híngad, þá er landsins ædli svo ólíkt útlöndum, ad fátt af því gétur artast hjá oss, án töluverdra breytínga. Enn er þad, ad oss vantar aud og ríkidæmi, sem er kraptur þeirra hluta er gérast skulu. Yfir þessu þurfa ecki adrar Þjódir í Nordurálfunni svo mjög ad kvarta, enda eru þær komnar miklu lengra enn vér í veraldligum sýslunum, en samt sem ádur sjá þær allar, ad mikid sé ábóta vant vid þad algenga, hjá hvörri fyrir sig, og þad því gloggvar sem þær taka meiri framförum. Eg vil færa eitt eda tvö dæmi til sönnunar máli minu. Í Danmörk hefir akuryrkja tídkast frá alda ödli, og þótt hún hafi tekid miklum framförum á seinni tímum, þá sjá þeir þó sem vit hafa á, ad enn er mikid ábóta vant; sama er ad segja um maturta og aldingardarækt. Ættbrædur vorir

í Noregi hafa og svo tekid miklum framförum á seinni tímum, í því er tídkad hefir verid hjá þeim frá alda ødli, þó eru mest brøgd ad því sídan þeir fengu háskóla (1811), og sídan landsstjórnin kom í þeirra eigin hendur (1814), því á þeim fáu árum er sídan eru lidin, hafa þeir tekid eins miklum framförum, eins og á heilli øld á undan, má þad, á medal annars, sjá af því, ad fólkstalan hefir vaxid um fullann fjórdúng á nefndu tímabili, og þó þykjast þeir enn eigi komnir á hálfa leid. Nýir bjargrædis vegir eru ogsvo smámsaman innleiddir í þessum løndum.

Þegar þessu er nú svona varid í útløndum, þá megum vid nærri géta, ad því sé þeim mun midur farid hjá oss, sem þar eru meiri líkur til. Annars er þad eptirtektaverdt, ad almenníngur hefir ætlad, á serhvørri øld og í sérhvörju landi, ad þær almennu sýslanir væru ordnar svo fullkomnar, ad þar yrdi engu vidbætt, en 50 árum þar eptir hafa menn séd, ad þad høfdu verid missýníngar.

Þjódólfur. Ihi! já hvad ertu ad segja? þetta vissi eg ecki; kannské mér hafi skeikad í því; en þad veit eg þá alltént, ad eg hefi haft rétt í því, ad þad væri gott ad mínka áløgurnar.

Adkm. Já eg samsynni þér í því, enn hvørnig villtu láta fara ad því?

Þjóðólfur. Eg veit ecki. Einhvørnveg-
inn; það er líkligt að þeir géti fundið eitthvørt
ráð til þess, lærðu mennirnir, sem vita svo mikið.
Ef eg væri lærður þá, — þá skyldi eg .....

Aðkm. Það veit eg vel, Þjóðólfur minn!
ecki létir þú þitt eptir liggja ef þú værir í þeirri
støðu; en þú sérð sjálfur að ecki gétum við farg-
að gamalmennunum, eða látið úngbørnin vaxa
og verða fullorðin á fáum døgum.

Þjóðólfur. Hvørr andskotinn — Guð blessi
skip og menn! — ætla láti sér detta það í hug?
Eg meina ecki annað enn það, að láta hrepps út-
svarið vera minna.

Aðkm. Eg skil þig, Þjóðólfur minn! enn
á meðan að niðursetúrnar eru eins margar, þá
þarf eins mikið handa þeim, og þarf það ein-
hvørstaðar að taka; eða hvørt sér þú nockuð
annað ráð?

Þjóðólfur. Þú verður að segja þér sjálf-
ur øll ráð.

Aðkm. Nú! Ef þú bærir þúnga byrði á
bakinu, hvørt vildir þú þá heldur að það væri
plockað af henni, þángað til hún yrði létt, eða
að kraptar þínir jykist svo, að þér fyndist hún létt
og gætir kannské bætt meiru á þig?

Þjóðólfur. Það er æði munur; eg tæki

i

þann seinni kostinn strax, og hefdi ábata á því, enn skada á hinu.

Adkm. Þegar mikil þýngsli eru á einum eda ödrum hrepp, hvort væri þá betra ad hrepps limirnir bæu í hópatali, eda ad hreppurinn tæki svo miklum framförum í velgengni, ad honum ecki veitti erfidt ad framfæra þá?

Þjódólfur. Þad seinna væri betra, held eg, en hvornig getur heilum hrepp farid svo mikid fram í velgengni?

Adkm. Hvornig fer einstöku mönnum fram í velgengni?

Þjódólfur. Annadhvort med heppni eda ástundan og útsjónarsemi, og verda allir þeirra limir ad vera vel æfdir, svo höndurnar á þeim standi ecki úr.....

Adkm. Rétt er þad, en útsjónarsemi og ástundan og æfing er þó áreidanligri enn heppnin; en ef vel á ad fara, verda þær ad vera sprottnar af sanngudligu sinnislagi, eins og getid er um í prédikuninni og þar er lýst, því þad á ad vera sálin í vorum gjördum. Eitt heimili er ad álíta eins og einn mann, því allir þeir sem á því eru eiga ad stefna ad einu takmarki, sem er: Heimilisins vellídan, eins og allir limir mannsins eiga ad þjóna ad hans farsæld. Séu heimilismenn-

imir latir, og hússtjórnin lin og lélig, þá fer því heimili ecki betur enn burunalausum leiknngja. Sé húsbóndinn útsjónarsamur og ástundunarsamur, en vinnufólkid latt og ódygt, annadhvört allt eda sumt, þá er heimilid eins og kappgjarn madur sem hefir ablvana hönd eda fót; honum verdur allt ad handaskolum þegar hann vill taka til einhvörs, og sellur á höfudid þegar hann vill kasta undir sig fótum. Sé húsbóndinn burunarlaus og latur, enn vinnufólkid dugligt, þá er heimilid eins og madur sá er hefir veikt höfud en sterka limu, því þegar höfudid er þúngt og þrúngid af dofa og svefni, þá sofa hinir limirnir líka. En séu húsbændur og vinnuhjú samanvalin sanngudhrædd, útsjónarsöm og ástundunarsöm, þá er heimilid líkt þeim manni sem hefir heilbrigda sál í heilbrigdum og velæfdum líkama, svoad sálin hyrar ádur enn hún ályktar, en limir líkamans hlýda hennar bodum. Þeim manni og því heimili sem svo er háttad, vegnar allstadar vel. Einn hreppur getur ogsvo álitist eins og einn madur, og eru þá öll heimilin í hönum limirnir; en þad band er samtengir þá alla, og einkum lætur sínar verkanir í ljósi í hreppstjórninni, er þa sálin í þessum limum. Sé nú margt af slíkum heimilum í hreppnum, sem eg taladi um í þremur fyrstu lýsingunum, og hreppstjórnin eins og húsbænd-

urinn eda húsfstjórninni er lýst, þá er ecki von ad hreppnum vegni vel eda ad hann geti borid mikinn þúnga, en séu flest heimilin eins og þad sem seinast var lýst, og hreppstjórnin fari þareptir, þá fer hann létt med þá byrdi er hann gat ecki vogad ádur. En byrdin verdur ecki einúngis léttbærari þessvegna, ad hreppnum vex kraptur, vid þad, ad allir hans innbyggjarar sýna sitt ráðvanda hugarfar í ástundan og kostgæfni í sínu kalli, hún verdur einnig minni í sjálfri sér, því þar keppist hvorr vid ad verda ei ödrum til þýngsla, og tekst þad líka í lengstu lög, en þar sem óráðvendni og leti sitja vid háborðid, þar skyrrast menn ecki vid ad slengja sér og sínum uppá hreppinn ad naudsynjalausu; þeir eiga börn í hórdómi og lausaleik, rétt ad gamni sínu, og segja, heldur enn ecki hródugir, ad hreppurinn hafi nógu breidt bakid til ad taka á móti krónum þeirra. Svona eru þeir samvitskulausir.

Þarna sérdu nú, Þjódólfur minn! ad annarsveins og fólki er innrætur Guds ótti og góðir sidir, og útsjón og ástundan í sínu kalli, undireins minka álögurnar, því kraptarnir aukast og byrdirnar minka; þetta er só einasti og beinasti vegur til þess, og verda allir adrir vegir ad koma saman vid hann, ef þeir eiga ad verda ad nockrum notum.

Þjódólfur. Aha! stendur svona á því! það hefir ad sönnu vablast fyrir mér, því þegar sett hefir verid nidur, þá hefi eg opt óskad ad margir bændur í hreppnum væru adrir eins og hann Godsvinnur á Sólheimum, og eg sjálfur, þó lítid sé, þá er það svo sama ad e......... því þá kæmi útsvarid jafnara nidur á alla. En þá eru skattarnir eptir, þeir minka þó ecki, þó velgengnin vaxi. Það væri gustuk ad minka þá dálítid, eg skil ecki hvad þeir eiga ad þýda.

Adkm. Þó ad tala skattanna vaxi med almennari velldan, af því skattbændurnir verda fleiri, þá verda þeir þó léttbærari eins og hreppsþyngslin, og enganvegin ætla eg þad rádligt ad þeir væru minkadir úr því sem þeir nú eru.

Þjódólfur. Ecki! þar lá alltént ad! það mátti eg vita ad þú........

Sighvatur (ýtir i Þjódólf). Hís! það hefir Sýslumadurinn minn sagt mér, ad skattarnir ockar hérna í Íslandi, séu ecki mikid á móti skottum þeim sem bændurnir í útlöndum mega greida.

Adkm. Nú vil eg reyna til ad géra þér skiljanligt hvornig stendur á skottunum. Födurlandid, eda réttara sagt, það mannliga félag sem lifir í því, líkist mannligum líkama í mörgu, vil eg því géfa því stittra nöfn og kalla það Þjódarlíkama. Hinn mannligi líkami er samansettur

af einstökum limum, stærri og smærri, s. s. eru handleggir, fingur og s. frv; um Þjódarlíkamann er sama ad segja, og eru þá limir hans t. d. sýslur, hreppar, heimili og loksins hvørr einstakur mádur. Sérhvørr limur hins mannliga líkama lifir sínu eigin lífi, ad svo miklu leiti sem hann er partur útaf fyrir sig, og passar uppá ad draga til sín frá líkamanum þad sem hann vidþarf, til ad geta lifad, t. d. blód, næríngarsafa og s. frv. en hann lifir einnig því lífi sem allur líkaminn lifir, því ef líkaminn verdur sjúkur, sýkist hann med, og ef ad hann sjálfur verdur sjúkur, verdur allur líkaminn krankur, þó meira eda minna eptir því hvad limirnir eru margir sem sýkjast, eda stórir eda mikilvægir; þannig er munur á ad hafa einn fingur veikann eda marga, ad hafa fingurinn veikann eda armlegginn, ad hafa armlegginn veikann eda hjartad eda höfudid, þar hvørt um sig er midpúnktur, þad fyrra fyrir blódrásina, því þad tekur á móti blódinu frá öllum líkamanum, og spýtir því út í hann aptur, og þad sídarnefnda fyrir tilfinnínguna, því þángad snúist hún ad streyma frá öllum líkamans limum. Svona er því einnig varid med Þjódarlíkamann; sérhvørr limur hans lifir ad sönnu sínu eigin lífi, en hann lifir ogsvo því lífi sem allur líkaminn lifir. Þad er undireins sjúkdómur hjá hönum þegar einn af

limum hans er ecki heilbrigdur, en hann eikst þó eptir því sem fleiri eru, og eins eptir því sem limirnir eru stórir. Þannig er þad stærri lasleiki hjá Þjódarlíkamanum, þegar heilir bæir eda heimili eru kvillt, (þ. e. óródvend, löt, ómennsku-lig) heldur enn þó einstakir menn séu þad, og þadanaf verst væri þad, ef heilir hreppar og heilar sýslur hefdu þenna kvilla, því þad gérdi allann Þjódarlíkamann lasinn. Þad er og eigi sídur skadligt fyrir hann, þegar þeir limir, sem eru mid-púnktur fyrir Þjódarinnar opinberu stjórnun (lands-stjórnina), þ. e. embættismennirnir og stjórnar-rádid, eru ecki eins og þeir eiga ad vera, heldur enn fyrir hinn mannliga líkama, þegar hjartad eda höfudid er veikt.

En sjúkdómar hinna einstöku lima géta haft ýmislig upptök. Þegar einhverr limurinn tekur uppá því, ef eg má svo ad ordi komast, ad neita líkamanum um sína þjónustu, þá neitar hann sjálf-um sér um hana líka, og hlýtur ad visna upp, og ef hann er stór eda mikilvægur, visnar líkaminn upp med honum. Eg vil taka armlegginn til dæmis: vilji hann ecki taka á móti blódinu sem kémur frá hjartanu, og næríngarsaftinni sem þad færir med sér, þá hlýtur hann ad visna upp, og vilji hann ecki senda tilfinnínguna til höfudsins eda hlýda sálarinnar bodum (þ. e. ef han er tilfinn-

Ingárlaus og adlslaus), þó er hann ecki betri enn hann væri daudur, og er hann þá líkamanum til armædu einnar og byrdi. Eins er því varid í Þjódarlíkamanum. Sá sem er órádvandur, huxunarlaus og latur (hvort sem þad eru einstakir menn eda stærri limir), og hvorki notar þad tilbærilíga sem Gud hefir frambodid hönum til lífsins vidurhalds, eda hlýdir landsins lögum (sem eru sálin í Þjódarlíkamanum), hönum vegnar aldrei vel til lengdar, og verdur ödrum til armædu og byrdi. Stundum er þad, ad einhvörr limur hins mannliga líkama ecki neitar hönum um sína þjónustu, blátt afram, af því hann vill þjóna sjálfum sér, en dregur þó meiri vessa frá líkamanum, og þeim limum er nærskir liggja, enn hönum ber, og géfur eigi svo mikid frá sér aptur sem vera á, en med þessu verdur hann sjálfum sér til ólucku, því hann þrútnar og fær ókomur eda axli eda átumein; hinir limirnir mega einnig naudugir viljugir taka þátt í hans sjalfskapudu þjáníngum, auk þess er þeir máttu í missa vid þad er hann hafdi rángliga frá þeim, og er þad eigi allsjaldan ad þeir vissna upp og veslast af því. Þessi sami sjúkdómur er eigi osjáldgæfur í Þjódarlíkamanum, því sá sem dregur allt þad undir sig frá ödrum er hann má, med hvörjum vélum og brögdum sem vera skal, og géfur eigi hvörjum sitt, hann er

sannarligt átumein í landinu, og samdráttur hans verdur hönum jafnan til þýngsla og ödrum til nidurdreps.

Enn er hinn mannligi líkami og Þjódarlíkaminn áþeckir í því, ad þegar sérhvörr limur, í hvörjum fyrir sig, er þad sem hann á ad vera, og framkvæmir þad sem hann á ad framkvæma, hvörr eptir sínu edli eda stödu, tekur þad sem hönum er ætlad og ecki meira, og skilar hinum limunnum því sem þeir eiga med réttu, þá þjónar hvörr limur sjálfum sér best, þótt hann einnig þá þjóni dyggiligast fyrir hina limina og allann líkamann; þá er allur líkaminn heill og hraustur og allir limirnir med hönum.

En nú kém eg ad því sídarsta sem líkt er med þeim, og þad er þetta: ad þeir hvörrtveggi þurfá vidurværi eda fædslu, til þess ad þeir og þeirra limir géti lifad og haldid heilsu. Í hinum mannliga líkama verda limirnir ad útvega fæduna og þjóna ad henni, enn maginn tekur á móti henni og meltir hana, og sendir hana sídan í þagnarþegi úti allann líkamann. Í Þjódarlíkamanum er því alltadeinu varid, limirnir verda ad útvega fæduna og eru þad skattarnir, enn landsins féhyrdsla er maginn, sem tekur á moti þeim og meltir hún þá þannig, ad hún gérir þá ad peníngum; þessir skattpeníngar gánga þadan aptur

til ad halda vid skólanum, og til ad launa embættismønnunum, og til annara opinberra stiftana. En úr skólanum koma kénnimennirnir, sem verka á hvørn lim í øllum þjódarlíkamanum, og kénna Gudsord, er annars mundi afbakast og falla í gleimsku, og hinir veraldligu embættis menn sem heyra á mál manna, eg vernda frelsi þeirra og réttindi; væru þeir eigi mundi engum óhult ad leggjast í hvílu sína nú á døgum, framar enn á Sturlúnga tíd, vid þurfum ecki annad en sjá þau ódádaverk sem árliga eru framin þótt kénnimennirnir kosti alls kapps um ad betra hjartad, og yfirvøldin ad hegna réttarins yfirtrodslumønnum. Svona koma skattarnir aptur í þagnarþeigi hvørjum einum til nota sem géldur þá.

En Svosem þad er víst, ad því landi, hvar engir skattar gjaldast, eigi fer betur enn þeim líkama er svelltur, þannig mega þeir heldur ecki vera of þúngir, því þá fer landinu eins og þeim manni sem ofþýngir líkamann med ofmikilli fædu. Allt verdur ad vera í hófi ef vel á ad fara; en eins og høndin eda fóturinn gétur ecki sagt oss hvørt vér høfum neytt ofmikillrar eda oflítillrar fædu, heldur vor sál sem á ad afskamta þad, eins gétur ecki sérhvørr limur á þjódarlíkamanum sagt, hvørt skattarnir eru ofmiklir eda

oflitlir, heldur þeir sem hafa landsstjórnina á hendi, þeir verda ad finna þad rètta hóf, ad svo miklu leiti sem þad er audid. Af þessu sèrdu Þjódólfur minn! ad skattarnir eru naudsynligir og gagnligir fyrir alla, og undireins ad þad er mikill vandi ad segja hvad miklir þeir egi ad vera; þad er því best fyrir ockur ad gjalda ockar skyldur og skatta med gódfúsu gèdi, eins og Gud hefir bodid, og láta þá, sem hafa landsstjónina á hendi, sjá fyrir því ad þeir hvorki verdi oflitlir eda ofmiklir, og reida ockur á þad, ad þeir gèri þad svo vel sem þeir géta; þad hefdum vid gèrt hefdum vid verid í þeirra sporum, og megum vid ecki ætla þá lakari enn ockur.

Þjódólfur. Jhi! ja hvad ertu ad segja! er þad svona! jæa, hana þá! vid skulum þá sleppa því; eg skal gjalda skattinn, fyrst eg hefi gagn af því mig munar ecki svo mikid um hann.

Sighvatur. Hann er þyngstur fyrir þá sem hlma í því ad ega ad gjalda skatt, og gjalda þeir þó optast med eins gódu gèdi.

Adkm. Þad segir þú satt. En nú ætla eg ad segja yckur hvad vid gétum ennframar ályktad af því hvad Þjódarlíkaminn og hinn mannligi líkami líkjast hvorr ødrum. Vid skulum ecki ætla ad þad sè ordid af hendingu, heldur hefir Skaparinn ætlast svo til, ad þad skyldi vera eins mikil

eindrægni á milli allra lima hins fyrnefnda tilkomu, eins og milli lima hins síðarnefnda, og egum við sjálfir að stuðla til þess að það verði, því það er mikið komið undir ockur sjálfum.

Önundur. Þetta kann nú að vera alltsaman satt sem þú segir, gamli maður! en þó þenki eg að það muni ecki gjöra svo mikið til sakarinnar, þó að einn eða tveir ábland svo margra hlidri sér dálítið hjá.

Adkm. Þú átt aldrei að segja þetta, Önundur minn! eg heyri aldrei ljótara enn þegar einhvørr segir: það munar ecki um mig, það gildir einu þó eg gángi frá. Hvørnig helldurðu færi ef allir segðu þetta? þá yrði seinast engin eptir. Nei! hvørr einn á að segja: munur er að mannsins liði, lítið mynar, eða kornið fyllir mælirinn, og neyta svo þeirra krapta sem Guð hefir gefið hönum til að þjóna sér og föðurlandinu, því hann má vera viss um, að hann verður krafinn til reiknings af sínu pundi á sínum tíma.

Sighvatur. Eptirtektaverdt er það allt sem þú segir, gamli maður! þykist eg sjá að það sé inngángurinn til þess er þú ætlar þér að tala eptirleiðis, því eg vona eptir að þú munir þá tala um ýmislig einstök efni sem viðkoma ockar stétt.

Adkm. Rétt getur þú til, Sighvatur minn!

þessi saga á ad vera formáli fyrir því sem eg kann ad tala hér á eptir; en nú er ordid svo framordid ad ecki verdur miklu vidbætt í þetta sinn.

Sighvatur. Nú eru skipin komin, segdu ockur nockud af verdlagi á þeim kaupmannsvørum utalands, sem vckur kunna ad varda, ádur enn þú skilur vid ockur.

Adkm. Þad er þá verdlag á hinum íslendsku vørum sem yckur vardar helst ad vita, svo ad þid gétid séd hvørr munur er á veltilbúnum og illa tilbúnum vørum; en svoad þid gætud séd þad enn betur, þá ættud þid ad fá ad vita verdlag á hinum sømu vørum frá Færeyum. Þarna er Tabla yfir þá alla, Sighvatur minn! lestu nú hátt svo hinir heyri:

Sighvatur les:

## Tabla

yfir verdlag á íslendskum og færeyiskum vørum í Kaupmannahøfn veturinn 1828 og 29.

1) Íslendskum vørum

| | | lægsta verd | hærsta verd |
|---|---|---|---|
| Fiskur saltadur (klipf) | 1 Skpd. | 15 Rbd. ß. | 24 Rbd. ß. |
| — hardur | . . . . . | 12 — ; | 16 — ; |
| Ull hvít 1 Pd. | . . . . | ; — 14 | ; — 16 |
| — nordlendsk 1 Pd. | . | ; — 16 | ; — 20 |

| | lægsta verd | hæsta verd |
|---|---|---|
| Lýsi 1 tunna . . . . | 23 Rbd. ß. | 28 Rbd. ß. |
| Tólg 1 Pd. . . . . | = — 22 | = — 24 |
| Ædardún 1 Pd. . . | 2 — 32 | 3 — = |
| Peisur Stk. . . . . | = — 64 | 1 — 32 |
| Sockar parid . . . | = — 20 | = — 38 |
| Vetlingar . . . . . | = — 6 | = — 10 |
| 2) á Færeyiskum vörum. | | |
| Fiskur (hardur) 1 Skpd. | 14 — = | 22 — = |
| Lýsi 1 tunna . . . . . | 24 — = | 29 — = |
| Tólg 1 Pd. . . . . . | = — 19 | = — 22 |
| Fidur 1 Pd. . . . . | = — 24 | = — 26 |
| Ædardún 1 Pd. . . | 3 — = | 3 — 32 |
| Sockar óvandadir, parid | = — 30 | = — 42 |
| vandadir, parid . | = — 48 | = — 58 |
| Peisur . . . . . . . . | = — 64 | 1 — 64 |
| Vetlíngar parid . . . . | = — 8 | = — 10 |

Þjódólfur. Hvad er þetta? hvada ógnar munur er á prísunum! Hvad kémur til ad Færeyíngar fá meira fyrir harda fiskinn sinn enn vid?

Adkm. Ecki einúngis fyrir harda fiskinn; heldur og einnig fyrir lýsid og ædardúninn og peisurnar og sockana og vetlíngana.

Þjódólfur. Þvi! þeir fá þá meira fyrir allt! Eg þykist sjá ad vid séum hafdir útundan.

Adkm. Nei, ecki kémur þad til af því, held-

ur af hinu, ad þeir vanda betur vörur sínar enn vér, enda uppskéra þeir nú ávextina af því. Vörum ockar hrakar þarámóti aptur, ár frá ári, einkum tóvörunum, og liggur þegar vid bord ad engin vilji nú sjá þær meir utanlands, og megum vér þá sitja med þær sjálfir, og hafa vanvyrdu til þacka; þó vil eg eigi dylja ydur þess, ad Færeyíngar hafa ecki haft eins margar freistíngar eins og vér, til ad gánga hrodaliga frá vörunum, því þar er konúnglig kaupverdslan, og fast verdlag á öllum vörum, bædi hinum betri og hinum lakari, en vér egum ad sýna upplýsingu ockar og hugreckí í því, ad yfirvinna freistíngarnar og feta í fótspor Færeyínga, þad verdur ockur til hamíngju med tímanum.

Þjódólfur. Þetta kann nú ad vera svo í Færeyum, en hvad kémur þá til þess ad svo mikill munur er á verdinu á íslendsku vörunum, þar skil eg eckért í.

Adkm. Þad er ad mestu leiti sama um sökin, gódurinn minn! þ. e. ad skilja, ad sumir vanda vörurnar betur enn sumir, svo ad úrvalid úr þeim nær hinu hærra verdi, en þær lakari eru lægra, og þær sem verstar eru vill engin eiga, og mega kaupmennirnir sitja med þær, en vér hafa mikla vanvyrdu af, því af þessu þykjast útlendir géta ályktad, ad vér séum sódar og letingjar, og

eg veit ecki hvad, og gengur þetta ómæli jafnt yfir alla. En auk vanvyrdunnar, sem er verst af öllu, höfum vér einnig skada á þessu, þvi þegar kaupmennirnir reka sig á þetta, þá þora þeir ecki ad gèfa eins mikid fyrir vörurnar árinu eptir hjá ockur, og mismun gèra þeir ecki á hinum betri og lakari vörum, eda mjög sjaldan. Þetta er þad sem tælir ockur, sem von er, þvi þegar vid fáum ecki meira verd fyrir gódar vörur enn slæmar, þá er varla von ad vér viljum eyda tima og erfidi fyrir gig. En vér skulum ecki láta kaupmennina, eda verdslunarmáta þann sem nú er (þvi kaupmennirnir ega einnig i vök ad verjast, þar vér hótum þeim ad fara med varning ockar til annara, ef þeir ecki gèfi ockur þad hæsta verd, sem þeir uppkveda, eins fyrir úrkastid eins og úrvalid) narra ockur lengur. Vid skulum fylgja dæmi Eifyrdinga, sem um lánga tima hafa skarad lángt framúr öllum ödrum i tóvinnu, þvi hvört par af sockapörur þeirra gengur 4 til 8 skild. meira i Kaupmannahöfn enn þad sem kémur frá ödrum hérödum landsins. Vid skulum fylgja dæmi þeirra er fiski-duggur ega, og annara er verja ómaki til ad vanda verkun á fiski, þvi skip-pundid af hönum gengur 6 til 8 Rbd. meira i Kaupmh. Vid skulum fylgja dæmi hvörs þess sem vandar vörur sinar, og yfirtala nábúa og

sveitúnga til hins sama, svo vid verdum allir samtaka, þad verdur ockur til hags og yyrdíngar.

Þjóðólfur. Ef eg hefi gagn af því ad vanda vörurnar þá vil eg gjöra þad, en mér þykir verst ad eg kann þad ecki, þú ættir ad kénna mér þad, gamli madur!

Adkm. Eg vil géra tilraun til þess einhvorntíma seinna meir, en nú er eigi tími til þess.

Önundur. Eg óskadi helst ad heyra nockud um behandlíngsmátann af fiski.

Sighvatur. Æ! ætlærdu nú af stad, gamli madur! Mig lángar til ad heyra meiníngu þína um svo marga hluti ennþá, t. d. um allt þad sem þénar til ad rækta og hyrda tún, því þau eru akurinn ockar hérna í Islandi; um þad hvornig maturtir verdi best hagnýttar og matbúnar; um jafnvægi matartegundanna sín á milli til búdrýginda, og fleira.

Adkm. Eg skal géra yckur þá úrlausn er eg má, seinna meir, bædi um þetta og annad, en nú er dagur ad kvöldi kominn, og mál fyrir yckur ad matast og sjá yckur fyrir næturstad. Komi fleiri híngad enn þid, ad ári, þá bid eg yckur ad sjá til ad þeir skrifi nöfn sín á steininn, og eins verdi einhvorr yckar edir, þá skrifi hann einnig nafn sitt á steininn, svo eg viti hvad margra eg má vænta. Gud leidi yckur farsælliga, og

gefi yckur hamingju til allra yckar fyrirtækja!

Vid þessi ord leid Adkomumadur frá augum þeirra ofanî Almannagjá, en þeir Sighvatur stódu eptir á backanum, og horfdu hvorr uppá annann, lôksins tekur Þjódólfur til orda.

Nú er eg hreint hissa á honum Armanni, heidingjanum, ad hann skuli vera ad fara med Guds ord. Eg er farinn ad halda ad hann sé þad ecki.

Önundur. Þad máttir þú vita fyrri, toskinn þinn! ad hann væri þad ecki.

Þjódólfur. Nú! þú varst ecki betri, þú héldst þad lîka, hananú!

Sighvatur. Ecki lîkist þetta eindragninni sem hann gamli madur var ad tala um; hættid þid nú! Má yckur ecki vera þad sama hvorr þessi gamli madur er, þegar þid vitid þad uppá víst ad hann vill yckur vel? Eg hefdi getad sagt yckur þad strax î fyrra, ad ecki mundi þad Armann vera úr Armansfelli, en fyrst hann lîtur svo elliliga út, og hann ætlar ad koma hingad til ockar árliga, þá skulum vid kalla hann Armann, ámedan vid ecki vitum hans rétta nafn; vid verdum ad gefa honum eitthvort nafn hvort sem heldur er, og gildir þá einu hvad vid veljum.

Þjódólfur. Já! þad er satt! en hvorr ætli

hann sé? kannské þad sé hann Snorri Godi, eda hann Njáll, eda kannské þad sé hann Hallur á Sídu eda Sæmundur fródi, eda einhverr af þessum köllum.

Sighvatur. Ockur vardar ecki um þad, hverr hann er, ef hann segir ockur gódar sögur en ætlid þid ad koma aptur ad ári?

Þjódólfur. Ecki sé eg ad eg géti grædt neitt á þessari sögu ad sinni, en þó taladi madurinn skickanliga; — Já eg held þad! kannské eg grædi meira á þeirri sem kémur ad ári.

Önundur. Já eg kém, mig lángar þó til ad heyra hvad hann segir, þad var þó sumt nógu gott sem hann fortaldi, eg innsé þad núna þegar eg fer ad gæta ad á eptir.

Sighvatur. Eg ætla ad koma, ef Gud lofar! svo vid sjáumst þá hérna aptur.

Þjódólfur. Hananú! nú er best ad fara af stad, þad er komid undir kvöld.

Önundur. Nei, heyrdu, Þjódólfur minn! hvad hastar? súptu fyrst hérna á, — skol! (sýpur á).

Þjódólfur. Skol!

Sighvatur. Eg packa!

Þjódólfur. Sýpur á þegjandi.

Sighvatur. Nú skulum vid drecka Íslands minni, og eindrægnis minni allra Íslendínga.

Sighvatur og Önundur syngja:

Eldgamla Isafold
Ástkæra fósturmold,
Fjallkonan fríd!
Mögum þín muntu kær
Medan lönd gyrdir sær,
Og gumar girnast mær,
Gljár sól á hlíd.

Þjódólfur og Sighvatur syngja:

Ísland má sanna
Þad átti val manna
Þá allt stód í blóma. og sv. frv.
Land lögum vordu,
Þeir vigtug rád gjördu
Svo vandrædin hættu. og s. frv.

Verfákum vöndum
Med bifroknum bröndum
Þeir bægdu frá ládi;
Byr saung í böndum,
Á brimvallar gröndum,
Þá beittu vid grádi og s. frv.

Sighvatur og Önundur syngja aptur:

Eldgamla Ísafold
Ástkæra fósturmold
Fjallkonan fríd!
Agætust audnan þér

Upplyppi bidjum vèr,
Medan ad uppi er
Öll heimsins tíd!

Þeir súpa allir á.

Þjódólfur. Gudlaun fyrir mig!

Önundur. Sèlvtak!

Þjódólfur. Hananú! Hananú! á stad. Verid í gudsfridi.

Sighvatur. Gud veri med þèr.

Önundur. Adius! Adius! Farvel alle man! lif vel!

Þeir kissast allir.

---

# Prentvillur.

Hafa ordid miklu fleiri enn vér vildum, bidjum vér lesarann ad fyrirgéfa þad og lesa í málid.

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Blſ. | 1 | Lin. | 3 | ístf. | „reikudu" les „þeir reikudu" |
| — | 6 | — | 17 | — | „eg hefid aldrei séd þær (i hálfum hjódum)" l. (i hálfum hljódum) eg hefi aldrei séd þær;" |
| — | 10 | — | 24 | — | „biggadar" l. „bjagadar" |
| — | 12 | — | 27 | — | „og þó er" l. „og er þó" |
| — | 17 | — | 12 | — | „enn ad standa" l. „eda ad st." |
| — | 18 | — | 6 | — | „istandinn þess" l. í stad þess" |
| — | 24 | — | 1 | — | „þarhiá" l. „en þarhjá" |
| — | 31 | — | 1 | — | „enn" l. „eda" |
| — | 34 | — | 6 og 7 | — | Gásaraugun („) eiga ekki ad vera |
| — | 44 | — | 9 | — | „lýsinguna" l. „lýsingunni" |
| — | 52 | — | 29 | — | „þeir elskast" l. „tveir elskast" |
| — | — | — | 27 | — | „fer þá ekki" l. „fer ekki" |
| — | 55 | — | 20 | — | „vérnú" l. „vér nú" |
| — | — | — | 23 | — | „vissra" l. „einstakra" |
| — | 56 | — | 19 | — | „hallarétti" l. „halla rétti" |
| — | 53 | — | 2 | — | „ryfivinnur" l. „yfirvinnur" |
| — | 75 | — | 5 og 6 | — | „buskaparháttumi" l. búskaparháttum" |
| — | 110 | — | 16 | — | „gúknir" l. „gupnir" |
| — | 113 | — | 1 | — | „rádum" l. „verkum" |
| — | 117 | — | 26 og 27 | — | „gód Gud" l. gódi Gud" |
| — | 121 | — | 25 | — | „Iland" l. Islandi" |
| — | 125 | — | 2 | — | „Alrum" l. „árum" |
| — | 145 | — | 24 | — | „islendskt" l. íslendskt" |
| — | 161 | — | 25 | — | „ká" l. „káls." |

